títt at sofa. Þèr erut menn móðir af vási“. Ölvi líkaði þat vel. Síðan var sett borð ok gefinn þeim matr, brauð ok smjör, ok settir fram skyraskar stórir. Bárðr mælti: „harmr er þat mikill, er öl er ekki inni, þat er ek mega yðr fagna, sem ek vilda. Verði þèr nú at bjargast við slíkt, sem til er“. Þeir Ölvir váru þyrstir mjök ok supu skyrit. Síðan lèt Bárðr bera inn afr, ok drukku þeir þat. „Fúss munda ek“, kvað Bárðr, „at gefa yðr betra drykk, ef til væri“. Hálm skorti þar eigi inni. Bað hann þá þar niðr leggjast til svefns.

## 44. Kapítuli.

### Dráp Bárðar.

Eiríkr konungr ok Gunnhildr komu þat sama kveld í Atley, ok hafði Bárðr búit þar veizlu móti honum, ok skyldi þar vera dísa-blót. Var þar veizla hin bezta ok drykkja mikil inni í stufunni. Konungr spurði, hvar Bárðr væri, „er ek sè hann hvergi“. Maðr segir: „Bárðr er úti ok greiðir fyrir gestum sínum“. „Hverir eru gestir þeir“? segir konungr, „er hann lætr sèr þat skyldara, en vera hèr inni hjá oss“. Maðrinn sagði honum, at þar váru komnir húskarlar Þóris hersis. Konungr mælti: „gangi eptir þeim sem tíðast, ok kalli þá inn hingat“; ok svá var gjört, sagt, at konungr vildi hitta þá. Síðan ganga þeir. Fagnaði konungr vel Ölvi, ok bað hann sitja gagnvart sèr í öndvegi, ok þar förunauta hans utar frá. Þeir gjörðu svá. Sat Egill næstr Ölvi. Síðan var þeim borit öl at drekka. Fóru minni mörg, ok skyldi horn drekka í minni hvert. En er á leið um kveldit, þá kom svá, at förunautar Ölvis gjörðust margir úfœrir. Sumir spjó þar inni í stufunni, en sumir komust út fyrir dyrr. Bárðr gekk þá fast, at bera þeim drykk. Þá tók Egill

við horni því, er Bárðr hafði fengit Ölvi, ok drakk af. Bárðr sagði, at hann þyrsti mjök, ok fœrði honum þegar hornit fullt, ok bað hann af drekka. Egill tók við horninu ok kvað vísu:

Sögðut, sverriflagði!
suml-eklu þèr, kumla,
því tel ek, brjótr! þar er blètut,
bragðvísan þik, dísir.
Leyndut alls til illa
úkunna þèr runna
(íllt hafit bragð of brugðit,
Báruðr!) hugar fári.

Bárðr bað hann drekka ok hætta flimtun þeirri. Egill drakk full hvert, er at honum kom, ok svá fyrir Ölvi. Þá gekk Bárðr til drottningar ok sagði henni, at þar var maðr sá, er skömm fœrði at þeim, ok aldrigi drakk svá, at eigi segði hann sik þyrsta. Drottning ok Bárðr blönduðu þá drykkinn úlyfjani, ok báru þá inn. Signdi Bárðr fullit; fèkk síðan ölseljunni. Fœrði hón Agli ok bað hann drekka. Egill brá þá knífi sínum ok stakk í lófa sèr. Hann tók við horninu ok reist á rúnar ok reið á blóðinu. Hann kvað:

Rístum rún á horni,
rjóðum spjöll í dreyra;
þau vel ek orð til eyrna
óðs dýrs viðar róta.
Drekkum veig, sem viljum,
vel glýjaðra þýja;
vitum hvè oss of eiri
öl þat, er Bárðr of signdi.

Hornit sprakk í sundr í miðju, en drykkrinn fór niðr í hálm. Þá tók at líða at Ölvi. Þá stóð Egill upp, ok

tók í hönd Ölvi, ok leiddi hann til duranna. Egill kastaði yfirhöfn sinni á vinstri hlið sèr, ok hèlt á sverðinu undir skykkjunni. En er þeir komu at durunum, þá kom Bárðr eptir þeim með horn fullt, ok bað þá drekka velfararminni sitt. Egill stóð í durunum. Hann tók við horninu ok drakk af. Hann kvað þá vísu:

Öl bar mèr, því at Ölvi
öl gjörir nú fölvan;
atgeira læt ek ýra
ýring um grön skýra.
Öllungis kanntu illa,
oddskýs, fyrir þèr hnýsa,
rigna getr at regni,
regnþjóðr! Hárs þegna.

Egill kastaði þegar niðr horninu, en greip sverðit ok brá. Myrkt var í stufunni. Hann lagði sverðinu á Bárði miðjum, svá at blóðrefillinn gekk út um bakit. Fèll Bárðr niðr dauðr, en blóð hljóp ór undinni. Þá fèll ok Ölvir, ok gaus ór honum spýja mikil. Egill hljóp út ór stufunni, en niðamyrkr var á. Tók Egill þegar á rás frá bœnum. En í stufunni sá menn, at þeir váru fallnir Bárðr ok Ölvir. Kom þá konungr til, ok lèt bera til ljós, ok sá þá, hvat títt var, at Ölvir lá þar vitlauss, en Bárðr veginn, ok flaut í blóði gólf allt. Þá spurði konungr, hvar sá væri hinn mikli maðr, er mest hafði drukkit um kveldit. Menn sögðu, at hann gekk út. „Leiti at honum“, segir konungr, „ok látit hann koma til mín“. Þá var hans leitat um bœinn ok fannst hann hvergi. En er þeir komu í eldahús, þá lágu þar förunautar Ölvis. Konungsmenn spurðu, ef Egill hefði nökkut þar komit. Þeim var sagt, at hann hefði þar inn hlaupit, ok tekit vápn sín, ok út eptir þat. Þeir sögðu konungi. Hann

bað menn sína fara sem hvatast ok taka skip öll, er váru í eynni, „en í morgin, sem ljóst er, skulu vèr rannsaka alla eyna ok drepa manninn“.

## 45. Kapítuli.

### Flótti Egils.

Egill fór um nóttina ok leitaði þar til, er skip váru, en hvar sem hann kom til strandar, þá váru þar allt menn fyrir. Fór hann svá alla nóttina, at hann fèkk ekki skip. En er lýsa tók, þá var hann staddr á nesi nökkuru. Hann sá þá ey aðra, ok var þar sund í milli ok furðuliga langt. Þat varð þá ráð hans, at hann tók hjálminn, sverð ok spjót, ok braut þat af skapti, ok skaut því á sjó út, en vápnin vafði hann í yfirhöfn sinni ok gjörði sèr af bagga ok batt á bak sèr. Þá kastar hann sèr á sund, ok lètti eigi, fyrr en hann kom til eyjarinnar. Hón hèt Sauðey. Þat var ekki mikil ey ok hrísótt. Fènaðr var þar margr, naut ok sauðir. Lá þat til Atleyjar. En er hann kom í eyna, vatt hann klæði sín. Þá var dagr áll-ljóss ok sól farin. Eiríkr konungr lèt þegar rannsaka eyna, er ljóst var orðit; ok varð þat seint, er eyin var mikil, ok fannst Egill eigi. Þá lèt konungr fara til annarra eyja ok leita hans. Þat var um kveldit, at tólf menn rèru til Sauðeyjar. Skyldu þeir leita Egils, ok áttu at hafa þaðan slátrfè nökkut. Egill sá skipförina til eyjarinnar. Lagðist hann þá niðr í hrís ok fal sik, áðr skipit kom at landi. Þeir lètu þrjá menn eptir við skipit, en níu gengu upp, ok skiptu liði. Fóru þrír í hverja leit. En er leiti bar á milli skips ok þeirra, þá stóð Egill upp ok hafði áðr greitt til um vápn sín. Hann gekk þvers til sjóarins ok fram með sjónum. Fundu þeir eigi fyrr, er skipsins gættu, en Egill var kominn at

þeim. Hann hjó þegar einn banahögg, en annarr tók þegar á rás, ok var þar at hlaupa upp á bakka nökkurn. Egill hjó eptir honum ok af honum fótinn. Hinn þriði hljóp á skipit út, ok stakk við forkinum. Egill dró at sèr skipit, ok hljóp hann út á þat. Skiptust þeir litla hríð höggum við, áðr Egill drap þenna, ok rak hann útbyrðis. Síðan tók hann árar ok rèri í brott skipinu. Fór hann þá nótt alla ok daginn eptir, ok lètti eigi, fyrr en hann kom til Þóris hersis. En Ölvi ok förunauta hans lèt konungr fara í friði af þessum sökum. En þeir menn, er í Sauðey váru, þá váru þeir þar margar nætr ok drápu fè til matar sèr, tóku eld ok gjörðu seyði ok bál mikit þar á eynni, er vissi til Atleyjar, lögðu þar í eld ok gjörðu þar vita. En er þat var sèt, þá var róit til þeirra, ok fluttir til lands þeir, er eptir lifðu. Konungr var þá í brott. Fór hann þá til annarrar veizlu. En af Ölvi er þat at segja, at hann kom fyrr heim en Egill, ok váru þeir Þórólfr ok Þórir þó áðr heim komnir. Ölvir sagði tíðindi, dráp Bárðar ok þá atburði, er þar höfðu orðit, en hann vissi ekki til ferða Egils. Þórólfr varð við þetta all-úkátr ok svá Arinbjörn. Þótti þeim, sem Egill mundi eigi aptr koma. En eptir um morguninn kom Egill heim. En er Þórólfr varð þess víss, þá stóð hann upp ok gekk til fundar við Egil ok spurði, með hverjum hætti hann hefði undan komizt, eða hvat til tíðinda hefði orðit í ferð hans. Þá kvað Egill vísu þessa:

Svá hefi ek leyszt ór Lista-
láð-varðaðar garði
(nè ek fága dul drjúga)
dáðmilds ok Gunnhildar,
at þrymreynis þjónar
þrír nökkurir Hlakkar,

til hásalar Heljar
helgengnir, för dvelja.

Arinbjörn lèt vel yfir verkum þessum, ok segir feðr sínum, at hann væri skyldr til at sætta Egil við konung. Þórir segir: „þat mun mál manna, at Bárðr hefði verðleika til þess, er hann var drepinn, en þó er Agli of mjök ættgengt, at sjást lítt fyrir ok verða fyrir reiði konungs; þat verðr flestum mönnum þungbært, en þó mun ek koma þèr í sætt við konung at sinni“. Þórir fór á fund konungs, en Arinbjörn var heima, ok kvað eitt skyldu yfir þá ganga alla. En er Þórir kom á fund konungs, þá bauð hann boð fyrir Egil, bauð festu sína ok dóm konungs. Konungr var hinn reiðasti, ok var úhœgt at koma orðum við hann; segir, at þat mundi sannast, er faðir hans hafði mælt, at þá frændr mundi seint at tryggja; bað Þóri svá til haga, „þótt ek gjöra sátt nökkura, at Egill sè ekki langvistum í mínu ríki. En fyrir sakir bœnar þinnar, Þórir! mun ek taka fèbœtr fyrir menn þessa“. Gjörði konungr fèsekt slíka, sem honum sýndist, en Þórir galt allt, ok fór þá heim.

## 46. Kapituli.

### Frá hernaði Þórólfs ok Egils.

Þeir Þórólfr ok Egill váru þann vetr með Þóri í góðu yfirlæti. En um várit bjuggu þeir langskip mikit, ok fengu menn til; fóru um sumarit í Austrveg ok herjuðu; fengu þar of fjár ok áttu orrustur margar. Þeir hèldu til Kúrlands, ok lögðu við landsmenn hálfs mánaðar frið, ok höfðu við þá kaupstefnu. En er því var lokit, þá tóku þeir at herja ok lögðu at í ýmsum stöðum. Einn dag lögðu þeir at við árós einn mikinn, ok var þar mörk mikil á land upp. Þeir rèðu þar til uppgöngu.

Liði var skipt í sveitir, tólf mönnum saman. Þeir gengu yfir skóginn, ok var þá eigi langt, áðr en byggðin tók við. Þeir ræntu þá ok drápu menn, en liðit flýði, unz þeir fengu enga viðtöku. En er á leið daginn, þá lèt Þórólfr blása liðinu til ofangöngu. Snèru menn þá aptr á skóginn, þar sem hverr var staddr. En er þeir Þórólfr rannsökuðu liðit, þá var Egill eigi ofan kominn ok sveit hans; en þá tók at myrkva af nótt, ok þóttust menn eigi mega leita hans. Egill hafði gengit yfir skóg nökkurn ok tólf menn með honum, ok sá þeir þá slèttur miklar ok byggðir. Bœr einn stóð skammt frá þeim. Þeir stefna til bœjarins. En er þeir komu þar, hlaupa þeir í hús inn, og verða ekki við menn varir. Þeir tóku fè þat allt, er fyrir þeim var laust. Þar váru mörg hús, ok dvaldist þeim þar lengi. En er þeir váru út komnir ok frá bœnum, þá var lið komit milli þeirra ok skógarins, ok sótti þat at þeim. Skíðgarðr var hár frá bœnum til skógarins. Þá mælti Egill, at þeir skyldi fylgja honum, svá at eigi mætti öllum megin at þeim ganga. Þeir gjörðu svá. Gekk Egill fyrstr, en síðan hverr at öðrum svá nær, at ekki mátti skilja þá. Kúrir sóttu þá at þeim fast, ok mest með lögum ok skotum, en gengu ekki í höggorrustu. En er þeir Egill hèldu fram með skíðgarðinum, fundu þeir eigi, fyrr en þar gekk annarr skíðgarðr jafnframt, ok gjörðist þar mjótt í milli, þar til er lykkja varð á, ok mátti eigi fram komast. Kúrir sóttu eptir þeim í kvína, en sumir sóttu utan at, ok lögðu spjótum ok sverðum í gegnum garðana, en sumir báru klæði á vápn þeirra. Urðu þeir Egill sárir ok því næst handteknir ok allir bundnir, leiddir svá heim til bœjarins. Sá var ríkr maðr og auðigr, er bœ þann átti. Hann átti son roskinn. Þá var um rœtt, hvat við þá skyldi gjöra. Sagði bóndi, at honum þótti

þat ráð, at drepinn væri hverr á fœtr öðrum. Bóndason segir, at þá gjörði myrkt af nótt, ok mátti enga skemmtan af hafa, at kvelja þá. Bað hann láta bíða morgins. Var þeim þá skotit í hús eitt, ok bundnir rammliga. Egill var bundinn við staf einn, bæði hendr ok fœtr. Síðan var húsit læst rammliga, en Kúrir gengu inn í stufu, ok mötuðust, ok váru allkátir ok drukku. Egill fœrðist við ok treysti stafinn, til þess er upp losnaði ór gólfinu. Síðan fèll stafrinn. Smeygðist Egill þá af stafnum. Eptir þat leysti hann hendr sínar með tönnum. En er hendr hans váru lausar, leysti hann bönd af fótum sèr. Síðan leysti hann fèlaga sína. En er þeir váru allir lausir, þá lituðust þeir um, hvar líkast var út at komast. Húsit var gjört at veggjum af timbrstokkum stórum, en í annan enda hússins var skjaldþili flatt. Hljópu þeir þar at, ok brutu þilit. Var þar hús annat, er þeir komu í. Váru þar ok timbrveggir um. Þá heyrðu þeir mannamál undir fœtr sèr niðr. Leituðust þeir þá um, ok fundu hurð í gólfinu, luku þeir þar upp. Var þar undir gröf djúp. Heyrðu þeir þangat mannamálit. Þá spurði Egill, hvat manna þar væri. Sá nefndist Áki, er við hann mælti. Egill spurði, ef hann vildi upp ór gröfinni. Áki segir, at þeir vildu þat gjarna. Síðan lètu þeir Egill síga festi ofan í gröfina, þá er þeir váru bundnir með, ok drógu þar upp þrjá menn. Áki segir, at þat váru synir hans tveir, ok þeir váru menn danskir, höfðu þar orðit herteknir hit fyrra sumar. „Var ek“, sagði hann, „vel haldinn í vetr. Hafða ek mjök fjár-varðveizlu búanda, en sveinarnir váru þjáðir, ok undu þeir illa. Í vár rèðum vèr til, ok hljópum á brott, ok urðum síðan fundnir. Váru vèr þá hèr settir í gröf þessa“. „Þèr mun hèr kunnugt um húsaskipan“, segir Egill, „hvar oss er vænst

á brott at komast". Áki sagði, at þar var annat skjaldþili. „Brjóti þèr þat upp, munu þèr þá koma fram í kornhlöðu, en þá er útganga, sem sjálfr vill". Þeir Egill gjörðu svá, brutu upp þilit, gengu síðan í hlöðuna ok þaðan út. Niðamyrkr var á. Þá mæltu þeir förunautar Egils, at þeir skyldi skunda á skóginn. Egill mælti við Áka: „ef þèr eru hèr kunnig híbýli, þá muntu vísa oss til fèfánga nökkurra". Áki segir, at eigi mundi þar skorta lausafè. „Hèr er lopt mikit, er bóndi sefr í. Þar skortir eigi vápn inni". Egill bað þá þangat fara til loptsins. En er þeir komu upp á loptriðit, þá sá þeir, at loptit var opit. Var þar ljós inni ok þjónustumenn og bjuggu rekkjur manna. Egill bað þá suma úti vera, ok gæta, at engi kæmist út. Egill hljóp inn í loptit, greip þar vápn, þvíat þau skorti þar eigi inni. Drápu þeir menn þá alla, er þar váru inni. Þeir tóku sèr allir alvæpni. Áki gekk þar til, er hlemmr var í gólfþilinu, ok lauk upp; mælti, at þeir skyldi þar ofan ganga í undirskemmuna. Þeir tóku sèr ljós ok gengu þangat. Váru þar fèhirzlur bónda ok gripir góðir ok silfr mikit. Tóku menn sèr þar byrðar ok báru út. Egill tók undir hönd sèr mjöðdrekku eina vel mikla, ok bar hana undir hendi sèr. En er þeir komu í skóginn, þá nam Egill stað ok mælti: „þessi ferð er all-ill ok eigi hermannlig. Vèr höfum stolit fè bónda, svá at hann veit ekki til. Skal oss aldrigi þá skömm henda. Förum nú aptr til bœjarins ok látum þá vita, hvat títt er". Allir mæltu því í mót, sögðu, at þeir vildi til skips. Egill setr niðr mjöðdrekkuna. Síðan hefr hann á rás, ok rann til bœjarins. En er hann kom til bœjarins, þá sá hann, at þjónustusveinar gengu frá eldaskála með skutildiska ok báru inn í stufuna. Egill sá, at í eldahúsinu var eldr mikill ok katlar yfir. Gekk

hann þangat til. Þar höfðu verit stokkar stórir fluttir heim ok svá eldar gjörvir, sem þar er siðvenja til, at eldinn skal leggja í stokksendann, ok brennr svá stokkrinn. Egill greip upp stokkinn, ok gekk heim til stufunnar, ok skaut þeim endanum, er logaði, upp undir upsina, ok svá upp í næfrina, ok festi þar eldinn í skjótt. En viðir lágu þar skammt í brott, ok bar hann þá fyrir stufudyrrnar. Eldrinn las skjótt tróðviðinn. En þeir, er við drykkjuna sátu, fundu eigi, fyrr en loginn stóð inn um ræfrit. Hljópu menn þá til duranna. En þar var ekki greiðfœrt út, bæði fyrir viðunum, svá þat, at Egill varði dyrrnar ok drap þá flesta, er út leituðu, bæði í durunum ok úti fyrir. Bóndi spyrr, hverr fyrir eldinum rèði. Egill segir: „sá einn ræðr nú fyrir eldi, er þèr mundi úlíkast þykkja í gærkveld, ok skaltu ekki beiðast at baka heitara, en ek mun kynda. Skaltu hafa mjúkt bað fyrir mjúka rekkju, er þú veittir mèr ok mínum förunautum. Er hèr nú sá sami Egill, er þú lèzt fjötra ok binda við stafinn í húsi því, er þèr læstut vandliga. Skal nú launa þèr viðtökur, sem þú ert verðr“. Í því ætlar bóndi at leynast út í myrkrit, en Egill var nærstaddr ok hjó hann þegar banahögg ok marga aðra. En þat var svipstund ein, áðr stufan brann svá, at hón fèll ofan. Týndist þar mestr hluti liðs þess, er þar var inni. En Egill gekk aptr til skógarins; fann þar förunauta sína; fara þá allir saman til skips. Sagði Egill, at mjöðdrekku þá vill hann hafa at afnámsfè, er hann fór með, en hón var reyndar full af silfri. Þeir Þórólfr urðu allfegnir, er Egill kom ofan. Hèldu þeir þá þegar frá landi, er morgnaði. Áki ok þeir feðgar váru í sveit Egils. Þeir sigldu um sumarit, er á leið, til Danmerkr, ok lágu þar enn fyrir kaupskipum, ok rændu þar, er þeir komust við.

## 47. Kapituli.

### Enn af hernaði Þórólfs ok Egils.

Haraldr Gormsson hafði þá tekit við ríki í Danmörk, en Gormr var þá dauðr, faðir hans. Landit var þá herskátt. Lágu víkingar mjök úti fyrir Danmörku. Áka var kunnigt í Danmörku bæði á sjá ok landi. Spurði Egill hann mjök eptir, hvar þeir staðir væri, er stór fèföng mundu fyrir liggja. En er þeir komu í Eyrarsund, þá sagði Áki, at þar var á land upp kaupstaðr mikill, er hèt í Lundi; sagði, at þar var fèván, en líkligt, at þar mundi vera viðtaka, er bœjarmenn væri. Þat mál var upp borit fyrir liðsmönnum, hvárt þar skyldi ráða til uppgöngu eða eigi. Menn tóku þar all-misjafnt á, fýstu sumir, en sumir löttu; var því máli skotið til stýrimanna. Þórólfr fýsti heldr uppgöngu. Þá var rœtt við Egil, hvat honum þótti ráð. Hann kvað vísu:

Upp skulum órum sverðum,
úlfs-tann-lituðr! glitra.
Eigum dáð at drýgja
í dal-miskunn fiska.
Leiti upp til Lundar
lýða hverr sem bráðast;
gjörum þar fyrir setr sólar
seið úfagran vigra.

Síðan bjuggust menn til uppgöngu, ok fóru til kaupstaðarins. En er bœjarmenn urðu varir við úfrið, þá stefndu þeir í mót. Var þar trèborg um staðinn. Settu þeir þar menn til at verja. Tókst þar bardagi hinn harðasti. Egill sótti að hliðinu fast með sína sveit ok hlífði sèr lítt. Varð þar mikit mannfall, þvíat hverr fèll um annan borgarmanna. Er svá sagt, at Egill gengi fyrstr manna í borgina, ok síðan hverr at öðrum. Síðan flýðu bœjar-

menn. Varð þar mannfall mikit. En þeir Þórólfr ræntu kaupstaðinn ok tóku mikit fè, en brenndu bœinn, áðr þeir skildust við; fóru síðan ofan til skipa sinna.

## 48. Kapítuli.

### Frá veizlu at Arnfiðar jarls.

Þórólfr hèlt liði sínu norðr fyrir Halland, ok lögðu þar til hafnar, er þeim bægði veðr. Þeir ræntu þar ekki. Þar var skammt á land upp jarl sá, er Arnfiðr er nefndr. En er hann spurði, at víkingar váru þar komnir við land, þá sendi hann menn sína á fund þeirra þess erendis, at vita, hvárt þeir vildi þar friðland hafa eða hernað. En er sendimenn váru komnir á fund Þórólfs með sín erendi, þá sagði hann, at þeir mundi þar ekki herja, sagði, at þeim var engi nauðsyn til, at herja þar, ok fara herskildi; sagði, at þar var land ekki auðigt. Sendimenn fara aptr til jarlsins ok sögðu honum erendislok sín. En er jarlinn varð þess varr, at hann þurfti ekki liði at safna fyrir þá sök, þá reið hann ofan með ekki lið til fundar við víkinga. En er þeir fundust, þá fóru þar allt vel rœður með þeim. Jarl bauð Þórólfi til veizlu með sèr ok liði hans, því er hann vildi. Þórólfr hèt ferðinni. En þá, er á var kveðit, lèt jarlinn senda reiðskjóta ofan móti þeim. Rèðust þeir til ferðar, bæði Þórólfr ok Egill, ok höfðu með sèr þrjá tigi manna. En er þeir komu til jarlsins, fagnaði hann þeim vel. Var þeim fylgt inn í stufu. Var þar þegar inni munngát, ok gefit þeim at drekka. Sátu þeir þar til kvelds. En áðr borð skyldu upp fara, þá sagði jarl, at þar skyldi sæti hluta. Skyldi drekka saman karlmaðr ok kona, svá sem til ynnist, en þeir sèr, er fleiri væri. Menn báru þá hluti sína í skaut, ok tók jarlinn upp. Jarl átti dóttur allfríða ok þá vel frum-

vaxta. Svá sagði hlutr til, at Egill skyldi sitja hjá jarlsdóttur um kveldit. Hón gekk um gólf ok skemmti sèr. Egill stóð upp ok gekk til rúms þess, er dóttir jarlsins hafði setit um daginn. En er menn skipuðust í sæti sín, þá gekk jarlsdóttir at rúmi sínu. Hón kvað:

Hvat skaltu, sveinn! í sess minn?
þvíat sjaldan hefir þú gefnar
vargi varmar bráðir;
vera vil ek ein of mína.
Sáttattu hrafn í hausti
of hræsolli gjalla;
vartattu at, þar er eggjar
á skelþunnar runnust

Egill tók til hennar ok setti hana niðr hjá sèr. Hann kvað:

Farit hefi ek blóðgum brandi,
svá at mèr benþiðurr fylgdi,
ok gjallanda geiri;
gangr var harðr at víkingum.
Gjörðum reiðir róstu;
rann eldr of sjöt manna;
lètum blóðga búka
í borghliðum sæfast.

Þá drukku þau saman um kveldit ok váru allkát. Var þar veizla hin bezta, og svá um daginn eptir. Fóru þá víkingar til skipa sinna. Skildu þeir jarl með vináttu ok skiptust gjöfum við. Hèldu þeir Þórólfr liðinu til Brenneyja. Þar var í þann tíma víkingabœli mikit, þvíat þar sigldu kaupskip mjök í gegnum eyjarnar. Áki fór heim til búa sinna ok synir hans. Hann var maðr vellauðigr, ok átti mörg bú á Jótlandi. Skildust þeir með kærleik, ok mæltu til vináttu mikillar milli sín. En er

haustaði, sigldu þeir Þórólfr norðr fyrir Noreg ok komu fram í Fjörðum; fara á fund Þóris hersis. Tók hann vel við þeim, en Arinbjörn son hans miklu betr; býðr hann, at Egill skal þar vera um vetrinn. Egill tók þat með þökkum. En er Þórir vissi boð Arinbjarnar, þá kallaði hann þat heldr bráðmælt. „Veit ek eigi“, sagði hann, „hversu þat líkar Eiríki konungi, þvíat hann mælti svá eptir aftöku Bárðar, at hann vildi Egil ekki hèr í landi“. „Ráða máttu vel, faðir“! segir Arinbjörn, „því við konung, at hann teli ekki at um vist Egils. Þú munt bjóða Þórólfi mági þínum hèr at vera, en vit Egill munum hafa eitt vetrgrið báðir“. Af þessi rœðu sá Þórir, at Arinbjörn mundi þessu ráða. Buðu þeir feðgar þá Þórólfi þar vetrgrið, en hann þekktist þat. Váru þeir þar við tólfta mann um vetrinn. Brœðr tveir eru nefndir, Þorvaldr ofsi ok Þorfiðr strangi; þat váru náfrændr Bjarnar haulds og höfðu með honum fœzt. Þeir váru menn miklir ok sterkir, kappsmenn miklir ok framgjarnir. Þeir fylgdu Birni, þá er hann var í víking. En síðan, er hann settist um kyrrt, þá fóru þeir brœðr til Þórólfs ok váru með honum í hernaði. Þeir váru í stafni á skipi hans. En þá er Egill tók skipstjórn, þá var Þorfiðr hans stafnbúi. Þeir brœðr fylgdu Þórólfi jafnan, ok mat hann þá mest skipverja sinna. Þeir brœðr váru þann vetr í hans sveit, ok sátu næst þeim brœðrum. Þórólfr sat í öndvegi, ok átti drykkju við Þóri; en Egill sat fyrir ádrykkju Arinbjarnar. Skyldi þar um gólf ganga at minnum öllum. Þórir hersir fór um haustit á fund Eiríks konungs. Tók konungr við honum forkunnar-vel. En er þeir tóku rœður sínar, þá bað Þórir konung, at hann skyldi eigi fyrirkunna hann þess, er hann hafði Egil með sèr um vetrinn. Konungr svarar því vel; sagði, at Þórir mátti þiggja

af honum slíkt, er hann vildi, „en ekki mundi þetta svá fara, ef annarr maðr hefði við Agli tekit". En er Gunnhildr heyrði, hvat þeir rœddu, þá mælti hón: „þat ætla ek, Eiríkr! at nú fari enn, sem optar, at þú sèr mjök talhlýðinn, ok mant þat eigi lengi, er illa er gjört til þín, enda muntu til þess draga fram sonu Skallagríms, at þeir munu enn drepa niðr nökkura náfrændr þína. En þótt þú látir þèr engis þykkja vert um dráp Bárðar, þá þykkir mèr eigi svá þó". Konungr svarar: „meir frýr þú mèr, Gunnhildr! grimmleiks en aðrir menn; en verit hefir kærra við Þórólf af þinni hendi, en nú er; en ekki mun ek orð mín aptr taka við þá brœðr". „Vel var Þórólfr hèr", sagði hón, „áðr Egill spillti fyrir honum, en nú tel ek þeirra engan mun". Þórir fór heim, þá er hann var búinn, ok sagði þeim brœðrum orð konungs ok drottningar.

## 49. Kapítuli.

### Dráp Þorvalds ofsa.

Eyvindr skreyja ok Álfr hètu brœðr Gunnhildar, synir Özurar tota. Þeir váru menn miklir ok allsterkir, ok kaupmenn miklir. Þeir höfðu þá mest yfirlát af Eiríki konungi ok Gunnhildi. Ekki váru þeir menn þokkasælir af alþýðu; váru þá menn á ungum aldri, ok þó fullkomnir at þroska. Þat var um várit, at blót mikit skyldi vera at sumri á Gaulum. Þat var ágæzt höfuð-hof. Sótti þangat fjölmenni mikit ór Fjörðum ok af Fjölum ok ór Sogni, ok flest-allt stórmenni. Eiríkr konungr fór þangat. Þá mælti Gunnhildr við brœðr sína: „þat vil ek, at þit hagit svá til í fjölmenni þessu, at þit fáit drepit annanhvárn þeirra sona Skallagríms, ok bazt, at báðir væri". Þeir kváðu svá vera skyldu. Þórir hersir bjóst til ferðar þeirrar. Hann kallaði Arinbjörn til máls við

sik. „Nú mun ek“, sagði hann, „fara til blótsins, en ek vil ekki, at Egill fari þangat. Ek kann ráðum Gunnhildar, en kappsemd Egils, en ríki konungs, at þess mun eigi hœgt at gæta alls saman. En Egill mun ekki letjast láta, nema þú sèr eptir; en Þórólfr skal fara með mèr ok aðrir þeir förunautar. Skal Þórólfr blóta ok leita heilla þeim brœðrum“. Síðan sagði Arinbjörn Agli, at hann mun heima vera, „ok vit báðir“, sagði hann. Egill kvað svá vera skyldu. En þeir Þórir fóru til blótsins, ok var þar allmikit fjölmenni ok drykkjur miklar. Þórólfr fór með Þóri, hvar sem hann fór, ok skildust aldrigi dag nè nótt. Eyvindr sagði Gunnhildi, at hann fèkk ekki fœri við Þórólf. Hón bað hann þá drepa einhvern manna hans, heldr en allt bæri undan. Þat var eitt kveld, þá er konungr var til svefns genginn, ok svá þeir Þórir ok Þórólfr, en þeir sátu eptir Þorfiðr ok Þorvaldr, þá komu þeir þar brœðr, Eyvindr ok Álfr, ok settust hjá þeim ok váru allkátir; drukku fyrst sveitardrykkju. Þá kom þar, er horn skyldi drekka til hálfs. Drukku þeir saman Eyvindr ok Þorvaldr, en Álfr ok Þorfiðr. En er á leið kveldit, þá var drukkit við sleitur, ok því næst orðahnippingar, ok þá stóryrði. Þá hljóp Eyvindr upp, ok brá saxi einu, ok lagði á Þorvaldi, svá at þat var œrit banasár. Síðan hljópu upp hvárirtveggja, konungsmenn ok húskarlar Þóris. En menn váru allir vápnlausir inni, þvíat þar var hofshelgi. Gengu menn í milli ok skildu þá, er óðastir váru. Varð þá ekki fleira til tíðinda þat kveld. Eyvindr hafði vegit í vèum, ok var hann vargr orðinn, ok varð hann þegar brott at fara. Konungr bauð bœtr fyrir manninn, en Þórólfr ok Þorfiðr sögðu, at þeir höfðu aldrigi tekit mannbœtr, ok þeir vildu ekki þær taka. Skildust at svá búnu. Fóru þeir Þórir heim. Eiríkr konungr ok þau

Gunnhildr sendu Eyvind suðr til Danmerkr til Haralds konungs Gormssonar, því at hann mátti þá eigi vera í norrœnum lögum. Konungrinn tók vel við honum ok föruneyti hans. Eyvindr hafði til Danmerkr langskip allmikit. Síðan setti konungr Eyvind þar til landvarnar fyrir víkíngum. Eyvindr var hermaðr hinn mesti. En er vár kom eptir vetr þann, þá búast þeir Þórólfr ok Egill enn at fara í víking. En er þeir váru búnir, þá halda þeir enn í Austrveg. En er koma í Víkina, þá sigla suðr fyrir Jótland, ok herja þar, ok þá fara þeir til Fríslands, ok dveljast mjök lengi um sumarit; en þá halda enn aptr til Danmerkr. En er þeir koma til landamæris, þar er mœtist Danmörk ok Frísland, ok lágu þá við land, þá var þat eitt kveld, er menn bjuggust til svefns á skipum, at menn tveir komu á skip Egils, ok sögðu, at þeir áttu við hann erendi. Var þeim fylgt til hans. Þeir segja, at Áki hinn auðgi hafði sent þá þangat með þeim erendum, at „Eyvindr skreyja liggr úti fyrir Jótlands-síðu, ok ætlar at sæta yðr, þá er þèr farit sunnan, ok hefir hann lið mikit saman dregit, svá at þèr hafit engi áhöld við, ef þèr hittit lið hans allt; en hann sjálfr ferr með lèttiskipum tveimr, ok er nú hèr skammt frá yðr“. En er tíðindi þessi komu fyrir Egil, þá láta þeir þegar af sèr tjöldin. Bað þá fara hljóðliga. Þeir gjörðu svá. Þeir komu í dögun at þeim Eyvindi, þar er þeir lágu um akkeri; lögðu þegar at þeim; lètu ganga bæði grjót ok vápn. Fèll þar lið margt af Eyvindi, en hann sjálfr hljóp fyrir borð, ok komst með sundi til lands, ok svá allt þat lið, er undan komst. En þeir Egill tóku skipin ok farm þeirra ok vápn; fóru þá aptr um daginn til liðs síns; hittu þá Þórólf. Spyrr hann, hvert Egill hafði farit, eða hvar hann hafði fengit

skip þau, er þeir fara með. Egill segir, at Eyvindr skreyja hafði haft skipin, ok þeir höfðu af honum tekit. Þá kvað Egill:

Gjörðum hölzti harða
hríð fyrir Jótlands-síðu.
Barðist vel, sá er varði,
víkingr, Dana ríki,
áðr á sund fyrir sandi
snarfengr með lið drengja
austr af unnar-hesti
Eyvindr hljóp skreyja.

Þórólfr segir: „þetta ætla ek yðr svá hafa gjört, at oss mun ekki haustlangt ráð at fara til Noregs“. Egill sagði, at þat var vel, þótt þeir leitaði þá í annan stað.

## 50. Kapituli.

### Frá Aðalsteini Engla-konungi.

Elfráðr hinn ríki rèð fyrir Englandi. Hann var fyrstr einvalds-konungr yfir Englandi sinna kynsmanna. Þat var á dögum Haralds hins hárfagra Noregs-konungs. Eptir hann var konungr í Englandi son hans Játvarðr. Hann var faðir Aðalsteins hins sigrsæla, fóstra Hákonar hins góða. Í þenna tíma tók Aðalsteinn konungdóm í Englandi eptir föður sinn. Þeir váru fleiri brœðr, synir Játvarðs. En er Aðalsteinn hafði tekit konungdóm, þá hófust upp til úfriðar þeir höfðingjar, er áðr höfðu látit ríki sín fyrir þeim langfeðgum; þótti nú, sem dælst mundi til at kalla, er ungr konungr rèð fyrir ríki. Váru þat bæði Bretar ok Skotar ok Írar. En Aðalsteinn konungr safnaði herliði at sèr, ok gaf mála þeim mönnum öllum, er þat vildu hafa til fèfangs sèr, bæði útlenzkum ok innlenzkum. Þeir brœðr, Þórólfr ok Egill, hèldu suðr

fyrir Saxland ok Flæmingjaland. Þá spurðu þeir, at Englands-konungr þóttist liðs þurfa, ok þar var ván fèfangs mikils. Gjöra þeir þá þat ráð, at halda þangat liði sínu. Fóru þeir þá um haustit, til þess er þeir komu á fund Aðalsteins konungs. Tók hann vel við þeim, ok leizt svá á, at liðsemd mikil mundi vera at fylgd þeirra. Verðr þat brátt í rœðum Englands-konungs, at hann býðr þeim til sín, at taka þar mála ok gjörast landvarnarmenn hans. Semja þeir þat sín í milli, at þeir gjörast menn Aðalsteins. England var vel kristit ok hafði lengi verit, þá er þetta var tíðinda. Aðalsteinn konungr var vel kristinn. Hann var kallaðr Aðalsteinn hinn trúfasti. Konungr bað Þórólf ok þá brœðr, at þeir skyldi láta primsignast, þvíat þat var þá mikill siðr, bæði með kaupmönnum ok þeim, er á mála gengu með kristnum mönnum; þvíat þeir menn, er primsigndir váru, höfðu allt samneyti við kristna menn ok svá heiðna, en höfðu þat at átrúnaði, er þeim var skapfelldast. Þeir Þórólfr ok Egill gjörðu þat eptir bœn konungs, ok lètu primsignast báðir. Þeir höfðu þar þrjú hundruð sinna manna, þeirra er mála tóku af konungi.

## 51. Kapituli.

### Frá Ólafi Skotakonungi.

Ólafr rauði hèt konungr á Skotlandi. Hann var skozkr at föðurkyni, en danskr at móðurkyni, ok kominn af ætt Ragnars loðbrókar. Hann var ríkr maðr. Skotland var kallat þriðjungr ríkis við England. Norðymbraland er kallat fimmtungr Englands, ok er þat norðast næst Skotlandi fyrir austan. Þat höfðu haft at fornu Danakonungar. Jórvík er þar höfuðstaðr. Þat ríki átti Aðalsteinn ok hafði sett yfir jarla tvá. Hèt annarr Álfgeirr, en annarr Guðrekr. Þeir sátu þar til landvarnar, bæði

fyrir ágangi Skota ok Dana eða Norðmanna, er mjök herjuðu á landit ok þóttust eiga tilkall mikit þar til lands, því at á Norðymbralandi váru þeir einir menn, ef nökkut var til, at danska ætt áttu at faðerni eða móðerni, en margir hvárirtveggja. Fyrir Bretlandi rèðu brœðr tveir, Hringr ok Aðils, ok váru skattgildir undir Aðalstein konung, ok fylgdi þat, þá er þeir váru í her með konungi, at þeir ok þeirra lið skyldi vera í brjósti í fylking fyrir merkjum konungs. Váru þeir brœðr hinir mestu hermenn ok eigi allungir menn. Elfráðr hinn ríki hafði tekit alla skattkonunga af nafni ok veldi. Hètu þeir þá jarlar, er áðr váru konungar eða konungasynir. Hèlzt þat allt um hans æfi ok Játvarðar sonar hans. En Aðalsteinn kom ungr til ríkis, ok þótti af honum minni ógn standa. Gjörðust þá margir útryggir, þeir er áðr váru þjónustufullir.

## 52. Kapituli.

### Af liðs samandrætti.

Ólafr Skotakonungr dró saman her mikinn, ok fór síðan suðr á England. En er hann kom á Norðymbraland, fór hann allt herskildi. En er þat spurðu jarlarnir, er þar rèðu fyrir, stefna þeir saman liði ok fara móti konungi. En er þeir finnast, varð þar orrusta mikil, ok lauk svá, at Ólafr konungr hafði sigr, en Guðrekr jarl fèll, en Álfgeirr flýði undan ok mestr hluti liðs þess, er þeim hafði fylgt ok brott komst ór bardaga. Fèkk Álfgeirr þá enga viðstöðu. Lagði Ólafr konungr þá allt Norðymbraland undir sik. Álfgeirr fór á fund Aðalsteins konungs ok sagði honum úfarar sínar. En þegar er Aðalsteinn konungr spurði, at herr svá mikill var kominn í land hans, þá gjörði hann þegar menn frá sèr ok stefndi at sèr liði, gjörði orð jörlum sínum ok öðrum ríkismönn-

um. Snèri konungr þegar á leið með þat lið, er hann fèkk, ok fór í mót Skotum. En er þat spurðist, at Ólafr Skotakonungr hafði fengit sigr, ok hafði lagt undir sik mikinn hluta af Englandi, hafði hann þá her miklu meira en Aðalsteinn: þá sótti til hans margt ríkismanna. En er þetta spyrja þeir Hringr og Aðils, höfðu þeir saman dregit lið mikit: þá snúast þeir í lið með Ólafi konungi. Höfðu þeir þá úgrynni liðs. En er Aðalsteinn spurði þetta allt, þá átti hann stefnu við höfðingja sína ok ráðamenn; leitaði þá eptir, hvat tiltœkiligast væri; sagði þá allri alþýðu greiniliga þat, er hann hafði frètt um athöfn Skotakonungs ok fjölmenni hans. Allir mæltu þar eitt um, at Álfgeirr jarl hafði hinn versta hlut af, ok þótti þat til liggja, at taka af honum tignina. En sú ráðagjörð staðfestist, at Aðalsteinn konungr skyldi fara aptr ok fara á sunnanvert England, ok hafa þá fyrir sèr liðsafnað norðr eptir landi öllu, þvíat þeir sá elligar mundi seint safnast fjölmennit, svá mikit, sem þyrfti, ef eigi drægi konungr sjálfr at liðit. En sá herr, er þar var saman kominn, þá setti konungr þar yfir höfðingja Þórólf ok Egil. Skyldu þeir ráða fyrir því liði, er víkingar höfðu þangat haft til konungs. En Álfgeirr sjálfr hafði þá enn forráð síns liðs. Þá fèkk konungr enn sveitarhöfðingja, þá er honum sýndist. En er Egill kom heim af stefnunni til fèlaga sinna, þá spurðu þeir, hvat hann kynni at segja þeim tíðinda frá Skotakonungi. Hann kvað:

Ólafr of kom jöfri
óttvígr á bak-flótta;
þingharðan frá ek þengil
þann, er felldi annan.
Glapstigu lèt gnóga
Goðrekr á mó troðna;

jörð spenr Engla skerðir
Álfgeirs und sik hálfa.

Síðan gjöra þeir sendimenn til Ólafs konungs, ok finna þat til erenda, at Aðalsteinn konungr vill hasla honum völl, ok bjóða orrustustað á Vínheiði við Vínuskóga, ok hann vill, at þeir heri eigi á land hans, en sá þeirra ráði ríki á Englandi, er sigraðist í orrustu; lagði til vikustef um fund þeirra; en sá bíði annars viku, er fyrr kemr. En þat var þá siðr, þegar konungi var völlr haslaðr, at hann skyldi eigi herja at skammlausu, fyrr en orrustu væri lokit. Gjörði Ólafr konungr svá, at hann stöðvaði her sinn ok herjaði ekki, ok beið til stefnudags. Þá flutti hann her sinn til Vínheiðar. Borg ein stóð fyrir norðan heiðina. Settist Ólafr konungr þar í borgina, ok hafði þar mestan hlut liðs síns, þvíat þar váru út í frá hèruð stór, ok þótti honum þar betra til atflutninga um föng þau, er herrinn þurfti at hafa. En hann sendi menn sína upp á heiðina, þar sem orrustustaðrinn var ákveðinn. Skyldu þeir taka þar tjaldstaði ok búast þar um, áðr herrinn kæmi. En er þeir menn komu í þann stað, er völlrinn var haslaðr, þá váru þar settar upp heslistengr allt til ummerkja, þar er sá staðr var, er orrustan skyldi vera. Þurfti þann stað at vanda, at hann væri slèttr, er miklum her skyldi fylkja. Var þar ok svá, er orrustustaðrinn skyldi vera, at þar var heiðr slètt, en annan veg frá fèll á ein, en á annan veg frá var skógr mikill. En þar er skemmst var milli skógarins ok árinnar — ok var þat mjök löng leið —, þar höfðu tjaldat menn Aðalsteins konungs, ok stóðu tjöld þeirra allt milli skógarins ok árinnar. Þeir höfðu svá tjaldat, at eigi væri menn í hinu þriðja hverju tjaldi, ok þó fáir í einu. En er menn Ólafs konungs komu til þeirra, þá höfðu þeir fjölmennt fyrir

framan tjöldin öll, ok náðu þeir ekki inn at ganga. Sögðu menn Aðalsteins, at tjöld þeirra væri öll full af mönnum, svá at hvergi nær hefði þar rúm lið þeirra. En tjöldin stóðu svá hátt, at ekki mátti yfir upp sjá, hvárt þau stóðu mörg eða fá á þykktina. Þeir hugðu, at þar mundi vera herr manns. Ólafs konungs menn tjölduðu fyrir norðan höslurnar, ok var þangat allt nökkut afhallt. Aðalsteins menn sögðu ok dag frá degi, at konungr þeirra mundi þá koma, eða vera kominn, í borg þá, er var sunnan undir heiðinni. Lið drógst til þeirra bæði dag ok nótt. En er stefna sú var liðin, er á kveðin var, þá senda menn Aðalsteins erendreka á fund Ólafs konungs með þeim orðum, at Aðalsteinn konungr er búinn til orrustu ok hefir her allmikinn. En hann sendir Ólafi konungi þau orð, at hann vill eigi, at þeir gjöri svá mikit mannspell, sem þá horfðist til; bað hann heldr fara heim í Skotland; en Aðalsteinn vill fá honum at vingjöf skilling silfrs af plógi hverjum um allt ríki sitt, ok vill, at þeir leggi með sèr vináttu. En er sendimenn koma til Ólafs konungs, þá tók hann at búa her sinn, ok ætlaði at at ríða. En er sendimenn báru upp erendi, þá stöðvaði konungr ferð sína þann dag; sat þá í ráðagjörð ok höfðingjar hans með honum. Lögðu menn þar all-misjafnt til. Sumir fýstu mjök, at þenna kost skyldi taka; sögðu, at þat var þá orðin hin mesta fremdarferð, at þeir færi heim ok hefði tekit gjald svá mikit af Aðalsteini. Sumir löttu ok sögðu, at Aðalsteinn mundi bjóða miklu meira í annat sinn, ef þetta væri eigi tekit; ok var sú ráðagjörð staðfest. Þá báðu sendimenn Ólaf konung at gefa sèr tóm til, at þeir hitti enn Aðalstein konung ok freistaði, ef hann vildi enn meira gjald af hendi reiða, til þess at friðr væri. Þeir beiddu griða einn dag til

heimreiðar, en annan til umráða, en hinn þriðja til aptrferðar. Konungr játaði þeim því. Fara sendimenn heim, ok koma aptr hinn þriðja dag, sem á kveðit var; segja Ólafi konungi, at Aðalsteinn vill gefa allt slíkt, sem hann bauð fyrr, ok þar um fram, til hlutskiptis liði Ólafs konungs, skilling manni hverjum frjálsbornum, en mörk sveitarhöfðingja hverjum, þeim er rèði fyrir tólf mönnum eða fleirum, en mörk gulls hirðstjóra hverjum, en fimm merkr gulls jarli hverjum. Síðan lèt konungr þetta upp bera fyrir lið sitt. Var enn, sem fyrr, at sumir löttu, en sumir fýstu; en at lyktum veitti konungr órskurð; segir, at þenna kost vill hann taka, ef þat fylgir, at Aðalsteinn konungr lætr hann hafa Norðymbraland allt með þeim sköttum ok skyldum, er þar til liggja. Sendimenn biðja enn fresta um þrjá daga, ok þat með, at Ólafr konungr sendi þá menn sína, at heyra orð Aðalsteins konungs, hvárt hann vill eða eigi þenna kost; segja, at þeir hyggja, at Aðalsteinn konungr mundi láta fátt við nema, at sættin tœkist. Ólafr konungr játar því, ok sendi menn sína til Aðalsteins konungs. Ríða þá sendimenn allir saman ok hitta Aðalstein konung í borg þeirri, er var næst heiðinni fyrir sunnan. Sendimenn Ólafs konungs bera upp erendi sín fyrir Aðalstein konung ok sættaboð. Aðalsteins konungs menn sögðu ok, með hverjum boðum þeir höfðu farit til Ólafs konungs, ok þat með, at þat var ráðagjörð vitra manna, at dvelja svá orrustu, meðan konungr kæmi eigi. En Aðalsteinn konungr veitti skjótan órskurð um þetta mál, ok sagði sendimönnum svá: „berit þau orð mín Ólafi konungi, at ek vil gefa honum orlof til þess, at fara heim til Skotlands með lið sitt, ok gjaldi hann aptr fè þat allt, er hann tók upp at röngu hèr í landi. Setjum hèr síðan frið í millum landa várra,

ok heri hvárigir á aðra. Þat skal ok fylgja, at Ólafr konungr skal gjörast minn maðr, ok halda Skotland af mèr, ok vera undirkonungr minn. Farit nú“, segir hann, „aptr ok segit honum svá búit“. Sendimenn snèru aptr leið sína þegar um kveldit, ok komu til Ólafs konungs nær miðri nótt; vöktu þá upp konung, ok sögðu honum þegar orð Aðalsteins konungs. Konungr lèt þegar kalla til sín jarlana ok aðra höfðingja; lèt þá sendimenn koma til ok segja upp erendislok sín ok orð Aðalsteins. En er þetta var kunnigt gjört fyrir liðsmönnum, þá var eitt orðtak allra, at þat mundi fyrir liggja, at búast til orrustu. Sendimenn sögðu ok þat með, at Aðalsteinn hafði fjölda liðs, ok hann hafði þann dag komit til borgarinnar, sem sendimenn komu. Þá mælti Aðils jarl: „nú mun þat fram komit, konungr! sem ek sagða, at yðr mundu þeir reynast brögðóttir hinir ensku. Höfum vèr hèr setit langa stund, ok beðit þess, er þeir hafa dregit at sèr allt lið sitt, en konungr þeirra mun verit hafa hvergi nær, þá er vèr komum hèr. Munu þeir nú hafa safnat liði miklu, síðan vèr settumst. Nú er þat ráð mitt, konungr! at vit brœðr ríðim þegar fyrir í nótt með okkru liði. Má þat vera, at þeir óttist nú ekki at sèr, er þeir hafa spurt, at konungr þeirra er nær með her mikinn. Skulum vit þá veita þeim áhlaup. En er þeir verða forflótta, þá munu þeir láta lið sitt, en údjarfari síðan í atgöngu at móti oss“. Konungi þótti þetta ráð vel fundit. „Munum vèr búa her várn, þegar er lýsir, ok fara til móts við yðr“. Staðfestu þeir þetta ráð, ok luku svá stefnunni.

## 53. Kapituli.
Um bardaga.

Hringr jarl ok Aðils bróðir hans bjuggu her sinn, ok fóru þegar um nóttina suðr á heiðina. En er ljóst var, þá sá varðmenn þeirra Þórólfs, hvar herrinn fór. Var þá blásinn herblástr ok herklæddust menn; tóku síðan at fylkja liðinu ok höfðu tvær fylkingar. Rèð Álfgeirr jarl fyrir annarri fylking, ok var merki borit fyrir honum. Var í þeirri fylking lið þat, er honum hafði fylgt, ok svá þat lið, er þar hafði til safnazt ór hèruðum. Var þat miklu fleira lið en þat, er þeim Þórólfi fylgdi. Þórólfr var svá búinn, at hann hafði skjöld víðan ok þykkvan, hjálm á höfði allsterkan, gyrðr sverði því, er hann kallaði Lang, mikit vápn ok gott. Kesju hafði hann í hendi. Fjöðrin var tveggja álna löng, ok sleginn fram broddr ferstrendr, en upp var fjöðrin breið, falrinn bæði langr ok digr. Skaptit var eigi hærra, en taka mátti hendi til fals, ok furðuliga digrt. Járnteinn var í falnum, ok skaptit allt járnvafit. Þau spjót váru kölluð brynþvarar. Egill hafði hinn sama búnað, sem Þórólfr. Hann var gyrðr sverði því, er hann kallaði Naðr. Þat sverð hafði hann fengit á Kúrlandi. Þat var hit bezta vápn. Hvárrgi þeirra hafði brynju. Þeir settu merki upp, ok bar þat Þorfiðr strangi. Allt lið þeirra hafði norrœna skjöldu ok allan norrœnan herbúnað. Í þeirra fylking váru allir norrœnir menn, þeir er þar váru. Fylktu þeir Þórólfr nær skóginum, en Álfgeirs fylking fór með ánni. Aðils jarl ok þeir brœðr sá þat, at þeir mundu ekki koma þeim Þórólfi á úvart. Þá tóku þeir at fylkja sínu liði. Gjörðu þeir ok tvær fylkingar, ok höfðu tvau merki. Fylkti Aðils móti Álfgeiri jarli, en Hringr móti víkingum. Síðan tókst þar orrusta. Gengu hvárirtveggja vel fram. Aðils

jarl sótti hart fram, þar til er Álfgeirr lèt undan sígast, en Aðilsmenn sóttu þá hálfu djarfligar. Var þá ok eigi lengi, áðr Álfgeirr flýði; ok er þat frá honum at segja, at hann reið undan suðr á heiðina, ok sveit manna með honum. Reið hann, þar til er hann kom nær borg þeirri, er konungr sat. Þá mælti jarlinn: „ekki ætla ek oss fœrt til borgarinnar. Vèr fengum mikit orðaskak næst, er vèr komum til konungs, þá er vèr höfðum farit úsigr fyrir Ólafi konungi, ok ekki mun honum þykkja batnat hafa várr kostr í þessi ferð. Mun nú ekki þurfa at ætla til sœmda, þar sem hann er. Síðan reið hann suðr á landit, ok er frá hans ferð þat at segja, at hann reið dag ok nótt, þar til er þeir komu vestr á Jarlsnes. Fèkk jarl sèr þar far suðr um sæ, ok kom fram á Vallandi. Þar átti hann kyn hálft. Kom hann aldrigi síðan til Englands. Aðils rak fyrst flóttann ok eigi langt, áðr hann snýr aptr ok þar til, er orrustan var, ok veitti þá atgöngu. En er Þórólfr sá þat, mælti hann, at Egill skyldi snúa á móti honum, ok bað þangat bera merkit; bað menn sína fylgjast vel ok standa þykkt. „Þokum at skóginum“, sagði hann, „ok látum hann hlífa á bak oss, svá at þeir megi eigi öllum megum at oss ganga“. Þeir gjörðu svá, fylgdu fram skóginum. Varð þá hörð orrusta. Sótti Egill móti Aðilsi, ok áttust þeir við hörð skipti. Liðsmunr var allmikill, ok þó fèll meir lið þeirra Aðils. Þórólfr gjörðist þá svá óðr, at hann kastaði skildinum á bak sèr, en tók spjótit tveim höndum. Hljóp hann þá fram, ok hjó eða lagði til beggja handa. Stukku menn þá frá tveggja vegna, en hann drap marga. Ruddi hann svá stiginn fram at merki jarlsins Hrings, ok hèlzt þá ekki við honum. Hann drap þann mann, er bar merki Hrings jarls, ok hjó niðr merkistöngina. Eptir þat lagði

hann spjótinu fyrir brjóst jarlinum, í gegnum brynjuna ok búkinn, svá at út gekk um herðarnar, ok hóf hann upp á kesjunni yfir höfuð sèr, ok skaut niðr spjótshalanum í jörðina; en jarlinn sæfðist á spjótinu, ok sá þat allir, bæði hans menn ok svá hans úvinir. Síðan brá Þórólfr sverðinu, ok hjó hann þá til beggja handa. Sóttu þá ok at hans menn. Fèllu þá mjök Bretar ok Skotar, en sumir snèrust á flótta. En er Aðils jarl sá fall bróður síns ok mannfall mikit af liði hans, en sumir flýðu, en hann þóttist hart niðr koma, þá snèri hann á flótta ok rann til skógarins. Hann flýði í skóginn ok hans sveit. Tók þá at flýja allt lið, þat er fylgt hafði jörlum. Þeir Þórólfr ok Egill ráku flóttann. Gjörðist þá enn mikit mannfall af flóttamönnum. Dreifðist þá flóttinn víða um heiðina. Aðils jarl hafði niðr drepit merki sínu; vissi þá engi, hvárt hann var eða aðrir menn. Tók þá brátt at myrkva af nótt. En þeir Þórólfr ok Egill snèru aptr til herbúða sinna, ok þá jafnskjótt kom þar Aðalsteinn konungr með allan her sinn, ok slógu þá landtjöldum sínum ok bjuggust um. Litlu síðar kom Ólafr konungr með sínum her. Tjölduðu þeir ok bjuggust um, þar sem þeirra menn höfðu tjaldat. Var Ólafi konungi þá sagt, at fallnir váru þeir báðir jarlar hans, Hringr ok Aðils, ok mikill fjöldi annarra manna hans.

## 54. Kapituli.

### Fall Þórólfs.

Aðalsteinn konungr hafði verit áðr hina næstu nótt í borg þeirri, er fyrr var frá sagt, ok þar spurði hann, at bardagi hafði verit á heiðinni; bjóst þá þegar ok allr herrinn, ok sótti norðr á heiðina; spurði þá öll tíðindi glöggliga, hvernig orrusta sú hafði farit. Komu þá til

fundar við konung þeir brœðr, Þórólfr ok Egill. Þakkaði hann þeim vel framgöngu sína ok sigr þann, er þeir höfðu unnit; hèt þeim vináttu sinni fullkominni. Dvöldust þeir þar allir samt um nóttina. Aðalsteinn konungr vakti upp her sinn þegar árdegis. Hann átti tal við höfðingja sína, ok sagði, hver skipun vera skyldi fyrir liði hans. Skipaði hann fylking sína fyrst, ok þá setti hann í brjósti þeirrar fylkingar sveitir þær, er snarpastar váru. Þá mælti hann, at fyrir því liði skyldi vera Egill; „en Þórólfr“, sagði hann, „skal vera með liði sínu ok öðru því liði, er ek set þar. Skal sú vera önnur fylking í liði váru, er hann skal vera höfðingi fyrir. Skal þat lið í móti því liði þeirra, er laust er ok eigi er í fylkingu, því at Skotar eru jafnan lausir í fylkingu; hlaupa þeir til ok frá, ok koma í ýmsum stöðum fram; verða þá opt skeinusamir, ef menn varast þá eigi; en eru lausir á velli, ef við þeim er horft“. Egill svarar konungi: „ekki vil ek, at vit Þórólfr skilimst í orrustu, en vel þykkir mèr, at okkr sè þar skipat, er mest þykkir þurfa ok harðast er fyrir“. Þórólfr mælti: „látum vit konung ráða, hvar hann vill okkr skipa; veitum honum svá, at honum líki; mun ek vera þar heldr, ef þú vill, sem þèr er skipat“. Egill segir: „ráða muntu þessu, frændi! en þessa skiptis mun ek opt iðrast“. Eptir þat gengu menn fram í fylkingar, sem konungr hafði skipat, ok váru sett upp merki. Stóð konungsfylking á víðlendit til árinnar, en Þórólfs fylking fór hit efra með skóginum. Ólafr konungr tók þá at fylkja liði sínu, þá er hann sá, at Aðalsteinn konungr hafði fylkt. Hann hafði ok tvær fylkingar, ok lèt hann fara sitt merki ok þá fylking, er hann rèð sjálfr fyrir, á mót Aðalsteini konungi ok hans fylking. Höfðu þá hvárirtveggja her svá mikinn, at engi

var munr, hvárir fjölmennari váru. En önnur fylking Ólafs konungs fór nær skóginum móti liði því, er Þórólfr rèð fyrir. Váru þar höfðingjar jarlar skozkir. Váru þat Skotar flest, ok var þat fjölmenni mikit. Síðan gangast á fylkingar, ok varð þar brátt orrusta mikil. Þórólfr sótti fram hart, ok lèt bera merki sitt fram með skóginum, ok ætlaði þar svá fram at ganga, at hann kæmi í opna skjöldu konungsfylkinginni. Höfðu þeir skjölduna fyrir sèr. En skógrinn var til hœgra vegs; lètu þeir hann þar hlífa. Þórólfr gekk svá fram, at fáir váru menn hans fyrir honum. En þá er hann varði minnst, þá hlaupa þar ór skóginum Aðils jarl ok sveit sú, er honum fylgdi. Lögðu þeir þegar mörgum kesjum senn á Þórólfi, ok fèll hann þar við skóginn. En Þorfiðr, er merkit bar, hopaði aptr þar til, er liðit stóð þykkra. En Aðils sótti þá at þeim, ok var þar þá orrusta mikil; œptu Skotar þá sigróp, er þeir höfðu felldan höfðingja liðsins. En er Egill heyrði óp þat, ok sá, at merki Þórólfs fór á hæli, þá þóttist hann vita, at Þórólfr mundi eigi sjálfr fylgja. Síðan hleypr hann til þangat fram á milli fylkinganna. Hann varð skjótt varr þeirra tíðinda, er þar váru orðin, þegar hann fann sína menn. Hann eggjar þá liðit mjök til framgöngu. Var hann fremstr í brjóstinu. Hann hafði sverðit Naðr í hendi. Egill sótti þá fram, ok hjó til beggja handa, ok felldi margan mann. Þorfiðr bar merkit þegar eptir honum, en annat lið fylgdi merkinu. Varð þar hin snarpasta orrusta. Egill gekk fram, til þess er hann mœtti Aðilsi jarli. Áttust þeir fá högg við, áðr Aðils jarl fèll ok mart manna um hann. En eptir fall jarls, þá flýði lið þat, er honum hafði fylgt. En Egill ok hans lið fylgdu þeim, ok drápu allt þat, er þeir náðu, þvíat ekki þurfti þá griða at biðja. En jarlar

þeir hinir skozku stóðu þá ekki lengi, þegar er þeir sá, at aðrir flýðu þeirra fèlagar; tóku þegar á rás undan. En þeir Egill stefndu þá þar til, er var konungsfylkingin. Þeir komu þar í opna skjöldu, ok gjörðu brátt mikit mannfall. Riðlaðist þá fylkingin ok losnaði öll. Flýðu þá margir af Ólafs mönnum, en víkingar œptu þá sigróp. En er Aðalsteinn konungr þóttist finna, at rofna tók fylking Ólafs konungs, þá eggjaði hann lið sitt, ok lèt fram bera merki sitt; gjörði þá atgöngu harða, svá at hrökk fyrir lið Ólafs konungs, ok gjörðist allmikit mannfall. Fèll þar Ólafr konungr, ok mestr hluti liðs þess, er Ólafr hafði haft, þvíat þeir, er á flótta snèrust, váru allir drepnir, er náð varð. Fèkk Aðalsteinn konungr þar allmikinn sigr.

## 55. Kapítuli.

### Egill jarðaði Þórólf.

Aðalsteinn konungr snèri í brott frá orrustunni, en menn hans ráku flóttann. Hann reið aptr til borgarinnar, ok tók eigi fyrr náttstað en í borginni. En Egill rak flóttann, ok fylgdi þeim lengi, ok drap hvern mann, er hann náði. En er Egill hafði hent þá alla, er hann vildi, þá snèri hann aptr með sveitunga sína, ok fór þar til, er orrustan hafði verit, ok hitti þar Þórólf bróður sinn látinn. Hann tók upp lík hans ok þó, bjó um síðan, sem siðvenja var til. Grófu þeir þar gröf, ok settu Þórólf þar í með vápnum sínum öllum ok klæðum. Síðan spenti Egill gullhring á hvára hönd honum, áðr hann skildist við; hlóðu síðan at grjóti ok jósu at moldu. Þá kvað Egill vísu:

Gekk sá, er óaðist ekki,
jarlmanns bani snarla;
þreklundaðr fèll Þundar

Þórólfr í gný stórum.
Jörð grœr, en vèr verðum,
Vínu nær of mínum,
(helnauð er þat) hylja
harm, ágætum barma.

Ok enn kvað hann:

Valköstum hlóð ek vestan
vang fyrir merkistangir;
ótt var el þat, er sóttak
Aðils bláum Naðri.
Háði ungr við Engla
Álafr þrimu stála;
hèlt (nè hrafnar sultu)
Hringr at vápna þingi.

Síðan fór Egill með sveit sína á fund Aðalsteins konungs, ok gekk þegar fyrir konung, er hann sat við drykkju. Þar var glaumr mikill. Ok er konungr sá, at Egill var inn kominn, þá mælti hann, at rýma skyldi pallinn þann hinn úœðra fyrir þeim, ok mælti, at Egill skyldi sitja þar í öndvegi gegnt konungi. Egill settist þá niðr ok skaut skildinum fyrir fœtr sèr. Hann hafði hjálm á höfði, ok lagði sverðit um knè sèr, ok dró annat skeið til hálfs, en þá skelldi hann aptr í slíðrin. Hann sat upprèttr, ok var gneypr mjök. Egill var maðr mikilleitr, ennibreiðr, brúnamikill, nefit ekki langt, en ákafliga digrt, granstœðit vítt ok langt, hakan breið furðuliga, ok svá allt um kjálkana, hálsdigr ok herðimikill, svá at þat bar frá því, sem aðrir menn váru, harðleitr ok grimmligr, þá er hann var reiðr. Hann var vel í vexti ok hverjum manni hærri, úlfgrátt hárit ok þykkt, ok varð snemma sköllóttr. En er hann sat, sem fyrr var ritat, þá hleypti hann annarri brúninni ofan á kinnina, en annarri upp í hárrœtr. Egill var svarteygr

ok skolbrúnn. Ekki vildi hann drekka, þó at honum væri borit, en ýmsum hleypti hann brúnunum ofan eða upp. Aðalsteinn konungr sat í hásæti. Hann lagði ok sverð um knè sèr. Ok er þeir sátu svá um hríð, þá dró konungr sverðit ór slíðrum, ok tók gullhring af hendi sèr, mikinn ok góðan, ok dró á blóðrefilinn, stóð upp, ok gekk á gólfit, ok rètti yfir eldinn til Egils. Egill stóð upp, ok brá sverðinu, ok gekk á gólfit. Hann stakk sverðinu í bug hringinum, ok dró at sèr; gekk aptr til rúms síns. Konungr settist í hásæti. En er Egill settist niðr, dró hann hringinn á hönd sèr, ok þá fóru brýnn hans í lag. Lagði hann þá niðr sverðit ok hjálminn, ok tók við dýrshorni, er honum var borit, ok drakk af. Þá kvað hann:

Hrammtangar lætr hanga
hrynvirgil mèr brynju
Höðr á hauki troðnum
heiðis vinga-meiði.
Ryðmeldis kná ek reiða
(ræðr gunnvala bræðir)
gelgju-seil á gálga
geirveðrs (lofi at meira).

Þaðan af drakk Egill at sínum hlut, ok mælti við aðra menn. Eptir þat lèt konungr bera inn kistur tvær; báru tveir menn hvára. Váru báðar fullar af silfri. Konungr mælti: „kistur þessar, Egill! skaltu hafa, ok, ef þú kemr til Íslands, skaltu fœra fè þetta föður þínum; í sonargjöld sendi ek honum; en sumu fè skaltu skipta með frændum ykkrum Þórólfs, þeim er þèr þykkja ágætastir. En þú skalt taka hèr bróðurgjöld með mèr, lönd eða lausa aura, hvárt er þú vill heldr. Ok ef þú vill með mèr dveljast til lengdar, þá skal ek hèr fá þèr sœmd ok virð-

ing, þá er þú kannt mèr sjálfr til segja. Egill tók við fènu, ok þakkaði konungi gjafar ok vinmæli. Tók Egill þaðan af at gleðjast, ok þá kvað hann:

Knáttu hvarms af harmi
hnúpgnípur mèr drúpa.
Nú fann ek þann, er ennis
úslèttur þær rètti.
Gramr hefir gerðihömrum
grundar upp of hrundit
(sá er mèr ýgr af augum)
armsíma mèr grímu.

Síðan váru grœddir þeir menn, er sárir váru ok lífs var auðit. Egill dvaldist með Aðalsteini konungi hinn næsta vetr eptir fall Þórólfs, ok hafði hann allmiklar virðingar af konungi. Var þá með Agli lið þat allt, er áðr hafði fylgt þeim báðum brœðrum, ok ór orrustu höfðu komizt. Þá orti Egill drápu um Aðalstein konung, ok er í því kvæði þetta:

Nú hefir foldgnár fellda
(fellr jörð und nið Ellu)
hjaldr-snerrandi harra
höfuðbaðmr þrjá jöfra.
Aðalsteinn of vann, annat
allt er lægra, kynfrægri,
(hèr sverjum þess, hyrjar
hann-brjótr!) konungmanni.

En þetta er stefit í drápunni:

Nú liggr hæst und hraustum
hreinbraut Aðalsteini.

Aðalsteinn gaf þá enn Agli at bragarlaunum gullhringa tvá, ok stóð hvárr mörk, ok þar fylgdi skikkja dýr, er konungr sjálfr hafði áðr borit. En er váraði, lýsti Egill

yfir því fyrir konungi, at hann ætlaði í brott um sumarit, ok til Noregs, ok vita, „hvat títt er um hag Ásgerðar, konu þeirrar, er átt hefir Þórólfr bróðir minn. Þar standa saman fè mikil, en ek veit eigi, hvárt börn þeirra lifa nökkur. Á ek þar fyrir at sjá, ef þau lifa; en ek á arf allan, ef Þórólfr hefir barnlauss andazt“. Konungr segir: „Þat mun vera Egill á þínu forráði, at fara hèðan á brott, ef þú þykkist eiga skyldar-erendi, en hinn veg þykkir mèr bezt, at þú takir hèr staðfestu með mèr ok slíka kosti, sem þú vill beiðast“. Egill þakkaði konungi orð sín. „Ek mun nú fara fyrst, sem mèr berr skylda til, en þat er líkara, at ek vitjak hingat þessa heita, þá er ek komumst við“. Konungr bað hann svá gjöra. Síðan bjóst Egill brott með liði sínu, en margt dvaldist eptir með konungi. Egill hafði eitt langskip mikit ok þar á hundrað manna eða vel svá. Ok er hann var búinn ferðar sinnar ok byr gaf, þá hèlt hann til hafs. Skildust þeir Aðalsteinn konungr með mikilli vináttu; bað hann Egil koma aptr sem skjótast. Egill kvað svá vera skyldu. Síðan hèlt Egill til Noregs; ok er hann kom við land, fór hann sem skyndiligast inn í Fjörðu. Hann spurði þau tíðindi, at andaðr var Þórir hersir, en Arinbjörn hafði tekit við arfi ok gjörzt lendr maðr. Egill fór á fund Arinbjarnar ok fèkk þar góðar viðtökur. Bauð Arinbjörn honum þar at vera. Egill þekktist þat. Lèt hann setja upp skipit ok vista lið sitt. En Arinbjörn tók við Agli við tólfta mann, ok var hann með honum um vetrinn.

## 56. Kapituli.

### Kvánfang Egils.

Bergönundr, son Þorgeirs þyrnifótar, hafði þá fengit Gunnhildar, dóttur Bjarnar haulds. Var hón komin til

bús með honum á Aski. En Ásgerðr, er átt hafði Þórólfr Skallagrímsson, var þá með Arinbirni frænda sínum. Þau Þórólfr áttu dóttur eina unga, er Þórdís hèt, ok var mærin þar með móður sinni. Egill sagði Ásgerði lát Þórólfs, ok bauð henni sína umsjá. Ásgerðr varð mjök úkát við þá sögu, en svarar vel rœðum Egils, ok tók lítit af öllu. En er á leið haustit, tók Egill úgleði mikla ok drakk lítit, en sat svá opt, at hann drap höfðinu niðr í feld sinn. Eitthvert sinn gekk Arinbjörn til hans ok spurði, hvat úgleði hans ylli. „Nú þó at þú hafir fengit skaða mikinn um bróður þinn, þá er þat karlmannligt, at berast vel af. Skal maðr eptir mann lifa. Eða hvat kveðr þú nú? Láttu mik nú heyra“. Egill sagði, at hann hafði þetta fyrir skemmstu kveðit:

Úkunni vensk, ennis
(ungr þorðak vel forðum
haukaklifs at hefjast)
Hlín þó gnípur mínar.
Verð ek í feld, þá er foldar
faldr kemr í hug skaldi
Bergönundar, brúna
bratt miðstalli at hvatta.

Arinbjörn spurði, hver kona sú væri, er hann orti mansöng um. „Hefir þú fólgit nafn hennar í vísu þessi“. Þá kvað Egill:

(Sefskuldar) fel ek sjaldan
(sorg) eyvita (borgar)
í Nið-erfi Narfa
nafn örvífils drafnar;
þvíat geirróta Gautar
gnýþings bragar fingrum
rógs at ræsis veigum
reifendr munu þreifa.

„Hèr mun vera“, segir Egill, „sem opt er mælt, at segjanda er allt sínum vin“. Ek mun segja þèr þat, er þú spyrr, um hverja konu ek yrki. Þat er Ásgerðr frændkona þín, ok þar til vilda ek hafa fullting þitt, at ek næða því ráði“. Arinbjörn segir, at honum þykkir þat vel fundit. „Skal ek víst leggja þar orð til, at þau ráð takist“. Síðan bar Egill þetta upp fyrir Ásgerði, en hón skaut til ráða föður síns ok þeirra Arinbjarnar frænda síns. Síðan rœðir Arinbjörn við Ásgerði, ok hafði hón hin sömu svör fyrir sèr. Arinbjörn fýsti þessa ráðs. Síðan fara þeir Arinbjörn ok Egill á fund Bjarnar, ok hefr Egill þá bónorð ok bað Ásgerðar dóttur Bjarnar. Björn tók því máli vel ok sagði, at Arinbjörn mundi því mjök ráða. Arinbjörn fýsti mjök, ok lauk því máli svá, at Egill festi Ásgerði, ok skyldi brullaup vera at Arinbjarnar. En er at þeirri stefnu kemr, þá var þar veizla allveglig, er Egill kvángaðist. Var hann þá allkátr, þat er eptir var vetrarins. Egill bjó um várit kaupskip til Íslandsferðar. Rèð Arinbjörn honum þat, at staðfestast ekki í Noregi, meðan ríki Gunnhildar væri svá mikit, „þvíat hón er allþung til þín“, segir Arinbjörn, „ok hefir þetta mikit um spillt, er þit Eyvindr fundust við Jótland“. En er Egill var búinn ok byr gaf, þá siglir hann í haf ok greiðist hans ferð vel. Kemr hann um haustit til Íslands, ok hèlt til Borgarfjarðar. Hann hafði þá verit utan tólf vetr. Gjörðist þá Skallagrímr maðr gamall. Varð hann þá feginn, er Egill kom heim. Fór Egill til Borgar at vistum ok með honum Þorfiðr strangi, ok þeir mjök margir saman. Váru þeir með Skallagrími um vetrinn. Egill hafði þar úgrynni fjár, en ekki er þess getit, at Egill skipti silfri því, er Aðalsteinn konungr hafði fengit honum í hendr, hvártki við Skallagrím nè aðra

menn. Þann vetr fèkk Þorfinnr Sæunnar, dóttur Skallagríms, ok eptir um várit fèkk Skallagrímr þeim bústað at Langárfossi ok land inn frá Leirulœk, milli Langár ok Álptár, allt til fjalls. Dóttir Þorfinns ok Sæunnar var Þórdís, er átti Arngeirr í Hólmi, son Bersa goðlauss. Þeirra son var Björn Hítdœlakappi. Egill dvaldist þá með Skallagrími nökkura vetr. Tók hann til fjárforráða ok bús-umsýslu engu miðr Skallagrími. Egill gjörðist enn snoðinn. Þá tók hèraðit at byggjast víða. Hrómundr, bróðir Gríms hins háleyska, byggði þá í Þverárhlíð ok skipverjar hans. Hrómundr var faðir Gunnlaugs, föður Þuríðar dyllu, móður Illuga svarta. Egill hafði þá verit nökkura vetr at Borg með feðr sínum. Þá var þat á einu sumri, er skip komu af Noregi til Íslands, at þau tíðindi spurðust austan, at Björn hauldr var andaðr. Þat fylgdi þeirri sögn, at fè þat allt, er Björn hafði átt, hafði upp tekit Bergönundr, mágr hans. Hann hafði flutt heim til sín alla lausa aura, en jarðir hafði hann byggt ok skilit sèr allar landskyldir. Hann hafði ok sinni eigu kastat á jarðir þær allar, er Björn hafði átt. Ok er Egill heyrði þetta, þá spurði hann vandliga, hvárt Bergönundr mundi sínum ráðum fram hafa farit um þetta, eða hefði hann traust til haft sèr meiri manna. Honum var sagt, at Önundr var kominn í vináttu mikla við Eirík konung, ok við Gunnhildi þó miklu kærra. Egill lèt þat kyrrt vera á því hausti. En er vetrinn leið af ok vára tók, þá lèt Egill setja fram skip, er hann átti, er staðit hafði í hrófi við Langárfoss. Hann bjó skip þat til hafs ok fèkk menn til. Ásgerðr kona hans var ráðin til farar, en Þórdís, dóttir Þórólfs, var eptir. Egill sigldi í haf, er hann var búinn, ok er frá hans ferð ekki at segja, fyrr en hann kemr til Noregs. Hèlt hann þegar til fundar

við Arinbjörn, sem fyrst mátti hann. Arinbjörn tók vel við honum, ok bauð Agli með sèr at vera; ok þat þekktist hann. Fóru þau Ásgerðr bæði þangat ok nökkurir menn með þeim. Egill kom brátt á rœður við Arinbjörn um fjárheimtur þær, er Egill þóttist eiga þar í landi. Arinbjörn segir: „þat mál þykkir mèr úvænligt; Bergönundr er harðr ok údæll, ranglátr ok fègjarn, en hann hefir nú hald mikit af konungi ok drottningu. Er Gunnhildr hinn mesti úvinr þinn, sem þú veizt áðr, ok mun hón ekki fýsa Önund, at hann gjöri greiða á málinu“. Egill segir: „konungr mun oss láta ná lögum ok rèttindum á máli þessu; en með liðveizlu þinni, þá vex mèr ekki í augu, at leita laga við Bergönund“. Ráða þeir þat af, at Egill skipar skútu; fóru þeir þar á nær tuttugu. Þeir fóru suðr á Hörðaland, ok koma fram á Aski. Ganga þeir þar til húss, ok hitta Önund. Berr þá Egill upp mál sín, ok krefr Önund skiptis um arf Bjarnar, ok segir, at dœtr Bjarnar væri jafnkomnar til arfs eptir hann at lögum, „þó at mèr þykki“, segir Egill, „sem Ásgerðr muni þykkja ættborin miklu betr en Gunnhildr kona þín“. Önundr segir þá snellt mjök: „þú ert furðuliga djarfr maðr, Egill! útlagi Eiríks konungs, er þú ferr hingat í land hans, ok ætlar hèr til ágangs við menn hans ok vini. Máttu svá ætla, Egill! at ek hefi velta látit slíka, sem þú ert, ok af minnum sökum, en mèr þykkja þessar, er þú telr til arfs fyrir hönd konu þinnar; því at þat er kunnigt alþýðu manna, at hón er þýborin at móðerni“. Önundr var málóði um hríð. Ok er Egill sá, at Önundr vildi engan hlut greiða um þetta mál, þá stefnir Egill honum þing, ok skýtr málinu til Gulaþingslaga. Önundr segir: „koma mun ek til Gulaþings, ok munda ek vilja, at þú kæmir þaðan eigi heill í brott“. Egill segir, at

hann mun til þess hætta, at koma þó til þings allt at einu. „Verðr þá sem má, hversu málum várum lýkr“. Fara þeir Egill síðan í brott, ok er hann kom heim, segir hann Arinbirni frá ferð sinni ok frá svörum Önundar. Arinbjörn varð reiðr mjök, er Þóra föðursystir hans var kölluð ambátt. Arinbjörn fór á fund Eiríks konungs; bar upp fyrir hann þetta mál. Konungr tók heldr þungt hans máli, ok segir, at Arinbjörn hefði lengi fylgt mjök málum Egils. „Hefir hann notit þín at því, er ek hefi látit hann vera hèr í landi; en nú mun mèr örðigt þykkja, ef þú heldr hann til þess, at hann gangi á vini mína“. Arinbjörn segir: „þú munt láta oss ná lögum af þessu máli“. Konungr var heldr styggr í rœðunni. Arinbjörn fann, at drottning mundi þó miklu verr viljuð. Ferr Arinbjörn aptr ok sagði, at heldr horfir úvænt. Líðr af vetrinn, ok kemr þar, er menn skulu fara til Gulaþings. Arinbjörn fjölmennti mjök til þings; Egill var í för með honum.

## 57. Kapítuli.

### Málasóknir Egils ok Önundar.

Eiríkr konungr var þar, ok hafði fjölmenni mikit. Bergönundr var í sveit konungs ok þeir brœðr, ok höfðu þeir sveit mikla. En er þinga skyldi um mál manna, þá gengu hvárirtveggja þar til, er dómrinn var settr, at flytja fram sannindi sín. Var Önundr þá all-stórorðr. En þar, er dómrinn var settr, var völlr slèttr, ok settar niðr heslistengr í völlinn í hring, ok lögð um utan snœri umhverfis. Váru þat kölluð vèbönd. En fyrir innan í hringinum sátu dómendr, tólf ór Firðafylki, ok tólf ór Sygnafylki, tólf ór Hörðafylki. Þær þrennar tylftir manna skyldu þar dœma um mál öll. Arinbjörn rèð, hverir

dómendr váru ór Firðafylki, en Þórðr af Aurlandi, hverir ór Sygnafylki váru. Þeir váru allir eins liðs. Arinbjörn hafði þangat langskip alskipat, ok svá margar smáskútur ok vistabyrðinga. Eiríkr konungr hafði sex langskip eðr sjau, ok öll vel skipuð. Þar var ok mikit lið af bœndum. Egill hóf svá sitt mál, at hann krafði dómendr, at dœma sèr lög af máli þeirra Önundar. Innti hann þá, hver sannindi hann hafði í tilkalli til fjár þess, er átt hafði Björn Brynjólfsson. Sagði hann, at Ásgerðr, dóttir Bjarnar, eiginkona Egils, var til komin arfs, ok hón var óðalborin ok lendborin ok tiginborin fram í ættir. Krafði hann dómendr, at dœma Ásgerði til handa hálfan arf Bjarnar, lönd ok lausa aura. Ok er hann hætti sinni rœðu, þá tók Bergönundr til máls, ok segir svá: „Gunnhildr kona mín er dóttir Bjarnar ok Ólaufar, þeirrar konu, er Björn gekk at eiga at lögum. Er Gunnhildr rèttr arfi Bjarnar. Tók ek fyrir þá sök upp fè þat allt, er Björn hafði átt, at ek vissa, at sú ein var dóttir Bjarnar önnur, er ekki var arftœk. Var móðir hennar hernumin, en tekin síðan frillutaki, ok ekki at frænda-ráði, ok flutt land af landi. En þú, Egill! ætlar at fara hèr, sem hvervetna annarstaðar, með ofrkapp þitt ok újafnað. Nú mun þèr þat ekki tjóa, þvíat Eiríkr konungr ok Gunnhildr drottning hafa mèr því heitit, at ek skal rètt hafa af hverju máli, þar er þeirra ríki stendr yfir. Mun ek fœra fram sönn vitni fyrir konungi ok drottningu ok dómöndum, at Þóra hlaðhönd, móðir Ásgerðar, var hertekin heiman frá Þóri bróður sínum, ok enn í annat sinn af Aurlandi frá Brynjólfi. Fór hón þá af landi í brott með víkingum, ok var útlagi af Noregi, ok í þeirri útlegð gátu þau Björn mey þessa Ásgerði. Nú er furða mikil um Egil, er hann ætlar at gjöra úmæt öll orð Eiríks kon-

ungs. Þat fyrst, at þú ert hèr í landi, síðan Eiríkr gjörði þik útlægan, ok þat annat er meira, þóttú hafir fengit ambáttar, at kalla hana arfgenga. Vil ek þess krefja dómendr, at þeir dœmi arf til handa Gunnhildi, en dœmi Ásgerði ambátt konungs, þvíat hón var svá getin, at faðir hennar ok móðir váru í útlegð konungs". Arnbjörn reiddist mjök, er hann heyrði, at Þóra hlaðhönd var ambátt kölluð, ok stóð upp ok vildi eigi lengr þegja, ok leit til beggja handa sèr, ok tók svá til máls: „vitni munum vèr fram bera, konungr! um þetta mál, ok láta eiða fylgja, at þat var skilit í sætt þeirra Þóris, föður míns, ok Bjarnar, at Ásgerðr, dóttir þeirra Bjarnar ok Þóru, var til arfs leidd eptir Björn föður sinn, ok svá þat, sem yðr er kunnigt sjálfum, konungr! at þú gjörðir Björn ílendan, ok öllu því máli var þá skilat, er áðr hafði í milli staðit sættar manna". Konungr svaraði ekki skjótt máli hans. Þá kvað Egill vísu:

Þýborna kveðr þorna
þornreið atti horna
(sýslir hann of sína
síngirnd Önundr) mína.
Naðhristir! á ek nistis
norn til arfs of borna;
þigg þú, auðkonr! eiða
(auðsótt er þat) greiða.

Arinbjörn lèt þá fram vitnin, tólf menn, ok allir vel til valdir. Höfðu þessir allir heyrt á sætt þeirra Þóris ok Bjarnar, ok buðu konungi ok dómöndum at sverja þar eptir. Dómendr vildu taka eiða þeirra, ef konungr bannaði eigi. Konungr segir, at hann mundi hvártki þar til leggja lof nè bann. Þá tók til orða Gunnhildr drottning: „þetta eru undr mikil, konungr! er þú lætr Egil þenna

hinn mikla vefja öll mál fyrir þèr, eðr hvárt muntu eigi í móti mæla, þó hann kalli til konungdóms í hendr þèr. Nú þóttú vilir enga órskurði veita, þá er Önundi sè lið at, þá skal ek þat eigi þola, at Egill troði svá undir fótum vini vára, at hann taki með rangindum fè af Önundi, eða hvar er Álfr, bróðir minn? Farðu til með sveit þína, þar sem dómar eru, ok lát eigi dœma rangindi þessi". Þá fór hann ok menn hans þar til, er dómrinn var, ok skáru í sundr vèböndin, en brutu niðr stengr, ok hleyptu upp dóminum. Þá gjörðist yss mikill á þinginu, en allir menn váru þar vápnlausir. Þá mælti Egill: „hvárt má Bergönundr heyra mál mitt"? „Heyri ek", segir Önundr. „Þá vil ek bjóða þèr hólmgöngu, ok þat með, at vit berimst hèr á þinginu. Hafi sá okkar fè þetta, lönd ok lausa aura, er sigr fær; en þú ver hvers manns níðingr, ef þú þorir eigi". Þá svaraði Eiríkr konungr: „ef þú, Egill! ert allfúss at berjast, þá skulum vèr nú veita þèr þat". Egill mælti: „Ekki vil ek berjast við konungsríki ok ofrefli liðs, en fyrir jafnmörgum mun ek eigi flýja, ef mèr skal þess unna. Mun ek þá ok at því gjöra engan mannamun, hvárt er tiginn eða útiginn". Þá mælti Arinbjörn: „förum vèr á brutt, Egill! ekki munum vèr hèr iðna at sinni, þat er oss muni gagn í vera". Snèri Arinbjörn þá á braut ok allt lið hans með honum. Þá snèri Egill aptr ok mælti hátt: „því skírskota ek undir þik, Arinbjörn! og þik, Þórðr! ok alla þá menn, er nú megu orð mín heyra, lenda menn ok lögmenn, ok alla alþýðu, at ek banna jarðir þær allar, er átti Björn Brynjólfsson, at byggja ok at vinna, ok allra gagna af at neyta. Banna ek þèr, Bergönundr! ok öðrum mönnum öllum, innlenzkum ok útlenzkum, tignum ok útignum; en hverjum, er þat gjörir, legg ek við lögbrot ok goðagremi ok

griða-rof". Þá gekk Egill í brott með Arinbirni. Fóru þeir þá til skipa sinna, ok var þar at ganga yfir leiti nökkut ok eigi all-skammt, svá eigi sá skipin af þingvellinum. Egill var hinn reiðasti. Ok er þeir komu til skipanna, talaði Arinbjörn fyrir liðinu ok mælti svá: „þat er öllum mönnum kunnigt, hver hèr hafa orðit þinglok, at vèr höfum eigi náð lögum, en konungr er hinn reiðasti, svá mèr er ván, at várir menn sæti af honum afarkostum, ef hann má. Vil ek nú, at hverr maðr gangi á skip sitt ok fari heim. Bíði nú engi annars". Síðan gekk Arinbjörn á skip sitt. Hann mælti til Egils: „gakk þú nú með förunauta þína á skútu, er hèr liggr á útborða langskipinu, ok verit í brott sem fyrst. Farit um nætr, sem þèr megut, en eigi um daga, ok forðit yðr, þvíat konungr mun eptir leita, at fundi yðra mætti saman bera. Leitit síðan til mín, þá er þessu lýkr, hvat sem í kann at gjörast með ykkr konungi. Egill gjörði, sem Arinbjörn mælti, gengu þeir á skútuna nær þrír tigir manna, ok rèru sem ákafligast. Skipit var einkar skjótt. Þá rèri ok fjöldi annarra skipa út ór höfninni af liði Arinbjarnar, skútur ok róðrarferjur; en langskipit, er Arinbjörn stýrði, fór síðast, þvíat þat var þyngst undir árum. Skúta Egils, sú er hann stýrði, gekk brátt fram frá samflotanum. Þá kvað Egill vísu:

Erfingi rèð arfi
arfljúgr fyrir mèr svarfa
(mœti ek hans ok heitum
hótum) Þyrnifótar,
nærgi er Simla sorgar
slíkt rán ek get hánum,
(vèr deildum fjöt foldar)
foldveringja, goldit.

## 58. Kapítuli.

### Frá Eiríki konungi ok Agli.

Eiríkr konungr heyrði ályktar-orð Egils, þau er hann mælti síðast á þínginu, ok varð hann reiðr mjök. En allir menn höfðu vápnlausir farit til þingsins. Veitti konungr fyrir því eigi atgöngu. Hann bað menn sína hvata til skipa. Þeir gjörðu, sem hann bauð. En er þeir komu til strandar, skaut konungr á húsþingi, ok segir fyrirætlan sína. „Vèr skulum nú“ segir konungr, „láta af tjöld af skipum várum, ok róa eptir þeim Arinbirni ok Agli, ok því vil ek lýsa fyrir yðr, at vèr skulum Egil af lífi taka, ef vèr komumst í fœri, en hlífa engum manni, þeim er fyrir honum vill standa“. Eptir þat gengu þeir á skip, ok bjuggust um sem skjótast, ok lögðu út skipunum, ok rèru þar til, er skip þeirra Arinbjarnar höfðu verit. Váru þeir þá allir í brottu. Þá lèt konungr taka róðr eptir þeim norðr um sundin. Ok er hann kom á Sognsæ, þá rèri lið Arinbjarnar inn til Sauðungssunda, ok snèri þá konungr þangat inn eptir þeim, ok hitti hann skip Arinbjarnar í innri Sauðungssundum. Konungr lagði þegar at, ok köstuðust orðum á. Spurði konungr, hvárt Egill væri þar á skipinu. Arinbjörn svarar: „eigi er Egill hèr“, segir hann; „munu þèr, konungr! þat skjótt mega sjá; þeir einir eru hèr menn innbyrðis, at þèr munut kenna, en Egill mun eigi finnast undir þiljum niðri, þótt þèr leitit hans þar“. Konungr spyrr Arinbjörn, hvat hann vissi til Egils síðast. Hann segir, at Egill var á skútu einni við þrjá tigi manna, „ok fóru þeir leið sína út til Steinsunds“. Þá mælti konungr, at þeir skyldi róa í hin iðri sundin, ok stefna svá í móti þeim Agli. Maðr er nefndr Ketill höðr. Hann var hirðmaðr Eiríks konungs, upplenzkr maðr at ætt. Hann

sagði leið fyrir konungsskipinu, ok stýrði því. Ketill var mikill maðr ok fríðr sínum. Hann var náfrændi konungs. Var þat margra manna mál, at þeir konungr væri líkir sýnum. Egill hafði látit fleyta skipi sínu ok fluttan farm til, áðr hann fór til þings. En er þeir höfðu skilit við Arinbjörn, þá fóru þeir leið sína til Steinsunds, þar til er þeir komu til skips síns, þar sem þat flaut í höfninni, ok tjaldat yfir. Þá gengu þeir upp á skipit, en skútan flaut við stýri milli lands ok skipsins, ok lágu þar árar í hömlubröndum. Eptir um morguninn, er trautt var dagat, þá urðu varðmenn varir við, at skip nökkur rèru at þeim. En er Egill sá, at úfriðr var, stóð hann upp ok mælti, at þeir skyldi hlaupa í skútuna. Hann vápnaðist skjótt ok allir þeir. Egill tók upp silfrkistur þær, er Aðalsteinn konungr fèkk honum, ok hafði með sèr. Þeir hlupu í skútuna allir vápnaðir, ok rèru fram í milli landsins ok snekkju þeirrar, er næst fór landinu; en þat var skip Eiríks konungs. En þvíat bráðum bar at ok lítt var lýst, þá renndust skipin hjá. Ok er lyptingar bar saman, þá skaut Egill spjóti, ok kom á þann mann miðjan, er við stýrit sat, en þat var Ketill höðr, ok fèkk hann þegar bana. Þá kallar Eiríkr konungr, ok bað menn róa eptir þeim Agli, en er skipin renndu hjá kaupskipinu, þá hljópu menn konungs upp á skipit. En þeir menn, er eptir höfðu orðit af Egilsmönnum ok eigi hljópu í skútuna, þá váru allir drepnir, þeir er náð varð, en sumir hljópu á land. Þar lètust tíu menn af sveitungum Egils. Sum skipin rèru eptir þeim Agli, en sum rændu kaupskipit. Var þar tekit fè þat allt, er innanborðs var, en þeir brenndu skipit. En þeir, er eptir þeim Agli rèru, sóttu ákaft; tóku tveir eina ár, ok máttu þó skiptast við um róðrinn. Skortir þar eigi lið innanborðs,

en þeir Egill höfðu þunnskipat. Váru þeir þá átján á skútunni. Þá dró saman með þeim, en fyrir innan eyna var vaðilsund nökkut grunnt, milli ok annarrar eyjar. Útfall var sjávarins. Þeir Egill hleyptu skútunni í þat hit grunna sundit, en snekkjurnar flutu þar eigi, ok skildi þar með þeim. Snèri þá konungr suðr aptr, en Egill fór norðr á fund Arinbjarnar. Þá kvað Egill vísu:

Nú hefir þrymrögnir þegna
þróttharðr (en ek mik varðak
víti) várrar sveitar
vígelds tíu fellda.
Þar lax sára særði,
sendr ór minni hendi,
digr fló beint meðal bjúgra
bifþorn Ketils rifja.

Egill kom á fund Arinbjarnar ok segir honum þessi tíðindi. Arinbjörn segir, at honum var ekki vildara af ván um skipti þeirra Eiríks konungs; „en ekki mun þik fè skorta, Egill! Ek skal bœta þèr skipit ok fá þèr annat, þat er þú megir vel fara til Íslands“. Ásgerðr, kona Egils, hafði verit með Arinbirni, síðan þeir fóru til þings. Arinbjörn fèkk Agli skip þat, er vel var haffœranda, ok lèt ferma af því, sem Egill vildi. Býr Egill skip þat til hafs, ok hafði þá enn nær þrjá tigi manna. Skiljast þeir Arinbjörn þá með vináttu. Þá kvað Egill:

Svá skyldu goð gjalda
(gram reki bönd af höndum;
reið sè rögn ok Óðinn)
rán míns fjár hánum.
Fólkmýgi lát flýja,
Freyr ok Njörðr! af jörðu.

Leiðist lofða stríði
land-áss, þann er vè grandar

## 59. Kapítuli.

Eiríkr konungr drap brœðr sína.

Haraldr hinn hárfagri setti sonu sína til ríkis í Noregi, þá er hann tók at eldast; gjörði Eirík konung yfirkonung sona sinna allra. Ok er Haraldr hafði verit sjau tigi vetra konungr, þá seldi hann í hendr Eiríki syni sínum ríki. Í þann tíma ól Gunnhildr son, ok jós Haraldr konungr vatni, ok gaf nafn sitt, ok lèt þat fylgja, at hann skyldi konungr vera eptir föður sinn, ef honum endist aldr til. Haraldr konungr settist þá í kyrrsetu, ok sat optast á Rogalandi eða Hörðalandi. En þrem vetrum síðar andaðist Haraldr konungr á Rogalandi, ok var gjörr haugr eptir hann við Haugasund. Eptir andlát konungs þá var deila mikil með sonum hans, þvíat Víkverjar tóku sèr til konungs Ólaf, en Þrændir Sigurð. En Eiríkr felldi þá báða brœðr sína í Túnsbergi einum vetri eptir andlát Haralds konungs. Var þat allt á einu sumri, er Eiríkr konungr fór með her sinn af Hörðalandi austr í Vík til bardaga við brœðr sína, ok áðr höfðu þeir deilt á Gulaþingi Egill ok Bergönundr, ok þessi tíðindi, er nú var sagt. Bergönundr var heima at búi sínu, þá er konungr fór í leiðangr, þvíat honum þótti úvarligt at fara frá búi sínu, meðan Egill var eigi ór landi farinn. Þar var þá með honum Haddr bróðir hans. Fróði hèt maðr, frændi Eiríks konungs. Hann var hinn fríðasti maðr, ungr at aldri, ok þó vaxinn maðr. Eiríkr konungr setti hann eptir til trausts Bergönundi. Sat Fróði á Álreksstöðum at búi konungs, ok hafði þar sveit manna. Rögnvaldr er nefndr son Eiríks konungs ok Gunnhildar. Hann var þá

vetra tíu eðr ellifu, ok var hit fríðasta mannsefni. Hann var þá með Fróða, er þetta var tíðinda. En áðr Eiríkr konungr rèri þenna leiðangr, þá gjörði hann Egil útlaga fyrir endilangan Noreg ok dræpan hverjum manni. Arinbjörn var þá með konungi í leiðangri; en áðr hann fór heiman, þá lagði Egill skipi sínu til hafs, ok hèlt í útver þat, er Vitar heita, út frá Alda. Þat er komit af þjóðleið. Þar váru fiskimenn, ok var þar gott at spyrja tíðindi. Þá spurði hann, at konungr hafði gjört hann útlaga. Þá kvað Egill vísu:

Lögbrigðir hefir lagða,
landálfr! fyrir mèr sjálfum
(blekkir brœðra sökkva
brúðfang) vegu langa.
Gunnhildi á ek at gjalda
(greypt er hennar skap) þenna
(ungr gat ek læ launat)
landrekstr (byli granda).

Veðr váru vindlítil, fjallvindr um nætr, en hafgola um daga. Eitt kveld sigldu þeir Egill út á haf, en fiskimenn rèru þá inn til lands, þeir er til njósnar höfðu settir verit um farar þeirra Egils. Kunnu þeir þat at segja, at Egill hafði út látit ok á haf siglt, ok hann var á brottu. Lètu þessa njósn koma til Bergönundar. Ok er hann vissi þessi tíðindi, þá sendi hann frá sèr menn þá alla, er hann hafði áðr haft þar til varúðar. Rèri hann þá inn til Álreksstaða ok bauð Fróða til sín, þvíat Bergönundr átti öl mikit heima at sín. Fróði fór með honum ok hafði með sèr nökkura menn. Tóku þeir þar veizlu góða, ok höfðu gleði mikla. Var þar þá allt óttalaust. Rögnvaldr konungsson átti karfa einn. Rèru sex menn á borð. Hann var steindr allr fyrir ofan sjó. Hann hafði með sèr menn tíu eða tólf,

þá er honum fylgdu einart; ok er Fróði var heiman farinn, þá tók Rögnvaldr karfann, ok rèru þeir út til Herðlu tólf saman. Þar var konungsbú mikit, ok rèð sá maðr fyrir, er hèt Skeggþórir. Þar hafði Rögnvaldr verit á fóstri í barnœsku. Tók Þórir feginsamliga við konungssyni. Skorti þar ok eigi drykk mikinn.

## 60. Kapítuli.

### Dráp Bergönundar ok Rögnvalds konungssonar.

Egill sigldi út á haf um nóttina, sem fyrr var ritat. Ok er morgnaði, fèll veðrit ok gjörði logn. Lögðu þeir þá í rètt, ok lètu reiða fyrir nökkurar nætr. En er hafgola kom á, sagði Egill skipurum sínum: „nú munum vèr sigla at landi, þvíat úgjörla veit, ef hafviðri kemr á hvasst, hvar vèr náum þá landi, en heldr úfriðvænt fyrir í flestum stöðum“. Hásetar báðu Egil fyrir ráða þeirra ferð. Síðan tóku þeir til segls ok sigldu inn til Herðluvers. Fengu þeir þar góða höfn ok tjölduðu yfir skipi sínu, ok lágu þá um nóttina. Þeir höfðu á skipinu lítinn bát, ok gekk Egill þar á við þriðja mann. Rèri hann þá inn um nóttina til Herðlu. Sendir þá mann í eyna upp, at spyrja tíðinda, ok er sá kom ofan til skips, sagði hann, at þar á bœnum var Rögnvaldr konungsson ok hans menn. „Sátu þeir þá við drykkju; hitta ek einn af húskörlum, ok var sá ölóðr ok sagði, at hèr skyldi eigi minna drekka en at Bergönundar, þótt Fróði væri þar á veizlu ok þeir fimm saman. Ekki kvað hann þar fleira manna en heimamenn, nema Fróða ok hans menn“. Síðan rèri Egill aptr til skips, ok bað menn upp standa, ok taka vápn sín. Þeir gjörðu svá. Þeir lögðu út skipit um akkeri. Egill lèt gæta tólf menn skips, en hann fór á

eptirbátinn, ok þeir átján saman; rèru síðan inn eptir sundum. Þeir stilltu svá til, at þeir komu um kveldit inn til Fenhrings, ok lögðu þar til leynivágs eins. Þá mælti Egill: „nú vil ek ganga einn upp í eyna ok njósna, hvers ek verða víss; en þèr skulut bíða mín hèr“. Egill hafði vápn sín, þau er hann var vanr at hafa, hjálm ok skjöld, gyrðr sverði, höggspjót í hendi. Síðan gekk hann upp í eyna ok fram með skógi nökkurum. Hann hafði dregit hött síðan yfir hjálm. Hann kom þar at, er sveinar nökkurir váru ok hjá þeim hjarðtíkr stórar. Ok er þeir tókust at orðum, spurði hann, hvaðan þeir væri, eða fyrir hví þeir væri þar, ok hefði hunda svá stóra. Þeir mæltu: „þú munt vera allheimskr maðr, eða hefir þú eigi heyrt, at hèr gengr björn um eyna, hinn mesti spellvirki; drepr hann bæði menn ok fènað, ok er lagt fè til höfuðs honum. Vöku vèr hèr hverja nótt á Aski yfir fè váru, er byrgt er í grindum; eða hví ferðu með vápnum um nætr“? Hann segir: „hræðumst ek björninn, ok fáir þykkir mèr sem nú fari vápnlausir. Hefir hann lengi elt mik í nótt, ok sjái hèr nú, þar er hann nú í skógarnefinu; hvárt eru allir menn í svefni á bœ þessum“? Sveinninn sagði, at þeir Bergönundr ok Fróði mundi enn drekka; „þeir sitja nætr allar“. „Segit þeim þá“, segir hann Egill, „hvar björninn er, en ek verð at skynda heim“. Hann gekk þá brott, en sveinninn hljóp heim til bœjarins ok til stufunnar, er þeir drukku í. Var þá svá komit, at allir menn váru sofa farnir, nema þeir Önundr ok Fróði ok Haddr. Sveinninn segir, hvar björninn var. Þeir tóku vápn sín, er þar hèngu hjá þeim, ok hljópu þegar út ok upp til skógar. Þar gengu fram skógarnef af mörkinni, ok runnar í sumum stöðum. Sveinninn segir þeim, hvar björninn hafði verit í runninum. Þá sá þeir, at limarnar

hrœrðust; þóttust þá skilja, at björninn mundi þar vera. Þá mælti Bergönundr, at þeir Haddr ok Fróði skyldi fram renna milli megin-merkrinnar, ok gæta, at björninn næði eigi skóginum. Bergönundr rann fram at runninum. Hann hafði hjálm ok skjöld, gyrðr sverði, en kesju í hendi. Egill var þar fyrir í runninum, en engi björn. Ok er hann sá, hvar Bergönundr var, þá brá hann sverðinu, en þar var hönk á meðalkaflanum, ok dró hann hana á hönd sèr, ok lèt þar hanga. Hann tók í hönd sèr kesjuna, ok rann þá fram í mót Bergönundi. Ok er Bergönundr sá þat, þá gœddi hann rásina, ok skaut skildinum fyrir sik, ok áðr þeir mœttust, þá skaut hvárr kesju at öðrum. Egill laust skildinum við kesjunni, ok bar hallan, svá at kesjan reist ór skildinum ok flaug í völlinn. En Egils spjót kom í miðjan skjöldinn, ok gekk í gegnum langt upp á fjöðrina, ok varð fast spjótit í skildinum. Varð Önundi þungbærr skjöldrinn. Egill greip þá skjótt meðalkafla sverðsins. Önundr tók þá ok at bregða sínu sverði. Ok er eigi var brugðit til hálfs, þá lagði Egill í gegnum hann. Önundr hrataði við lagit, en Egill kippti at sèr sverðinu hart, ok hjó til Önundar, ok af nær höfuðit. Síðan tók Egill kesjuna ór skildinum. Þeir Haddr ok Fróði sá fall Bergönundar, ok runnu þangat til. Egill snèrist í móti þeim. Hann skaut kesjunni at Fróða, ok í gegnum skjöld hans, ok í brjóstit, svá at yddi um bakit. Fèll hann þegar á bak aptr dauðr. Egill tók þá sverðit ok snèrist í mót Haddi, ok skiptust þeir fám höggum við, áðr Haddr fèll. Þá komu hjarðarsveinar þar at farandi. Egill mælti til þeirra: „gætit hèr til Önundar, húsbónda yðvars, ok þeirra fèlaga, at eigi slíti dýr eða fuglar hræ þeirra“. Egill gekk þá leið sína, ok eigi langt, áðr fè-

lagar hans komu í mót honum ellifu, en sex gættu skips. Þeir spurðu, hvat hann hefði sýslat. Hann kvað þá:

Sátum lyngs til lengi
ljósheims við bör þeima
(meir varðak fè forðum)
fjarðölna hlut skarðum,
áðr Bergönund benjum
bensæfðan lèt ek venjast.
Börs niðjar fèlt ek beðju
blóði Hadds ok Fróða.

Þá mælti Egill: „vèr skulum nú snúa aptr til bœjarins ok fara hermannliga, drepa menn þá alla, er vèr náum, en taka fè allt, þat er vèr megum með komast“. Þeir fara til bœjarins ok hlaupa þar inn í hús, ok drepa þar menn fimmtán eða sextán. Sumir komust undan af hlaupi. Þeir ræntu þar öllu fè, en spilltu því, er þeir máttu eigi með fara. Þeir ráku búfè til strandar ok hjuggu, báru á bátinn, sem hann tók við; fóru síðan leið sína, ok rèru út um eyjasund. Egill var nú allreiðr, svá at þá mátti ekki við hann mæla. Sat hann við stýri á bátinum. Ok er þeir sóttu út á fjörðinn til Herðlu, þá rèru utan í móti þeim Rögnvaldr konungsson ok þeir þrettán saman á karfanum þeim hinum steinda. Þeir höfðu þá spurt, at skip Egils lá í Herðlu-veri. Ætluðu þeir at gjöra Önundi njósn um ferðir Egils. Ok er Egill sá skipit, þá kenndi hann þegar. Hann stýrði sem beinst á þá. Ok er skipin renndust at, þá kom barð skútunnar á kinnung karfans; hallaði honum, svá at sjór fèll inn á annat borð, ok fylldi skipit. Egill hljóp þá upp á, ok greip kesjuna, hèt á menn sína, at þeir skyldi engan láta með lífi brott komast, þann er á karfanum var. Þat var þá hœgt, þvíat þar var þá engi vörn. Váru allir

þeir á kafi drepnir, en engi komst undan. Lètust þeir þar þrettán, Rögnvaldr ok förunautar hans. Þeir Egill rèru þá til eyjarinnar Herðlu. Þá kvað Egill vísu:

Börðumst vèr; (nè virðak)
vígleiptr sonar (heiptir)
Blóðaxar rauð ek blóði
böðmilds ok Gunnhildar.
Þar fèllu nú þollar
þrettán lagar mána
(stendr af styrjar skyndi
starf) á einum karfa.

Ok er þeir Egill komu til Herðlu, þá runnu þeir þegar upp til bœjar með alvæpni. En er þat sá Þórir ok hans heimamenn, þá runnu þeir þegar af bœnum ok forðuðu sèr allir, þeir er ganga máttu, karlar ok konur. Þeir Egill ræntu þar öllu fè, því er þeir máttu höndum á koma; fóru síðan út til skips síns. Var þá ok eigi langt at bíða, at byrr rann á af landi. Búast þeir til at sigla. Ok er þeir váru seglbúnir, gekk Egill upp í eyna. Hann tók í hönd sèr heslisstöng ok gekk á bergsnös nökkura, þá er vissi til lands inn. Þá tók hann hrosshöfuð, ok setti upp á stöngina. Síðan veitti hann formála ok mælti: „hèr set ek upp níðstöng, ok snÿ ek þessu níði á hönd Eiríki konungi ok Gunnhildi drottningu“. Hann snèri hrosshöfðinu inn á land. „Snÿ ek þessu níði á landvættir, þær er þetta land byggja, svá at allar fari þær villar vega, ok engi hendi nè hitti sitt inni, fyrr en þær hafa rekit ór landi Eirík konung ok Gunnhildi“. Síðan skÿtr hann stönginni niðr í bjargrifu ok lèt þar standa. Hann snèri ok höfðinu inn á land, en hann reist rúnar á stönginni, ok segja þær formála þenna allan. Eptir þat gekk Egill á skip. Tóku þeir til segls ok

sigldu á haf út. Tók þá byrr at vaxa, ok gjörði veðr hvasst ok hagstœtt. Gekk þá skipit mikit. Þá kvað Egill:

Þel höggr stórt fyrir stáli
stafnkvígs á veg jafnan
út með ela meitli
andærr jötunn vandar.
En svalbúinn selju
sverfr eirar-vanr þeirri
Gestils álpt óðr gustum
gandr yfir stál ok brandi.

Þeim Agli fórst vel ok komu af hafi í Borgarfjörð. Hèlt hann skipi sínu þar til hafnar, ok báru föt sín á land. Fór þá Egill heim til Borgar, en skiparar hans vistuðust. Skallagrímr gjörðist þá gamall ok hrumr af elli. Tók Egill þá við fjárforráðum ok bús-varðveizlu.

## 61. Kapítuli.

### Andlát Skallagríms.

Þorgeirr hèt maðr. Hann átti Þórdísi Yngvarsdóttur, systur Beru, móður Egils. Þorgeirr bjó á Álptanesi á Lambastöðum. Hann hafði komit út með Yngvari. Hann var auðigr ok virðr vel af mönnum. Sonr þeirra Þorgeirs var Þórðr, er bjó á Lambastöðum eptir föður sinn í þenna tíma, er Egill kom til Íslands. Þat var þá um haustit nökkuru fyrir vetr, at Þórðr reið inn til Borgar, at hitta Egil frænda sinn, ok bauð honum heim til veizlu. Hafði hann látit heita munngát út þar. Egill hèt ferðinni, ok var kveðit á vikustef nökkut, ok er svá var liðit, bjóst Egill til ferðar ok með honum Ásgerðr kona hans. Váru þau saman tíu eða tólf. En er Egill var búinn, þá gekk Skallagrímr út með honum, ok hvarf til hans, áðr Egill steig á bak, ok mælti: „seint þykkir mèr

þú, Egill! hafa greitt fè þat, er Aðalsteinn konungr sendi mèr, eða hvernig ætlar þú at fara skuli fè þat"? Egill svarar: „er þèr nú fèfátt mjök, faðir? Ek vissa þat eigi. Þegar skal ek láta þik hafa silfr, er ek veit, er þú þarft; en ek veit, at þú munt enn hafa at varðveita eina kistu eða tvær, fullar af silfri". „Svá þykkir mèr", segir Grímr, „sem þú munir þykkjast skipt hafa lausafè með okkr. Muntu nú láta þèr vel hugna, at ek gjöra slíkt, er mèr líkar, af því, er ek varðveiti". Egill svarar: „þú munt engis lofs þykkjast þurfa at biðja mik um þetta, þvíat þú munt ráða vilja, hvat sem ek mæli". Síðan reið Egill í brott, þar til er hann kom á Lambastaði. Var þar tekit við honum vel ok feginsamliga. Skyldi hann þar sitja þrjár nætr. Þat sama kveld, er Egill hafði heiman farit, lèt Skallagrímr söðla sèr hest. Reið hann þá heiman, er aðrir menn fóru at sofa. Hann reiddi í knjám sèr kistu vel mikla, en hann hafði í handarkrika sèr eirketil, er hann fór í brott. Hafa menn þat síðan fyrir satt, at hann hafi látit fara annathvárt eða bæði í Krums-keldu, ok látit þar fara á ofan hellustein mikinn. Skallagrímr kom heim um miðnættis-skeið, ok gekk þá til rúms síns, ok lagðist niðr í klæðum sínum. En um morgininn, er lýsti ok menn klæddust, þá sat Skallagrímr fram á stokk, ok var þá andaðr, ok svá stirðr, at menn fengu hvártki rètt hann nè hafit, ok var þó alls við leitat. Þá var hesti skotit undir einn mann. Hleypti sá sem ákafligast, til þess er hann kom á Lambastaði. Gekk hann þegar á fund Egils ok segir honum þessi tíðindi. Þá tók Egill vápn sín ok klæði, ok reið heim til Borgar um kveldit. Ok þegar hann hafði af baki stigit, gekk hann inn ok í skot, er var um eldahúsit, en dyrr váru fram ór skotinu at setum innanverðum.

Egill gekk fram í setit, ok tók í herðar Skallagrími, ok kneikti hann aptr á bak, ok lagði hann niðr í setit, ok veitti honum þá nábjargir. Þá bað Egill taka graftól ok brjóta vegginn fyrir sunnan. En er þat var gjört, þá tók Egill undir höfðahlut Skallagrími, en aðrir tóku fótahlutinn. Báru þeir hann um þvert húsit ok svá út í gegnum vegginn, þar er áðr var brotinn. Báru þeir hann þá í hríðinni ofan í Nausta-nes. Var þar tjaldat yfir um nóttina; en um morgininn at flóði var Skallagrímr lagðr í skip, ok róit með hann út til Digraness. Lèt Egill þar gjöra haug á framanverðu nesinu. Var þar í lagðr Skallagrímr, ok hestr hans ok vápn hans ok smíðartól. Ekki er þess getit, at lausafè væri lagt í haug hjá honum. Egill tók þar við arfi, löndum ok lausum aurum. Rèð hann þá fyrir búi. Þar var með Agli Þórdís, dóttir Þórólfs ok Ásgerðar.

## 62. Kapituli.

### Ferð Egils til Englands.

Eiríkr konungr rèð einn vetr fyrir Noregi eptir andlát föður síns Haralds konungs, áðr Hákon Aðalsteinsfóstri, annarr son Haralds konungs, kom til Noregs vestan af Englandi, ok þat sama sumar fór Egill Skallagrímsson til Íslands. Hákon fór norðr til Þrándheims. Var hann þar til konungs tekinn. Váru þeir Eiríkr um vetrinn báðir konungar í Noregi, en eptir um várit dró hvárrtveggi her saman. Varð Hákon miklu fjölmennri, ok olli þat því, at hann setti þau lög í landi, at hverr maðr skyldi eignast óðul sín, þar er áðr hafði Haraldr konungr hvern mann áþjáð, bæði ríka ok úríka. Sá Eiríkr þá engan sinn kost annan, en flýja land. Fór hann þá á brott með Gunnhildi konu sína ok börn þeirra. Arinbjörn hersir var fóstbróðir Eiríks konungs ok barnfóstri

hans. Hann var kærstr konungi af öllum lendum mönnum. Hafði konungr sett hann höfðingja yfir allt Firðafylki. Arinbjörn var ór landi með konungi; fóru fyrst vestr um haf til Orkneyja. Þá gipti hann Ragnhildi dóttur sína Arnfinni jarli. Síðan fór hann með liði sínu suðr fyrir Skotland, ok herjaði þar. Þaðan fór hann suðr til Englands, ok herjaði þar. Ok er Aðalsteinn konungr spurði þat, safnaði hann liði ok fór í mót Eiríki. En er þeir hittust, váru borin sáttmál milli þeirra, ok var þat at sættum, at Aðalsteinn konungr fèkk Eiríki til forráða Norðymbraland; en hann skyldi vera landvarnarmaður Aðalsteins konungs fyrir Skotum ok Írum. Aðalsteinn konungr hafði skattgilt undir sik Skotland eptir fall Ólafs konungs, en þó var þat fólk jafnan útrútt honum. Svá er sagt, at Gunnhildr lèt seið efla, ok lèt þat seiða, at Egill Skallagrímsson skyldi aldri ró bíða á Íslandi, fyrr en hón sæi hann. En þat sumar, er þeir Hákon ok Eiríkr höfðu hitzt ok deilt um Noreg, þá var farbann til allra landa ór Noregi, ok komu þat sumar engi skip til Íslands ok engi tíðindi ór Noregi. Egill Skallagrímsson sat at búi sínu. En þann vetr annan, er hann bjó at Borg eptir andlát Skallagríms, þá gjörðist Egill úkátr, ok var því meira bragð at, er meir leið á vetrinn. Ok er sumar kom, þá lýsti Egill yfir því, at hann ætlar at búa skip sitt til brottfarar um sumarit. Tók hann þá háseta. Hann ætlar þá at sigla til Englands. Þeir váru á skipi þrír tigir manna. Ásgerðr var þá eptir, ok gætti bús þeirra. En Egill ætlaði þá at fara á fund Aðalsteins konungs ok vitja heita þeirra, er hann hafði heitit Agli at skilnaði þeirra. Egill varð ekki snemmbúinn, ok er hann lèt í haf, þá byrjaði heldr seint. Tók þá at hausta ok stœrði veðrin. Sigldu þeir fyrir norðan Orkneyjar. Vildi

Egill ekki þar við koma, þvíat hann hugði, at ríki Eiríks konungs mundi allt yfir standa í eyjunum. Sigldu þeir þá suðr fyrir Skotland, ok höfðu storm mikinn ok veðr þvert. Fengu þeir beitt fyrir Skotland ok svá norðan fyrir England; en aptan dags, er myrkva tók, var veðr hvasst. Finna þeir eigi, fyrr en grunnföll váru á útborða ok svá fram fyrir. Var þá engi annarr til, en stefna á land upp; ok svá gjörðu þeir. Sigldu þá til brots, ok komu at landi við Humru-mynni. Þar hèldust menn allir ok mestr hluti fjár, annat en skip; þat brotnaði í spán. En er þeir hittu menn at máli, spurðu þeir þau tíðindi, er Agli þóttu góð, at Aðalsteinn konungr var heill ok ríki hans; en þau váru önnur, er Agli þótti háskasamlig, at Eiríkr konungr blóðöx var þar fyrir ok Gunnhildr, ok þau höfðu þar ríki til forráða, ok hann var skammt þaðan uppi í borginni Jórvík. Þat spurði hann ok, at Arinbjörn hersir var þar með konungi, ok í miklum kærleik við konunginn. Ok er Egill var víss orðinn þessarra tíðinda, þá gjörði hann ráð sitt. Þótti honum sèr úvænt til undankvámu, þótt hann freistaði þess, at leynast ok fara huldu höfði leið svá langa, sem vera mundi, äðr hann kæmi ór ríki Eiríks konungs. Var hann þá auðkenndr þeim, er hann sæi. Þótti honum þat lítilmannligt, at vera tekinn í flótta þeim. Herði hann þá huginn ok rèð þat af, at þegar um nóttina, er þeir höfðu þar komit, þá fær hann sèr hest ok ríðr til borgarinnar. Kom hann þar at kveldi dags, ok reið hann þegar í borgina. Hann hafði síðan hatt yfir hjálmi, ok alvæpni hafði hann. Egill spurði, hvar garðr sá væri í borginni, er Arinbjörn átti. Honum var þat sagt. Hann reið þangat í garðinn. En er hann kom at stufunni, steig hann af hesti sínum ok hitti mann at máli. Var honum sagt, at Arinbjörn sat yfir

matborði. Egill mælti: „ek vilda, góðr drengr! at þú gengir inn í stufuna ok spyrðir Arinbjörn, hvárt hann vill heldr úti eða inni tala við Egil Skallagrímsson“. Maðrinn segir: „þat er mèr lítit starf, at reka þetta erendi“. Hann gekk inn í stufuna ok mælti stundarhátt: „maðr er hèr kominn úti fyrir durum“, segir hann, „mikill sem tröll, en sá bað mik ganga inn, ok spyrja, hvárt þú vildir úti eða inni tala við Egil Skallagrímsson“. Arinbjörn sagði: „gakk ok bið hann bíða úti, ok mun hann eigi lengi þurfa“. Hann gjörði, sem Arinbjörn mælti, gekk út ok sagði, sem mælt var við hann. Arinbjörn bað taka upp borðin. Síðan gekk hann út, ok allir húskarlar hans með honum. Ok er Arinbjörn hitti Egil, heilsaði hann honum vel ok spurði, hví hann var þar kominn. Egill segir í fám orðum hit ljósasta af um ferð sína, „en nú skaltu fyrir sjá, hvert ráð ek skal taka, ef þú vill nökkut lið veita mèr“. „Hefir þú nökkura menn hitt í borginni“, segir Arinbjörn, „þá er þik muni kennt hafa, áðr þú komt higat í garðinn? „Enga“, segir Egill. „Taki menn þá vápn sín“, segir Arinbjörn. Þeir gjörðu svá. En er allir menn váru vápnaðir, þá gengu þeir í konungsgarð. Ok er þeir komu til hallar, þá klappaði Arinbjörn á durum ok bað upp láta, ok segir, hverr þar var. Dyrverðir lètu þegar upp hurðina. Konungr sat þá yfir borðum. Arinbjörn bað þá ganga inn tólf menn; nefndi til þess Egil ok tíu menn aðra. „Nú skaltu, Egill! fœra konungi höfuð þitt ok taka um fót honum, en ek mun túlka mál þitt“. Síðan ganga þeir inn. Gekk Arinbjörn fyrir konung ok kvaddi hann. Konungr fagnaði honum, ok spurði, hvat hann vildi. Arinbjörn mælti: „ek fylgi hingat manni þeim, er kominn er um langan veg, at sœkja yðr heim ok sættast við yðr. Er yðr þat vegr,

mikill, herra! er úvinir yðrir fara sjálfviljandi af öðrum löndum, ok þykkjast eigi mega bera reiði yðra, þó at þèr sèt hvergi nær. Láttu þèr nú verða höfðingliga við þenna mann. Lát hann fá af þèr góða sætt fyrir þat, er hann hefir gjört þinn veg svá mikinn, sem nú má sjá, farit yfir mörg höf ok torleiði heiman frá búum sínum. Bar honum enga nauðsyn til þessar farar, nema góðvili við þik, konungr! þvíat vel mátti hann gæta sín á Íslandi fyrir reiði þinni". Þá litaðist konungr um, ok sá hann fyrir ofan höfuð mönnum, hvar Egill stóð. Konungr kenndi hann skjótt, ok hvessti augun á hann, ok mælti: „hví vartu svá djarfr, Egill! at þú þorðir at fara á fund minn? Leystist þú svá hèðan næstum, at þèr var engi ván lífs af mèr". Þá gekk Egill at borðinu ok tók um fót konungi. Hann kvað þá:

Kominn em ek á jó ifa
angrbeittan veg langan
öldu, enskrar foldar
atsitjanda at vitja.
Nú hefir sískelfir sjálfan
svárþátt Haralds áttar
við ofrhuga yfrinn
undarbliks of fundinn.

Eiríkr konungr segir: „ekki þarf ek at telja upp sakir á hendr þèr, þvíat þær eru svá margar ok stórar, at ein hver má vel endast til þess, at þú komir aldri hèðan lífs. Áttu engis annars af ván, en þú munt hèr deyja skulu. Máttir þú þat vita áðr, at þú mundir enga sætt af mèr fá". Gunnhildr mælti: „hví skal eigi þegar drepa Egil, eða mantu eigi nú, konungr! hvat Egill hefir til þín gjört, drepit vini þína ok frændr, ok þar á ofan son þinn, en nítt sjálfan þik; eðr hvar viti

# 74. Kapítuli.

## Vermalandsferð.

Egill bjóst til ferðar ok þrír menn aðrir, hans förunautar. Höfðu þeir hesta ok sleða, svá sem konungsmenn. Þá váru snjóvar miklir ok breyttir vegir allir. Ráða þeir til ferðar, er þeir váru búnir, ok óku upp á land. Ok er þeir sóttu austr til Eiða, þá var þat á einni nótt, at fèll nýsnævi mikit, svá at úgjörla sá veguna. Fórst þeim þá seint um daginn eptir, þvíat kafhlaup var, þegar af fór veginum. Ok er á leið daginn, dvöldust þeir, ok áðu hestum sínum. Þar var nær skógarháls einn. Þá mæltu þeir til Egils: „nú skiljast hèr vegar, en hèr fram undir hálsinum býr bóndi sá, er heitir Arnaldr, vinr várr. Munu vèr, förunautar, fara þangat til gistingar, en þèr skulut fara hèr upp á hálsinn, ok þá er þèr komit þar yfir, þá mun brátt verða fyrir yðr bœr mikill, ok er yðr þar vís gisting. Þar býr stórauðigr maðr, er heitir Ármóðr skegg. En á morgin árdegis skulu vèr hittast, ok fara annat kveld til Eiðaskógs. Þar býr góðr bóndi, er Þorfinnr heitir". Síðan skiljast þeir. Fara þeir Egill upp á hálsinn. En frá konungsmönnum er þat at segja, at þegar er sýn fal í milli þeirra Egils, þá tóku þeir skíð sín, er þeir höfðu haft, ok stigu þar á; lètu síðan ganga aptr á leið, sem þeir máttu. Fóru þeir nótt ok dag, ok snèru til Upplanda ok þaðan norðr um Dofrafjall, ok lèttu eigi, fyrr en þeir komu á fund Hákonar konungs, ok sögðu um sína ferð, sem farit hafði. Egill ok förunautar hans fóru um kveldit yfir hálsinn. Er þat skjótast þar af at segja, þegar þeir fóru upp á hálsinn af þjóðveginum, at þar var snjór furðumikill ok kleifar brattar ok skógar-kjörr. Lágu hestarnir annat skeið á kafi í snjónum, svá draga varð upp, en um kleifar ok hamra var

þeim all-torfœrt. Þeim varð mikill farartálmi at hestunum, en mannfœrðin var hin þyngsta, ok mœddust þeir þá mjök, en þó komust þeir af hálsinum, ok sá þá fyrir sèr bœ mikinn, ok sóttu þangat til. Ok er þeir komu í túnit, þá sá þeir, at þar stóðu menn úti, Ármóðr ok sveinar hans. Köstuðust þeir orðum á ok spurðust tíðinda. Ok er Ármóðr vissi, at þeir váru sendimenn konungs, þá bauð hann þeim þar gisting. Þeir þekktust þat. Tóku húskarlar Ármóðar við hestum þeirra ok reiða, en bóndi bað Egil ganga inn í stufu, ok þeir gjörðu svá. Ármóðr setti Egil í öndvegi á hinn úœðra bekk, ok þar förunauta hans utar frá. Þeir rœddu margt um, hversu erfilliga þeir höfðu farit um kveldit, en heimamönnum þótti mikit undr, er þeir höfðu fram komizt, ok sögðu, at þar væri engum manni fœrt, þó at snjólaust væri. Þá mælti Ármóðr: „þykkir yðr eigi sá beini beztr, at yðr sè borð sett ok gefinn náttverðr, en síðan fari þèr at sofa? Munu þèr þá hvílast bezt“. „Þat líkar oss allvel“, segir Egill. Ármóðr lèt þá setja þeim borð, en síðan váru settir fram stórir askar, fullir af skyri. Þá lèt Ármóðr, at honum þœtti þat illa, er hann hafði ekki munngát at gefa þeim. Þeir Egill váru mjök þyrstir af mœði. Tóku þeir upp askana ok drukku ákaft skyrit, ok þó Egill miklu mest. Engi kom önnur vistin fram. Þar var margt hjóna. Húsfreyja sat á þverpalli ok þar konur hjá henni. Dóttir bónda rann á gólfinu, tíu vetra eða ellifu. Húsfreyja kallaði hana til sín ok mælti í eyra henni. Síðan fór mærin utar fyrir borðit, þar er Egill sat. Hón kvað:

Því sendi mín móðir
mik við þik til fundar,
ok orð bera Agli,

at þèr varir skyldit.
Hildr mælti þat horna:
„haga þú svá maga,
eigu órir gestir
œðri nest á frestum“.

Ármóðr laust meyna, ok bað hana þegja: „mælir þú þat jafnan, er verst gegnir“. Mærin gekk á brott; en Egill skaut niðr skyraskinum, ok var þá nær tómr. Váru þá ok brott teknir askarnir frá þeim. Gengu þá ok heimamenn í sæti sín, ok váru borð upp tekin um alla stufuna ok sett á vist. Því næst komu inn sendingar, ok váru þá settar fyrir Egil, sem fyrir aðra menn. Því næst var öl inn borit, ok var þat hit sterkasta munngát. Var þá brátt drukkinn einmenningr. Skyldi einn maðr drekka af dýrs-horni. Var þar mestr gaumr at gefinn, er Egill var ok sveitungar hans, at þeir drykki sem ákafast. Egill drakk úsleitiliga fyrst langa hríð, en er förunautar hans gjörðust úfœrir, þá drakk hann fyrir þá, þat er þeir máttu eigi. Gekk svá, til þess er borð fóru brott. Gjörðust þá ok allir mjök drukknir, þeir er inni váru. En hvert full, er Ármóðr drakk, þá mælti hann: „drekk ek til þín, Egill“. En húskarlar drukku til förunauta Egils ok höfðu hinn sama formála. Maðr var til þess fenginn, at bera þeim Agli hvert full, ok eggjaði sá mjök, at þeir skyldi skjótt drekka. Egill mælti við förunauta sína, at þeir skyldi þá ekki drekka, en hann drakk fyrir þá, þat er þeir máttu eigi undan komast. Egill fann þá, at honum mundi eigi svá búit eira. Stóð hann þá upp, ok gekk um gólf þvert þangat til, er Ármóðr sat. Hann tók höndum í axlir honum ok kneikti hann upp at stöfum. Síðan þeysti Egill upp ór sèr spýju mikla, ok gaus í andlit Ármóði, í augun ok nasarnar ok munninn, ok rann

svá ofan á bringuna, en Ármóði var við andhlaupi; ok er hann fèkk öndunni frá sèr hrundit, þá gaus upp spýja. En allir mæltu, þeir er hjá váru, húskarlar Ármóðar, at Egill skyldi fara allra manna armastr, ok hann væri hinn versti maðr af þessu verki, at hann skyldi eigi ganga út, er hann vildi spýja, en verða eigi at undrum inni í drykkjustufunni. Egill segir: „ekki er at hallmæla mèr um þetta, þótt ek gjöra sem bóndi gjörir. Spýr hann af öllu afli, eigi síðr en ek". Síðan gekk Egill til rúms síns, ok settist niðr ok bað þá gefa sèr at drekka. Þá kvað Egill við raust:

Títt erumk verð at vátta;
vætti berr, at ek hætta,
þung, til þessar göngu,
þín kinna-lá, minnar.
Margr velr gestr, þar er gistir,
gjald (finnumst vit sjaldan).
Ármóði liggr œðra
öldra-dregg í skeggi.

Ármóðr hljóp upp ok út, en Egill bað gefa sèr drekka. Þá mælti húsfreyja við þann mann, er þeim hafði skenkt um kveldit, at hann skyldi gefa drykk, svá at þá skyrti eigi, meðan þeir vildi drekka. Síðan tók hann dýrs-horn mikit, ok fylldi, ok bar til Egils. Egill kneyfði af horninu í einum drykk. Þá kvað hann:

Drekkum ór, þó at Ekkils
eyk-ríðr beri tíðum
hornasund at hendi,
hvert full, bragar Ulli.
Leifi ek vætr, þó at laufa
leik-stœrir mèr fœri

hrosta-tjörn í horni,
horn, til dags at morni.

Egill drakk um hríð, ok kneyfði hvert horn, er at honum kom. Lítil var þá gleði í stufunni, þótt nökkurir menn drykki. Síðan stendr Egill upp ok förunautar hans, ok taka vápn sín af veggjum, er þeir höfðu upp fest; ganga síðan til kornhlöðu þeirrar, er hestar þeirra váru inni; lögðust þeir þar niðr í hálm ok sváfu um nóttina.

## 75. Kapituli.

Skilnaðr Egils ok Ármóðar.

Egill stóð upp um morgininn, þegar er dagaði. Bjuggust þeir förunautar, ok fóru, þegar er þeir váru búnir, aptr til bœjarins, ok leita Ármóðs. Ok er þeir komu til skemmubúrs þess, er Ármóðr svaf í ok kona hans ok dóttir, þá hratt Egill upp hurðunni, ok gekk til rekkjunnar Ármóðs. Hann brá þá sverði, en annarri hendi greip hann í skegg Ármóði ok hnykkti honum á stokk fram; en kona Ármóðar ok dóttir hljópu upp, ok báðu Egil, at hann dræpi eigi Ármóð. Egill segir, at hann skyldi þat gjöra fyrir þeirra sakir, „því at þat er makligt; en hefði hann verðleika til, at ek dræpa hann“. Þá kvað Egill:

Nýtr illhugaðr ýtir
arm-linns konu sinnar
(oss er við ógnar-hvessi
óttalaust) ok dóttur.
Þeygi muntu við þenna
þykkjast verðr fyrir drykkju
grepp (skulum á veg vappa
vítt) svá gjörvu hlíta.

Eptir þat sneið Egill af honum skeggit við hökuna. Síð-

an krœkti hann fingrinum í augat, svá at úti lá á kinninni. Eptir þat gekk Egill á brott til förunauta sinna. Fara þeir þá leið sína, komu at dagverðarmáli til bœjar Þorfinns. Hann bjó við Eiðaskóg. Þeir Egill kröfðu dagverðar ok æja hestum sínum. Þorfinnr bóndi lèt heimult skyldu þat. Ganga þeir Egill inn í stufu. Egill spurði, ef Þorfinnr hefði varr orðit við förunauta hans. „Höfðu vèr hèr mælt mót með oss“. Þorfinnr segir svá: „fóru hèr sex menn saman nökkuru fyrir dag, ok váru vápnaðir mjök“. Þá mælti húskarl Þorfinns: „ek ók í nótt eptir viði, ok fann ek sex menn á leið, ok váru þat húskarlar Ármóðs, ok var þat miklu fyrir dag. Nú veit ek eigi, hvárt þeir munu allir einir ok hinir sex, er þú sagðir frá“. Þorfinnr segir, at þeir menn, er hann hafði hitt, höfðu síðar farit, en húskarlinn kom heim með viðarhlassit. Ok er þeir Egill sátu ok mötuðust, þá sá Egill, at kona sjúk lá í þverpalli. Egill spurði Þorfinn, hver kona sú væri, er þar var svá þungliga haldin. Þorfinnr segir, at hón hèt Helga ok var dóttir hans. „Hefir hón haft langan vanmátt“, ok þat var kröm mikil. Fèkk hón enga nótt svefn, ok var sem hamstoli væri“. „Hefir nökkurs í verit leitat“, segir Egill, „um mein hennar“? Þorfinnr segir: „ristnar hafa verit rúnar, ok er sá einn bóndason hèðan skammt í brott, er þat gjörði, ok er síðan miklu verr en áðr. Eða kanntu, Egill! nökkut gjöra at slíkum meinum“? Egill segir: „vera kann, at ekki spillist við, þó at ek koma til“. Ok er Egill var mettr, gekk hann þar til, er konan lá, ok rœddi við hana. Hann bað þá hefja hana ór rúminu ok leggja undir hana hrein klæði, ok nú var svá gjört. Síðan rannsakaði hann rúmit, er hún hafði hvílt í, ok þar fann hann tálkn, ok váru þar á rúnar. Egill las þær, ok síðan telgdi hann af

rúnarnar ok skóf þat í eld niðr. Hann brenndi tálknit allt, ok lèt bera í vind klæði þau, er hón hafði haft áðr. Þá kvað Egill:

Skal-at maðr rúnar rísta,
nema ráða vel kunni.
Þat verðr mörgum manni,
at um myrkvan staf villist.
Sá ek á telgdu tálkni
tíu launstafi ristna.
Þat hefir lauka lindi
langs of trega fengit.

Egill reist rúnar ok lagði undir hœgindit í hvíluna, þar er hón hvíldi. Henni þótti, sem hón vaknaði ór svefni, ok sagði, at hón var þá heil, en þó var hón máttlítil. En faðir hennar ok móðir urðu stórum fegin. Bauð Þorfinnr, at Egill skyldi þar hafa allan þann forbeina, er hann þóttist þurfa.

## 76. Kapítuli.

### Egill kom til Álfs bónda.

Egill sagði förunautum sínum, at hann vill fara ferð sína ok bíða eigi lengr. Þorfinnr átti son, er Helgi hèt. Hann var vaskligr maðr. Þeir feðgar buðu Agli föruneyti sitt um skóginn. Sögðu þeir, at þeir vissi til sanns, at Ármóðr skegg hafði gjört menn sex á skóginn fyrir þá, ok þó líkara, at vera mundi fleiri sátirnar á skóginum, ef hin fyrsta slyppi. Váru þeir Þorfinnr fjórir saman, er til ferðar buðust. Þá kvað Egill vísu:

Veiztu, ef ek fer með fjóra,
fær-attu sex, þá er vexli
hlífa hneiti-knífum
hjaldr-goðs við mik roðnum.

En ef ek em með átta,
eru-t þeir tólf, er skelfi
at samtogi sverða
svartbrúnum mèr hjarta.

Þeir Þorfinnr rèðu þessu, at þeir fóru á skóginn með Agli, ok váru þeir þá átta saman. Ok er þeir komu þar, er sátin var fyrir, þá sá þeir þar menn. En þeir húskarlar Ármóðar, er þar sátu, sá, at þar fóru átta menn, ok þótti þeim sèr ekki fœri, til at ráða; leyndust þá í brott á skóginn. En er þeir Egill komu, þar sem njósnarmenn höfðu verit, þá sá þeir, at eigi var allt fritt. Þá mælti Egill, at þeir Þorfinnr skyldi aptr fara; en þeir buðu at fara lengra. Egill vildi þat eigi ok bað þá fara heim, ok þeir gjörðu svá ok hurfu aptr. En þeir Egill hèldu fram ferðinni, ok váru þá fjórir saman. Ok er á leið daginn, urðu þeir Egill varir við, at þar váru sex menn á skóginum, ok þóttust vita, at þar mundi vera húskarlar Ármóðar. Njósnarmenn hljópu upp ok rèðu at þeim, en þeir í mót, ok varð sá fundr þeirra, at Egill felldi tvá menn; en hinir, er eptir váru, hljópu þá í skóginn. Síðan fóru þeir Egill sína leið, ok gjörðist þá ekki til tíðinda, áðr þeir komu af skóginum, ok tóku gisting við skóginn at bónda þess, er Álfr hèt, ok var kallaðr Álfr hinn auðgi. Hann var maðr gamall ok auðigr at fè, maðr einrœnn, svá at hann mátti ekki hafa hjón með sèr, nema fáein. Góðar viðtökur hafði Egill þar, ok var Álfr við hann málreitinn. Spurði Egill margra tíðinda, en Álfr sagði slíkt, er hann spurði. Þeir rœddu flest um jarlinn ok um sendimenn Noregs-konungs, þá er fyrr höfðu farit austr þangat, at heimta skatt. Álfr var engi vinr jarls í rœðum sínum.

## 77. Kapituli.

### Egill heimti skatt.

Egill bjóst snemma um morgininn til farar ok þeir förunautar, en at skilnaði gaf Egill Álfi loðólpu. Álfr tók þakksamliga við gjöfinni, „ok má hèr gjöra mèr af loðkápu“, ok bað Egil þar koma til sín, er hann fœri aptr. Skildust þeir vinir, ok fór Egill ferðar sinnar, ok kom aptan dags til hirðar jarlsins Arnviðar, ok fèkk þar all-góðar viðtökur. Var þeim förunautum skipat næst öndvegismanni. Ok er þeir Egill höfðu þar verit um nótt, þá bera þeir upp erendi sín við jarlinn, ok orðsending konungs ór Noregi, ok segja, at hann vill hafa skatt þann allan af Vermalandi, sem áðr hefir eptir staðit, síðan Arnviðr var þar yfir settr. Jarlinn segir, at hann hefði af höndum greitt allan skatt, ok fengit í hendr sendimönnum konungs, „en eigi veit ek, hvat þeir hafa síðan við gjört, hvárt þeir hafa fengit konungi eða hafa þeir hlaupizt af landi á brott með; en með því at þèr berit sannar jarteiknir, at konungr hefir yðr sent, þá mun ek greiða skatt þann allan, sem hann á at rèttu, ok fá yðr í hönd; en eigi vil ek ábyrgjast síðan, hvernig yðr ferst með“. Dveljast þeir Egill þar um hríð. En áðr Egill fœri í brott, greiðir jarl þeim skattinn. Var þat sumt í silfri, sumt í grávöru. Ok er þeir Egill váru búnir, þá fóru þeir aptr á leið. Segir Egill jarli at skilnaði þeirra: „nú munu vèr fœra konungi skatt þenna, er vèr höfum við tekit; en þat skaltu vita, jarl, at þetta er fè miklu minna, en konungr þykkist hèr eiga, ok er þat þó ekki talit, er honum mun þykkja, at þèr eigit at gjalda aptr sendimenn hans manngjöldum, þá er menn kalla at þèr munut hafa drepa látit“. Jarl segir, at þat var eigi satt. Skildust þeir at þessu. Ok er Egill var á brottu, þá kallaði jarl

til sín brœðr tvá, er hvárrtveggja hèt Úlfr. Hann mælti svá: „Egill sjá hinn mikli, er hèr var um hríð, ætla ek at oss muni all-úþarfr, er hann kemr til konungs. Megum vèr af því marka, hvernig hann mun bera fyrir konung várt mál, er hann jós slíku í augu oss upp, aftöku konungsmanna. Nú skulu þit fara eptir þeim, ok drepa þá alla, ok láta þá ekki bera róg þetta fyrir konung. Þykkir mèr þat ráðligast, at þèr sætit þeim á Eiðaskógi. Hafit með yðr menn svá marga, at þat sè víst, at engi þeirra komist undan, en þèr fáit ekki mannspell af þeim“. Nú búast þeir brœðr til ferðar, ok höfðu þrjá tigi manna. Fóru þeir á skóginn, ok kunnu þeir þar hvern stig fyrir. Hèldu þeir þá njósn um ferð Egils. A skóginum váru tvennar leiðir. Var önnur at fara yfir ás nökkurn, ok var þar klif bratt ok einstigi yfir at fara. Var sú leiðin skemmri. En önnur var fyrir framan ásinn at fara, ok váru þar fen stór ok höggnar á lágir, ok var þar ok einstigi yfir at fara, ok sátu fimmtán í hvárum stað.

## 78. Kapituli.

Þeir Egill drápu hálfan þriðja tug manna.

Egill fór, til þess er hann kom til Álfs, ok var þar um nótt í góðum beinleika. Eptir um morgininn stóð hann upp fyrir dag; bjóst þá til ferðar. Ok er þeir sátu yfir dagverði, þá kom þar Álfr bóndi. Hann mælti: „snimma búizt þèr, Egill! en hitt mundi mitt ráð, at hrapa ekki ferðinni, sjást heldr fyrir, þvíat ek ætla, at menn muni settir fyrir yðr á skóginn. Ek hefi ekki menn at fá þèr til fylgdar, svá at þèr sè styrkr at, en þat vil ek bjóða, at þú dvelist hèr með mèr, þar til er ek kann þat at segja þèr, at fœrt mun um skóginn“. Egill segir: „þat mun ekki nema hègómi einn. Mun ek fara veg

minn, sem ek hefi áðr ætlat". Þeir Egill bjuggust til farar, en Álfr latti, ok bað hann aptr fara, ef hann yrði varr við, at vegrinn væri troðinn; sagði, at þar hefði engi maðr farit yfir skóginn austan, síðan er Egill fór austr, "nema þessir hafi farit, er mèr er ván at yðr vili finna". Egill mælti: „hvat ætlar þú, hversu margir þeir muni vera, ef svá er, sem þèr segit? Ekki eru vèr uppnæmir, þótt nökkurr sè liðsmunr". Hann segir: „ek var farinn fram til skógarins ok húskarlar mínir með mèr, ok komu vèr á manna-far, ok lá sú slóð fram á skóginn, ok mundu þeir hafa verit margir saman; en ef þú trúir eigi því, er ek segi þèr, þá far þangat ok sjá slóðina, en snú aptr, ef svá sýnist, sem ek segi þèr". Egill fór sína leið, ok er þeir komu á veginn, þann er á skóginn lá, þá sá þeir þar bæði manna-spor ok hrossa. Þá mæltu förunautar Egils, at þeir skyldi aptr hverfa. „Fara munu vèr", sagði Egill; „þykkir mèr þat ekki undarligt, þótt menn hafi farit um Eiðaskóg, þvíat þat er alþýðuleið". Síðan fara þeir, ok hèlzt ferillinn, ok var þá fjöldi spora. Ok er þeir koma þar, er leiðir skildi, þá skildi ok slóðina, ok var þá jafnmikil í hvárn stað, þá mælti Egill: „nú þykkir mèr vera mega, at Álfr hafi satt sagt. Skulu vèr nú búast um, svá sem oss sè ván, at fundr várr muni verða". Síðan kasta þeir Egill af sèr skikkjum ok öllum lausaklæðum; leggja þeir þat í sleða. Egill hafði haft í sleða sínum bastlínu mjök mikla, þvíat þat er siðr manna, er aka langar leiðir, at hafa með sèr lausataugir, ef at reiða þarf at gjöra. Egill tók hellustein mikinn ok lagði fyrir brjóst sèr ok kviðinn. Síðan rábendi hann þar at tauginni ok vafði henni sívafi, ok bjó svá allt upp um herðarnar. Skógr er á þann veg, at mörk er stór allt at byggðinni hvárritveggja, en

um miðjan skóginn er víða smáviði ok kjörr, en sumstaðar skóglaust með öllu. Þeir Egill snèru leiðina skemmri, er yfir hálsinn lá. Allir höfðu þeir skjöldu ok hjálma ok höggvápn ok lagvápn. Egill fór fyrir. Ok er þeir fóru at hálsinum, þá var þar undir niðri skógr, en skóglaust uppi á klifinu. En er þeir váru komnir upp í klifit, þá hljópu sjau menn ór skóginum ok upp í kleifina eptir þeim, ok skutu at þeim. Þeir Egill snèrust við, ok stóðu þeir jafnfram um þvera götuna. Þá komu aðrir menn ofan at þeim á hamarinn, ok grýttu þeir þaðan á þá, ok var þeim þat miklu hættara. Þá mælti Egill: „nú skulu þèr fara á hæli undan í kleifina, ok hlífast, sem þèr megut, en ek mun leita upp á bergit“. Þeir gjörðu svá. Ok er Egill kom upp ór klifinu, þá váru þar fyrir átta menn, ok gengu allir senn at honum ok sóttu hann. En ekki er at segja frá höggva-viðskiptum. Svá lauk, at hann felldi þá alla. Síðan gekk hann á bergit fram ok bar ofan grjót, ok stóð þar ekki við, lágu þar eptir þrír hinir vermsku, en fjórir komust í skóginn, ok váru þeir sárir ok barðir. Síðan tóku þeir Egill hesta sína ok fóru fram á leið, til þess er þeir komu yfir hálsinn. En þeir hinir vermsku, er undan höfðu komizt, gjörðu njósn fèlögum sínum, þeim er við fenin váru. Stefndu þeir þá fram hina neðri leiðina, ok svá fram fyrir þá Egil á veginn. Þá sagði Úlfr fèlögum sínum: „nú skulu vèr fara at ráðum við þá, stilla svá til, at þeir nái eigi at renna. Hèr er þannig til farit“, segir hann, „at leiðin liggr fram með hálsinum, en feninu víkr at upp, ok er þar hamarr fyrir ofan, en brautin liggr þar fram í milli, ok er eigi breiðari en götubreidd. Nú skulu sumir fara fram um hamarinn ok taka við þeim, ef þeir vilja fram, en sumir skulu leynast hèr í skóginum, ok hlaupa síðan á bak þeim, er

þeir koma fram um. Gætum svá til, at engi komist undan". Þeir gjörðu svá, sem Úlfr mælti. Fór Úlfr fram um bergit ok tíu menn með honum. Þeir Egill fóru sína leið, ok vissu ekki til þessar ráðagjörðar, fyrr en þeir komu í einstigit. Þá hljópu þar menn á bak þeim ok báru þegar vápn á þá. Þeir Egill snèrust í móti ok vörðust. Nú drífa ok menn at þeim, þeir er verit höfðu fyrir framan hamarinn. Ok er Egill sá þat, snèrist hann í mót þeim. Var þar skammt höggva í millum, ok felldi Egill þar suma í götunni, en sumir hurfu aptr, þar er jafnlendit var meira. Egill sótti þá eptir þeim. Þar fèll Úlfr. Ok at lyktum drap Egill þar einn ellifu menn. Síðan sótti hann þar til, er förunautar hans vörðu götuna fyrir átta mönnum. Váru þar hvárirtveggja sárir. Ok er Egill kom til, þá flýðu þegar hinir vermsku, en skógrinn var við sjálft. Komust þar undan fimm, ok allir sárir mjök, en þrír fèllu þar. Egill hafði mörg sár ok engi stór. Fóru þeir nú sína leið. Hann batt sár förunauta sinna, ok váru engi banvæn. Settust þeir þá í sleða, ok óku þat er eptir var dagsins. En þeir hinir vermsku, er undan komust, tóku hesta sína, ok drógust austr af skóginum til byggða. Váru þá bundin sár þeirra. Fá þeir sèr föruneyti, til þess er þeir komu á fund jarls, ok segja honum sínar úfarar. Þeir segja, at hvárrtveggi Úlfr er fallinn, ok dauðir váru hálfr þriði tugr manna, en fimm einir komust undan með lífi, ok þó þeir allir sárir ok barðir. Jarl spurði, hvat þá væri tíðinda um Egil ok hans förunauta. Þeir svöruðu: „úgjörla vissu vèr, hversu mjök þeir váru sárir, en œrit djarfliga sóttu þeir at oss, þá er vèr várum átta, en þeir fjórir; þá flýðum vèr. Komust fimm á skóginn, en þrír lètust, en eigi sám vèr annat, en þeir Egill væri þá spán-nýir".

Jarl sagði, at þeirra ferð var orðin hin versta. „Munda ek kunna því, at vèr hefðim mannalát mikit, ef þèr hefðit drepit þá Norðmennina; en nú, er þeir koma vestr af skóginum ok segja þessi tíðindi Noregs-konungi, þá eigu vèr af honum ván hinna mestu afarkosta.

## 79. Kapítuli.

### Egill kom til Þorfinns, ok af hernaði Hákonar konungs.

Egill fór, til þess er hann kom vestr af skóginum. Sóttu þeir til Þorfinns at kveldi ok fengu þar allgóðar viðtökur. Váru þá bundin sár þeirra Egils. Nökkurar nætr váru þeir þar. Helga dóttir bónda var þá á fótum ok heil meina sinna. Þakkaði hón ok öll þau Agli. Þeir hvíldu sik þar ok eyki sína. En maðr sá, er Helgu hafði rúnar ristit, var þaðan skammt á brott. Kom þat þá upp, at hann hefði beðit hennar, en Þorfinnr vildi eigi gipta hana. Þá vildi bóndason glepja hana, en hón vildi eigi. Þá þóttist hann rísta henni manrúnar, en hann kunni þat eigi, ok hafði hann þat ristit henni, er hón fèkk meinsemi af. Ok er Egill var til burtfarar búinn, þá fylgdi Þorfinnr honum ok þeir feðgar á götu. Váru þeir þá saman tíu eða tólf. Fóru þeir þá dag þann allan með þeim til varúðar fyrir Ármóði ok húskörlum hans. Ok er þessi tíðindi spurðust, at þeir Egill höfðu barizt við ofrefli liðs á skóginum ok sigrat, þá þótti Ármóði engi ván, at hann mundi mega reisa rönd við Agli. Sat Ármóðr því heima við alla sína menn. Þeir Egill ok Þorfinnr skiptust gjöfum við at skilnaði, ok mæltu til vináttu með sèr. Síðan fóru þeir Egill leið sína, ok er ekki sagt at til tíðinda yrði í ferð þeirra, áðr þeir komu til Þorsteins. Váru þá grædd sár þeirra. Dvöldust þeir

Egill þar til várs. En Þorsteinn fèkk sendimenn til Hákonar konungs, at fœra honum skatt þann, er Egill hafði sótt til Vermalands. Ok er þeir komu á konungs-fund, þá sögðu þeir honum tíðindi, þau er gjörzt höfðu í ferð þeirra Egils, ok fœrðu honum skattinn. Konungr þóttist þá vita, at þat mundi satt vera, er áðr hefði hann grunat um, at Arnviðr jarl mundi hafa látit drepa sendimenn hans tvenna, er hann hafði austr sent. Sagði konungr, at Þorsteinn skyldi þá hafa landsvist ok vera í sætt við hann. Fóru sendimenn síðan heimleiðis. Ok er þeir koma aptr til Þorsteins, þá segja þeir honum, at konungr lèt vel yfir þessi ferð, ok Þorsteinn skyldi þá vera í sætt ok vináttu við konung. Hákon konungr fór í Vík austr um sumarit; en þaðan gjörði hann ferð sína austr á Vermaland með mikit lið. Arnviðr jarl flýði undan, en konungr tók stór gjöld af bóndum þeim, er honum þótti í sökum við sik, svá sem sagt er af þeim, er skattinn sóttu. Setti hann þar yfir jarl annan, ok tók gislar af honum ok bóndum. Hákon konungr fór víða í þeirri ferð um Gautland hit vestra, ok lagði þat undir sik, svá sem sagt er í sögu hans ok finnst í kvæðum þeim, er um hann hafa ort verit. Þá er ok sagt, at hann fór til Danmerkr ok herjaði þar víða. Þá hrauð hann tólf skip af Dönum með tveimr skipum, ok þá gaf hann konungsnafn Tryggva Ólafssyni, bróðursyni sínum, ok vald yfir Víkinni austr. Egill bjó kaupskip sitt um sumarit, ok rèð þar til föruneyti. En langskip þat, er hann hafði haft um haustit ór Danmörku, gaf hann Þorsteini at skilnaði. Þorsteinn gaf Agli góðar gjafir, ok mæltu til mikillar vináttu sín í milli. Egill gjörði sendimenn til Þórðar á Aurland, mágs síns, ok fèkk honum umboð sitt, at skipa jarðir þær, er Egill átti í Sogni ok á Hörðalandi, ok bað

hann selja, ef kaupendr væri til. Ok er Egill var búinn ferðar sinnar, ok byr gaf, þá sigldu þeir út eptir Víkinni ok svá leið sína norðr fyrir Noreg, ok síðan í haf út. Byrjaði þeim til góðrar hlítar, komu af hafi í Borgarfjörð, ok hèlt Egill skipinu inn eptir firðinum ok til hafnar skammt frá bœ sínum. Hann lèt heim flytja varnað sinn, en ráða skipi til hlunns. Egill fór heim til bús síns. Urðu menn honum fegnir. Dvaldist Egill þar þann vetr.

## 80. Kapítuli.

### Dráp Þórðar Lambasonar.

Þá er þetta var tíðinda, at Egill var út kominn ór þessi ferð, þá var hèraðit albyggt. Váru þá andaðir allir landnámamenn, en synir þeirra lifðu eða sonasynir, ok bjuggu þeir þá í hèraði. Ketill gufa kom til Íslands, þá er land var mjök byggt. Hann var hinn fyrsta vetr at Gufuskálum á Rosmhvalanesi. Ketill hafði komit vestan um haf af Írlandi. Hann hafði með sèr þræla marga írska. Lönd váru öll byggð á Rosmhvalanesi í þann tíma. Rèðst Ketill því þaðan á brott ok inn á nes — er þar kallat á Gufunesi — ok fèkk þar engan ráðstafa. Þá fór hann í Borgarfjörð, ok sat þar hinn þriðja vetr, er síðan var kallat at Gufuskálum. Þar fellr á, er heitir Guf-á. Í hana setti Ketill upp skip sitt. Þórðr Lambason bjó þá á Lambastöðum. Hann var kvángaðr, ok átti son þann, er Lambi hèt. Hann var þá vaxinn mjök, mikill maðr ok sterkr at jöfnum aldri. En eptir um sumarit, er menn fóru til alþingis, reið Lambi til þings; en Ketill gufa var þá farinn í Breiðafjörð, at leita sèr um bústað. Þá hlaupa þrælar hans á brottu, ok koma fram um nótt á Lambastaði, ok báru þegar eld at húsum, ok brenndu þar Þórð inni ok öll hjú hans, en brutu upp búr

hans, ok báru út gripi ok vöru. Síðan ráku þeir heim hross ok klyfjuðu, ok fóru síðan út til Álptaness. Þann morgin um sólar-upprásar skeið kom Lambi heim, ok hafði hann sèt eldinn um nóttina. Þeir váru nökkurir menn saman. Hann reið þegar at leita þrælanna. Ríða þar menn af bœjum til móts við hann. Ok er þrælarnir sá eptirför, þá stefndu þeir undan, en lètu lausan ránsfeng sinn. Hljópu sumir á mýrar út, en sumir út með sjó, til þess at fjörðr var fyrir þeim. Þá sóttu þeir Lambi eptir þeim, ok drápu þar þann, er Kori hèt. Því heitir þar síðan Koranes; en Skorri ok Þormóðr ok Svartr gengu á kaf, ok svámu frá landi. Síðan leituðu þeir Lambi at skipum, ok rèru at leita þeirra, ok fundu þeir Skorra í Skorrey, ok drápu hann þar. Þá rèru þeir út til Þormóðs-skers, ok drápu þar Þormóð. Er við hann skerit kennt. Þeir hendu þrælana enn fleiri, þar sem síðan eru örnefni við kennd. Lambi bjó síðan á Lambastöðum, ok var gildr bóndi. Hann var rammr at afli. Engi var hann uppvöðslumaðr. Ketill gufa fór síðan vestr í Breiðafjörð, ok staðfestist í Þorskafirði. Við hann er kenndr Gufudalr ok Gufufjörðr. Hann átti Ýri, dóttur Geirmundar heljarskinns. Vali var son þeirra. Grímr hèt maðr, ok var Svertingsson. Hann bjó at Mosfelli fyrir neðan heiði. Hann var auðigr ok ætt-stórr. Rannveig var systir hans sammœðra, er átti Þóroddr goði í Ölvusi. Var þeirra son Skapti lög(sögu)maðr. Grímr var ok lögsögumaðr síðan. Hann bað Þórdísar Þórólfsdóttur, bróðurdóttur Egils ok stjúpdóttur. Egill unni Þórdísi engum mun minna en sínum börnum. Hón var hin fríðasta kona. En fyrir því, at Egill vissi, at Grímr var maðr göfugr ok sá ráðakostr var góðr, þá var þat at ráði gjört. Var Þórdís

gipt Grími. Leysti Egill þá af hendi föðurarf hennar. Fór hón til bús með Grími, ok bjuggu þau lengi at Mosfelli.

## 81. Kapítuli.

### Ólafr fèkk Þorgerðar.

Ólafr hèt maðr, son Höskulds Dalakollssonar, ok son Melkorku, dóttur Mýrkjartans Íra-konungs. Ólafr bjó í Hjarðarholti í Laxárdal, vestr í Breiðafjarðardölum. Ólafr var stórauðigr at fè. Hann var þeirra manna fríðastr sýnum, er þá váru á Íslandi; hann var skörungr mikill. Ólafr bað Þorgerðar, dóttur Egils. Þorgerðr var væn kona ok kvenna mest, vitr ok heldr skapstór, en hversdagliga kyrrlát. Egill kunni öll deili á Ólafi, ok vissi, at þat gjaforð var göfugt, ok fyrir því var Þorgerðr gipt Ólafi. Fór hón til bús með honum í Hjarðarholt. Þeirra börn váru þau Kjartan, Þorbergr, Halldórr, Steindórr, Þuríðr, Þorbjörg, Bergþóra. Hana átti Þórhallr goði Oddason. Þorbjörgu átti fyrr Ásgeirr Knattarson, en síðar Vermundr Þorgrímsson. Þuríði átti Guðmundr Sölmundarson. Váru þeirra synir Hallr ok Víga-Barði. Özurr Eyvindarson, bróðir Þórodds í Ölvusi, fèkk Beru, dóttur Egils. Böðvarr, son Egils, var þá frumvaxta. Hann var hinn efniligsti maðr, fríðr sýnum, mikill ok sterkr, svá sem verit hafði Egill eða Þórólfr á hans aldri. Egill unni honum mikit; var Böðvarr ok elskr at honum. Þat var eitt sumar, at skip var í Hvítá, ok var þar mikil kaupstefna. Hafði Egill þar keypt við margan, ok lèt flytja heim á skipi. Fóru húskarlar ok höfðu skip áttrœtt, er Egill átti. Þat var þá eitt sinn, at Böðvarr beiddist at fara með þeim, ok þeir veittu honum þat. Fór hann þá inn á Völlu með húskörlum. Þeir váru sex saman á áttæru skipi. Ok er þeir skyldu út fara, þá var flœðrin síð dags;

ok er þeir urðu hennar at bíða, þá fóru þeir um kveldit síð. Þá hljóp á útsynnings-steinóði, en þar gekk í móti útfalls-straumr. Gjörði þá stórt á firðinum, sem þar kann opt verða. Lauk þar svá, at skipit kafði undir þeim, ok týndust þeir allir, en eptir um daginn skaut upp líkunum. Kom lík Böðvars inn í Einarsnes, en sum komu fyrir sunnan fjörðinn, ok rak þangat skipit; fannst þat inn við Reykjarhamar. Þann dag spurði Egill þessi tíðindi, ok þegar reið hann at leita líkanna. Hann fann rètt lík Böðvars; tók hann þat upp ok setti í knè sêr, ok reið með út í Digranes til haugs Skallagríms. Hann lèt þá opna hauginn, ok lagði Böðvar þar niðr hjá Skallagrími. Var síðan aptr lokinn haugrinn, ok var eigi fyrr lokit en um dagsetrs-skeið. Eptir þat reið Egill heim til Borgar; ok er hann kom heim, þá gekk hann þegar til lokrekkju þeirrar, er hann var vanr at sofa í. Hann lagðist niðr ok skaut fyrir loku. Engi þorði at krefja hann máls. En svá er sagt, þá er þeir settu Böðvar niðr, at Egill var búinn: hosan var strengd fast at beini; hann hafði fustans-kyrtil rauðan, þröngan, upp lítinn, ok lást at síðu. En þat er sögn manna, at hann þrútnaði svá, at kyrtillinn rifnaði af honum ok svá hosurnar. En eptir um daginn lèt Egill ekki upp lokrekkjuna. Hann hafði þá ok engan mat nè drykk. Lá hann þar þann dag ok nóttina eptir. Engi maðr þorði at mæla við hann. En hinn þriðja morgin, þegar er lýsti, þá lèt Ásgerðr skjóta hesti undir mann — reið sá sem ákafligast vestr í Hjarðarholt —, ok lèt segja Þorgerði þessi tíðindi öll saman, ok var þat um nónskeið, er hann kom þar. Hann sagði ok þat með, at Ásgerðr hafði sent henni orð, at koma sem fyrst suðr til Borgar. Þorgerðr lèt þegar söðla sèr hest, ok fylgdu henni tveir menn. Riðu þau um kveldit ok

nóttina, til þess er þau komu til Borgar. Gekk Þorgerðr þegar inn í eldahús. Ásgerðr heilsaði henni ok spurði, hvárt þau hefði náttverð etit. Þorgerðr segir hátt: „engan hefi ek náttverð haft, ok engan mun ek fyrr en at Freyju. Kann ek mèr eigi betri ráð en faðir minn. Vil ek ekki lifa eptir föður minn ok bróður“. Hón gekk at lokhvílunni ok kallaði: „faðir! lúk upp hurðunni. Vil ek, at vit farim eina leið bæði“. Egill spretti frá lokunni. Gekk Þorgerðr upp í hvílugólfit, ok lèt loku fyrir hurðina; lagðist hón niðr í aðra rekkju, er þar var. Þá mælti Egill: „vel gjörðir þú dóttir, er þú vill fylgja feðr þínum. Mikla ást hefir þú sýnt við mik. Hver ván er, at ek muna lifa vilja við harm þenna“? Síðan þögðu þau um hríð. Þá mælti Egill: „hvat er nú, dóttir! tyggr þú nökkut“? „Tygg ek söl“, segir hón, „þvíat ek ætla, at mèr muni þá verra en áðr. Ætla ek ella, at ek muna of lengi lifa“. „Er þat illt manni“? segir Egill. „All-illt“, sagði hón; „villtu eta“? „Hvat man varða“? segir hann; en stundu síðar kallaði hón, ok bað gefa sèr drekka. Síðan var henni gefit vatn at drekka. Þá mælti Egill: „slíkt gjörir at, er sölin etr, þyrstir æ þess at meir“. „Villtu drekka, faðir“? sagði hón. Hann tók við ok svalg stórum, ok var þat í dýrshorni. Þá mælti Þorgerðr: „nú eru vit vèlt, þetta er mjólk“. Þá beit Egill skarð ór horninu, allt þat er tennr tóku, ok kastaði horninu síðan. Þá mælti Þorgerðr: „hvat skulu vit nú til ráðs taka? Lokit er nú þessi ætlan. Nú vilda ek, faðir! at vit lengdim líf okkart, svá at þú mættir yrkja erfikvæði eptir Böðvar, en ek mun rísta á kefli; en síðan deyju vit, ef okkr sýnist. Seint ætla ek Þorstein son þinn yrkja kvæði eptir Böðvar, en þat hlýðir eigi, at hann sè eigi erfðr, þvíat eigi ætla ek okkr sitja at drykkjunni

þeirri, at hann er erfðr". Egill segir, at þat var þá úvænt, at hann mundi þá yrkja mega, þótt hann leitaði við, „en freista má ek þess", sagði hann. Egill hafði þá átt son, er Gunnar hèt, ok hafði sá ok andazt litlu áðr. Síðan hóf Egill upp kvæðit, ok er þetta upphaf at:

## Sonar-torrek.

1.
Mjök erumk tregt
tungu at hrœra
eðr loptvægi
ljóðpundara.
Er-a nú vænligt
um Viðris þýfi,
nè hógdrœgt
ór hugar fylgsni.

2.
Er-a auðþeystr
(því at ekki veldr
höfugligr)
ór hyggjustað
þagna- fundr
Þriggja niðja,
ár-borinn
ór Jötunheimum.

3.
Lastalauss
er lifnaði
á Nökkvers
nökkva Bragi.
Jötuns háls
undir þjóta
náins niðr
fyrir naustdyrum.

4.
Þvíat ætt mín
á enda stendr,
sem hræbarnar
hlimar marka.
Er-a karskr maðr,
sá er köggla ber
frænda hrers
af fletjum niðr.

5.
Þó mun ek mitt
ok móður hrer
föðurfall
fyrst um telja.
Þat ber ek út
ór orðhofi
mœrðar-timbr,
máli laufgat.

6.
Grimmt varumk hlið,
þat er hrönn um braut
föður míns
á frændgarði.

Veit ek úfullt
ok opit standa
sonar skarð,
er mèr sjár um vann.

7.

Mjök hefir Rán
ryskt um mik;
em ek of snauðr
at ástvinum.
Sleit marr bönd
minnar ættar,
snaran þátt
af sjálfum mèr.

8.

Veiztu, ef um þá sök
sverði of rækak,
var ölsmið
allra tíma.
Roða vágs brœðr
ef um vega mættak,
fœrak andvígr
Œgis mani.

9.

En ek ekki
eiga þóttumst
sakar afl
við súðs bana,
þvíat alþjóð
fyrir augum verðr
gamals þegns
gengileysi.

10.

Mik hefir marr
miklu ræntan
(grimmt er fall
frænda at telja),
síðan er minn
á mun-vega
ættar skjöldr
af lífi hvarf.

11.

Veit ek þat sjálfr,
at í syni mínum
var ills þegns
efni vaxit,
ef sá randviðr
röskvast næði,
unz hergauts
hendr of tœki.

12.

Á leit flest,
þat er faðir mælti,
þótt öll þjóð
annat segði,
ok mèr upp hèlt
um verbergi,
ok mitt afl
mest um studdi.

13.

Opt kemr mèr
mana Bjarnar
í byrvind
brœðraleysi.

Hyggjumst um,
er Hildr þróast;
hnýsumst hins
ok hygg at því.

14.

Hverr mèr hugaðr.
á hlið standi
annarr þegn
við óðræði;
þarf ek þess opt,
of her gjörum.
Verð ek varfleygr,
er vinir þverra.

15.

Mjök er torfyndr,
sá er trúa knegum
of alþjóð
elgjar gálga.
(þvíat nifl-góðr
niðja-steypir
bróður hrer
við baugum selr.
Finn ek þat opt,
er fjár beiðir.)

16.

Þat er ok mælt
at engi geti
sonar iðgjöld,
nema sjálfr ali,
nè þann nið,
er öðrum sè
borinn maðr
í bróður stað.

17.

Erumk-a þokkt
þjóða sinni,
þótt sèrhverr
sáttum haldi.
Byrr er býskips
í bœ kominn,
kvánar son,
kynnis leita.

18.

En mèr fáns
í föstum þokk
hrosta hilmir
á hendi stendr;
mák-a ek upp
í úróar grímu
rýnis-reið
rèttri halda.

19.

Sízt son minn
sóttar brími
heiptuligr
ór heimi nam,
þann ek veit
at varnaði
vamma-varr
við námæli

20.

Þat man ek enn,
er upp um hóf

í goðheim
Gauta spjalli
ættar ask,
þann er óx af mèr,
ok kynvið
kvánar minnar

21.

Átta ek gott
við geira drottinn,
gjörðumst tryggr
at trúa honum,
áðr vinað
vagna runni,
sigrhöfundr,
um sleit við mik.

22.

Blótk-a ek af því
bróður Vilis,
goð jarðar,
at ek gjarn sjá;
þó hefir Mímsvinr
mèr of fengnar
bölva bœtr,
er hit betra telk.

23.

Gafumk íþrótt
úlfs of bagi
vígi vanr
vammi firrða,
ok þat geð,
er ek gjörða mèr
vísa fjandr
af vèlöndum.

24.

Nú er mèr torvelt,
Tveggja baga
njörvanipt
á nesi stendr.
Skal ek þó glaðr
með góðan vilja
ok úhryggr
Heljar bíða.

Egill tók at hressast, svá sem fram leið at yrkja kvæðit. Ok er lokit var kvæðinu, þá fœrði hann þat Ásgerði ok Þorgerði ok hjónum sínum. Reis hann þá upp ór rekkju ok settist í öndvegi. Kvæði þetta kallaði hann Sonartorrek. Síðan lèt Egill erfa sonu sína eptir fornri siðvenju. En er Þorgerðr fór heim, reifði Egill hana góðum gjöfum.

Egill bjó at Borg langa æfi ok varð maðr gamall, en ekki er getit, at hann ætti málaferli við menn hèr á landi. Ekki er ok sagt frá hólmgöngum hans eða vígaferlum, síðan er hann staðfestist hèr á Íslandi. Svá segja

menn, at Egill fœri ekki í brott af Íslandi, síðan er þetta var tíðinda, er nú var áðr frá sagt, ok bar þat mest til þess, at Egill mátti ekki vera í Noregi af þeim sökum, sem fyrr var frá sagt at konungar þóttust eiga við hann. Bú hafði hann rausnarsamligt, þvíat fè skorti eigi. Hann hafði ok gott skaplyndi til þess. Hákon konungr Aðalsteins-fóstri rèð fyrir Noregi langa stund; en hinn efra hlut æfi hans þá komu synir Eiríks til Noregs, ok deildu til ríkis í Noregi við Hákon konung, ok áttu þeir orrustur saman, ok hafði Hákon jafnan sigr. En síðustu orrustu áttu þeir á Hörðalandi í Storð á Fitjum. Þar fèkk Hákon konungr sigr ok þar með banasár. Eptir þat tóku þeir konungdóm í Noregi, Eiríkssynir. Arinbjörn hersir var með Haraldi Eiríkssyni ok gjörðist ráðgjafi hans, ok hafði af honum veizlur stórliga miklar. Var hann forstjóri fyrir liði ok landvörn. Arinbjörn var hermaðr mikill ok sigrsæll. Hann hafði at veizlum Firðafylki. Egill Skallagrímsson spurði þessi tíðindi, at konunga-skipti var orðit í Noregi, ok þat með, at Arinbjörn var þá kominn í Noreg til búa sinna, ok hann var þá í virðing mikilli. Þá orti Egill kvæði um Arinbjörn, ok er þetta upphaf at.

Arinbjarnar-drápa eðr brot af henni.

1.

Emk hraðkveðr
hilmi at mœra,
en glapmáll
um gleggvinga,
opinspjallr
um jöfurs dáðum,
en þagmælskr
um þjóðlygi.

2.

Skaupi gnœgðr
skrök-beröndum,
emk vilkviðr
um vini mína.
Sótt hefik mörg
mildinga sjöt
með grunlaust
grepps um œði.

3.
Hafða ek endr
Ynglings burar,
ríks konungs,
reiði fengna.
Dróg ek djarfhött
um dökkva skör;
lèt ek hersi
heim um sóttan.

4.
Þar er all-valdr
und ýgrs-hjálmi
ljóðframaðr
at landi sat.
Stýrir konungr
við stirðan hug
í Jórvík
úrgum hjörvi.

5.
Var-a þat tunglskin
tryggt at líta
nè ógnlaust
Eiríks brá,
þá er ormfránn
ennimáni
skein allvalds
œgi-geislum.

6.
Þó ek bólstr-verð
um bera þorða
maka hæings
markar drottni,
svá at Yggs-full
ýranda kom
at hvers manns
hlusta-munnum.

7.
Nè hamfagrt
höldum þótti
skáldfè mitt
at skata húsum,
þá er úlfgrátt
við Yggjar-miði
hatt-staup
at hilmi þá-k.

8.
Við því tók,
en tíru fylgdu
sökk svartleit
síðra brúna
ok sá muðr,
er mína bar
hefð fyrir
hilmis knè

9.
Þar er tannfjöld
með tungu þá-k,
sem hlertjöld,
hlustum göfguð;
en sú gjöf
gulli betri
hróðugs konungs
um heitin var.

10.
Þar stóð mèr,
mörgum betri
hodd-finnöndum,
á hlið aðra
tryggr vinr minn,
sá er trúa knátta-k,
heiþoraðr
hverju ráði

11.
Arinbjörn,
er oss einn um hóf,
knía fremstr,
frá konungs fjónum,
vinr þjóðans,
er vætki laug
í herskás
hilmis garði.

12.
Ok . . . . . .
. . . . stuðli
lèt margframaðr
minna dáða;
syni . . . . .
sonr Hálfdanar,
at í væri
ættar skari.

13.
Þat er úrètt,
ef orpit hefir
á máskeið
mörgu gagni,
ramriðin
Rökkva-stóði,
vell-vönuðr,
því er veitti mèr.

14.
Munk vinþjófr
verða heitinn,
ok váljúgr
at Viðris-fulli,
hróðrs örverðr
ok heit-rofi,
nema ek þess gagns
gjöld um vinnak.

15.
Nú er þat sèt,
hvar ek setja skal
bragar fótum
bratt-stiginn
fyrir mannfjöld,
margra sjónir,
hróðr mektugs
hersa kundar.

16.
Erumk auðskœf
ómun-lokri
magar Þóris
mœrðar efni,
vinar míns,
þau er valið liggja
tvenn ok þrenn
á tungu mèr.

17.

Þat tel ek fyrst,
er flestr um veit,
ok alþjóð
eyrum sœkir,
hvè mildgeðr
mönnum þótti
Bjóða-björn
birkis-ótta.

18.

Þat alls-heri
at undri gefst,
hvè hann urþjóð
auði gnœgir;
þvíat Grjótbjörn
of gœddan hefir
Freyr ok Njörðr
at fjár-afli.

19.

En Hróalds
at höfuðbaðmi
auðs iðgnótt
at álnum sifja(r),
sem vinreið
á vegum öllum
á vindkers
víðum botni.

20.

Hann dragseil
um eiga gat,
sem hildingr,
heyrnar spanna,
góðum ávarðr
með gumna fjöld
vinr vèþorins
veklinga týs.

21.

Þat hann viðr,
er þrjóta mun
flesta menn,
þótt fè eigi.
Kveðk-a ek skammt
milli skata húsa,
nè auðskept
almanna spjör.

22.

Gekk maðr engi
at Arinbjarnar
ór legvers
löngum knerri
háði leiddr,
nè heipt-kviðum,
með atgeirs
auðar tuptir.

23.

Hinn er fègrimmr,
er í Fjörðum býr,
sá er of dólgr
Draupnis niðja.
. . . . . . . . .

24.

Sökunautr
sona hvinna,

hringum hreytir
hodd-vegandi.

25.

Hann aldr-teig
um eiga gat,
fjöl-jáinn
friði spjöllum.

26.

Var ek árvakr,
bar ek orð saman
með málþjóns
morginverkum.
Hlóð ek lofköst,
þann er lengi stendr
úbrotgjarn
í bragar túni.

## 82. Kapítuli.

### Af Einari Helgasyni ok Agli.

Einarr hèt maðr. Hann var son Helga Óttarssonar, Bjarnarsonar hins austrœna, er nam lönd í Breiðafirði. Einarr var bróðir Úsvífrs hins spaka. Einarr var þegar á unga aldri mikill ok sterkr, ok hinn mesti atgjörvimaðr. Hann tók at yrkja, þegar er hann var ungr, ok var maðr námgjarn. Þat var eitt sumar á þingi, at Einarr gekk til búðar Egils Skallagrímssonar, ok tókust þeir at orðum, ok kom þar brátt talinu, at þeir rœddu um skáldskap. Þótti hvárumtveggja þær rœður skemmtilegar. Síðan vandist Einarr optliga, at ganga til tals við Egil. Gjörðist þar vinátta mikil. Einarr hafði litlu áðr komit út ór för. Egill spurði Einar mjök austan tíðinda ok at vinum sínum, svá ok at þeim, er hann þóttist vita at úvinir hans váru. Hann spurði ok mjök eptir stórmenni. Einarr spurði ok í mót Egil frá þeim tíðindum, er fyrr höfðu gjörzt um ferðir Egils, ok stórvirki hans, en þat tal þótti Agli gott, ok rœttist af vel. Einarr spurði Egil, hvar hann hefði þess verit staddr, at hann hefði mest reynt sik, ok bað hann þat segja sèr. Egill kvað:

Börðumst ek einn við átta,

en við ellifu tysvar;
(svá fengum verð vargi)
varð ek einn bani þeirra.
Skiptumst hart af heiptum
hlífar skelfi-knífum.
Lèt ek af emblu aski
eld valbasta kastat.

Þeir Egill ok Einarr mæltu til vináttu með sèr at skilnaði. Einarr var löngum utanlendis með tignum mönnum. Einarr var örr maðr ok optast fèlítill, en skörungr mikill ok drengr góðr. Hann var hirðmaðr Hákonar jarls Sigurðarsonar. Í þann tíma var í Noregi úfriðr mikill ok bardagar með þeim Hákoni jarli ok Eiríkssonum, ok stukku ýmsir ór landi. Haraldr konungr Eiríksson fèll suðr í Danmörku at Hálsi í Limafirði, ok var hann svikinn. Þá barðist hann við Harald Knútsson, er kallaðr var Gull-Haraldr, ok þá Hákon jarl. Þar fèll ok þá með Haraldi konungi Arinbjörn hersir, er fyrr var frá sagt. Ok er Egill spurði fall Arinbjarnar, þá kvað hann:

(Þverra nú þeir, er þverrðu
þing, birtingar, Ingva)
Hvar skal ek mildra manna,
mjaðveitar! (dag) leita,
þeirra er hauks fyrir handan
háfjöll dígul-snjávi
jarðargjörð með orðum
ey-neglda mèr hegldu?

Einarr Helgason skáld var kallaðr skálaglamm. Hann orti drápu um Hákon jarl, er kölluð er Vell-ekla, ok var þat mjök lengi, at jarlinn vildi ekki hlýða kvæðinu, þvíat hann var reiðr Einari. Þá kvað Einarr:

Gjörða ek [verka] um virða

vörð, þann er sitr at jörðu
(iðrumst þess), meðan aðrir
örváfaðar sváfu.
Hykk-at ek hodda stökkva
(hinnig sóttak gram) þóttu,
(fýsinn) frœknum vísa,
ferri skáldin verri.

Ok enn kvað hann:

Sœkjum jarl þann, er auka
úlfs-verð þorir sverðum.
skipum borðróinn barða
baugskjaldum Sigvalda.
Drepr eigi sá sveigir
sárlinns, er gram finnum,
(rönd berum út á andra
Endils) við mèr hendi.

Jarlinn vildi eigi, at Einarr fœri á brott, ok hlýddi þá kvæðinu, ok síðan gaf hann Einari skjöld, ok var hann hin mesta gersemi. Hann var skrifaðr fornsögum, en allt milli skriptanna váru lagðar yfir spengr af gulli, ok settr steinum. Einarr fór til Íslands ok til vistar með Úsvífi bróður sínum; en um haustit reið Einarr vestan, ok kom til Borgar, ok gisti þar. Egill var þá eigi heima, ok var hann farinn norðr til hèraða, ok var hans þá heim ván. Einarr beið hans þrjár nætr. En þat var engi siðr, at sitja lengr en þrjár nætr at kynni. Bjóst Einarr þá í brott. Ok er hann var búinn, þá gekk hann til rúms Egils, ok festi þar upp skjöldinn þann hinn dýra, ok sagði heimamönnum, at hann gaf Agli skjöldinn. Síðan reið Einarr í brott. En þann sama dag kom Egill heim. En er hann kom inn til rúms síns, þá sá hann skjöldinn ok spurði, hverr gersemi þá ætti. Honum var sagt, at Einarr

skálaglamm hefði þar komit, ok hann hafði gefit honum skjöldinn. Þá mælti Egill: „gefi hann allra manna armastr. Ætlar hann, at ek skula þar vaka yfir ok yrkja um skjöld hans. Nú taki hest minn. Skal ek ríða eptir honum ok drepa hann“. Honum var þá sagt, at Einarr hafði riðit snimma um morguninn. „Mun hann nú kominn vestr til Dala“. Síðan orti Egill drápu, ok er þetta upphaf at:

Mál er lofs at lýsa
ljós-garð of, þá er ek, barða
(mèr kom heim at hendi
hodd-sendis boð) enda.
Skulu-t grundar gilja
glaums misfengnir taumar
(hlýðit èr til orða)
erðgróins mèr verða.

Egill ok Einarr hèldu vináttu sinni, svá lengi (sem) þeir lifðu báðir. En svá er sagt at fœri skjöldrinn um síðir, at Egill hafði hann með sèr í brúðför, þá er hann fór norðr á Víðimýri með Þorkatli Gunnvaldssyni ok þeir Rauða-Bjarnarsynir, Trefill ok Helgi. Þá var spillt skildinum ok kastat í sýruker. En síðan lèt Egill taka af búnaðinn, ok váru tólf aurar gulls í spöngunum.

## 83. Kapítuli.

### Af Þorsteini Egilssyni.

Þorsteinn, son Egils, þá er hann óx upp, var hann allra manna fríðastr sýnum, hvítr á hár ok bjartr álitum. Hann var mikill ok sterkr, ok þó ekki eptir því, sem faðir hans var. Þorsteinn var vitr maðr ok kyrrlátr, hógværr, stilltr manna bezt. Egill unni honum lítit. Þorsteinn var ok ekki við hann ástúðligr, en þau Ásgerðr ok Þorsteinn unnust mikit. Egill tók þá at eldast mjök. Þat var eitt-

hvert sumar, er Þorsteinn reið til alþingis, en Egill sat þá heima. En áðr Þorsteinn fœri heiman, stilltu þau Ásgerðr svá um, at þau tóku ór kistu Egils silki-slœður Arinbjarnar-nauta, ok hafði Þorsteinn til þings. Ok er hann hafði á þinginu, þá váru honum dragsíðar, ok urðu saurgar neðan, þá er þeir váru í lögbergs-göngu. Ok er hann kom heim, þá hirði Ásgerðr slœðurnar, þar sem áðr váru. En mjök miklu síðar, þá er Egill lauk upp kistu sína, þá fann hann, at spillt var slœðunum, ok leitaði þá máls um við Ásgerði, hverju þat gegndi. Hón sagði þá hit sanna til. Þá kvað Egill:

Áttk-a ek erfi-nytja,
arfa mèr til þarfan.
Mik hefir sonr of svikit
(svik tel ek í því) kvikvan.
Vel mátti þess vatta
vigg-ríðandi bíða,
er hafskíða hlœði
hljótendr of mik grjóti.

Þorsteinn fèkk Jófríðar, dóttur Gunnars Hlífarsonar. Móðir hennar var Helga, dóttir Ólafs feilans, systir Þórðar gellis. Jófríði hafði átt fyrr Þóroddr, son Tungu-Odds. Litlu eptir þetta andaðist Ásgerðr. Eptir þat brá Egill búi, ok seldi í hendr Þorsteini, en Egill fór þá suðr til Mosfells, til Gríms mágs síns, þvíat hann unni mest Þórdísi stjúpdóttur sinni þeirra manna, er þá váru á lífi. Þat var eitt sumar, at skip kom út í Leiruvági, ok stýrði sá maðr, er Þormóðr hèt. Hann var norrœnn ok húskarl Þorsteins Þórusonar. Hann hafði með at fara skjöld, er Þorsteinn hafði sent Agli Skallagrímssyni, ok var þat ágætr gripr. Þormóðr fœrði Agli skjöldinn, en hann tók við þakksam-

liga. Eptir um vetrinn orti Egill drápu um skjaldargjöfina, er kölluð er Beru-drápa, ok er þetta upphaf at:

Heyri feyrs á forsa
fallhadds vinar stalla
(hyggi þegn til þagnar)
þinn liðr (konungs) minni.
Opt skal arnar kjapta
orð góð of tröð Horða
hrafnstýrandi Hræra
hregna mín of fregna.

Þorsteinn Egilsson bjó at Borg. Hann átti tvá laungetna sonu, Hriflu ok Hrafn. En síðan hann kvángaðist, áttu þau Jófríðr tíu börn. Helga hin fagra var þeirra dóttir, er þeir deildu um, Skáld-Hrafn ok Gunnlaugr ormstunga. Grímr var elztr sona þeirra, annarr Skúli, þriði Þorgeirr, fjórði Kollsveinn, fimmti Hjörleifr, sètti Halli, sjaundi Egill, áttandi Þórðr. Þóra hèt dóttir þeirra, er átti Þormóðr Kleppjárnsson. Frá börnum Þorsteins er komin kynslóð mikil ok margt stórmenni. Þat er kallat Mýra-mannakyn, allt þat er frá Skallagrími er komit.

## 84. Kapítuli.

Af Önundi sjóna ok Steinari syni hans.

Önundr sjóni bjó at Ánabrekku, þá er Egill bjó at Borg. Önundr sjóni átti Þorgerði, dóttur Þorbjarnar hins digra af Snæfells-strönd. Börn þeirra Önundar váru þau Steinarr ok Dalla, er átti Ögmundr Galtason. Þeirra synir Þorgils ok Kormakr. Ok er Önundr gjörðist gamall ok sýndr lítt, þá seldi hann af hendi bú. Tók þá við Steinarr, sonr hans. Þeir feðgar áttu auð fjár. Steinarr var allra manna mestr ok rammr at afli, ljótr maðr, bjúgr í vexti, fóthár ok miðskammr. Steinarr var ok uppvöðslu-

maðr mikill ok ákafamaðr, údæll ok harðfengr, hinn mesti kappsmaðr. Ok er Þorsteinn Egilsson bjó at Borg, þá gjörðist þegar fátt um með þeim Steinari. Fyrir sunnan Hafslœk liggr mýrr, er heitir Stakks-mýrr. Standa þar yfir vötn á vetrinn; en á várin, er ísa leysir, þá er þar útbeit svá góð nautum, at þat var kallat jafnt ok stakkr töðu. Hafslœkr rèð þar landamerkjum at fornu fari, en á várum gengu naut Steinars mjök á Stakks-mýri, er þau váru rekin utan at Hafslœk, en húskarlar Þorsteins vönduðu um. Steinarr gaf at því engan gaum, ok fór svá fram hit fyrsta sumar, at ekki varð til tíðinda. En annat vár þá hèlt Steinarr beitinni, en Þorsteinn lagði þá í umrœðu við hann, ok rœddi þó stilliliga. Bað hann Steinarr halda beit búfjár síns, svá sem at fornu hafði verit. Steinarr sagði, at fè mundi ganga, þar sem þat vildi. Hann rœddi um allt heldr festiliga, ok skiptust þeir Þorsteinn við nökkurum orðum. Síðan lèt Þorsteinn hnekkja nautunum út á Mýrar yfir Hafslœk. Ok er Steinarr varð þess varr, þá fèkk hann til Grana þræl sinn at, sitja at nautunum á Stakks-mýri, ok sat hann þar alla daga. Þetta var hinn efra hlut sumars. Beittust þá upp allar engjar fyrir sunnan Hafslæk. Nú var þat einn dag, at Þorsteinn hafði gengit upp á Borg at sjá um. Hann sá, hvar naut Steinars fóru. Hann gekk út á mýrar. Þat var síð dags. Hann sá, at nautin váru þá komin langt út í hóla-sundit. Þorsteinn rann út um mýrarnar. Ok er Grani sá þat, þá rak hann nautin úvægiliga, til þess er þau komu á stöðul. Þorsteinn kom þá eptir, ok hittust þeir Grani í garðshliðinu. Þorsteinn vá hann þar. Þat heitir Granahlið síðan. Þat er á túngarðinum. Þorsteinn hratt garðinum ofan á Grana, ok huldi svá hræ hans. Síðan fór Þorsteinn heim til Borgar, en konur þær, er til stöðuls

fóru, fundu Grana, þar er hann lá. Eptir þat fóru þær heim til húss, ok sögðu Steinari þessi tíðindi. Steinarr leiddi hann upp í holtunum, en síðan fèkk Steinarr til annan þræl at fylgja nautunum, ok er sá eigi nefndr. Þorsteinn lèt þá, sem hann vissi eigi um beit, þat sem eptir var sumarsins. Þat varð til tíðinda, at Steinarr fór hinn fyrra hlut vetrar út á Snæfells-strönd ok dvaldist þar um hríð. Steinarr sá þá þræl, er Þrándr hèt. Hann var allra manna mestr ok sterkastr. Steinarr falaði þræl þann, ok bauð við verð mikit; en sá, er átti þrælinn, mat hann fyrir þrjár merkr silfrs, ok mat hann hálfu dýrra en meðalþræl, ok var þat kaup þeirra. Hann hafði Þránd með sèr heim. Ok er þeir komu heim, þá rœðir Steinarr við Þránd: „nú er svá til farit, at ek vil hafa verknað af þèr. Er hèr skipat áðr til verka allra. Nú mun ek verk fyrir þik leggja, er þèr er lítit erfiði í. Þú skalt sitja at nautum mínum. Þykkir mèr þat miklu skipta, at þeim sè vel til haga haldit. Vil ek, at þú hafir þar engis manns hóf við nema þitt, hvar hagi er beztr á mýrum. Má ek eigi á manni sjá, ef þú hefir eigi til þess hug eða afl, at halda til fulls við einn hvern húskarl Þorsteins". Steinarr seldi í hendr Þrándi exi mikla, nær álnar fyrir munn, ok var hón hárhvöss. „Svá lízt mèr á þik, Þrándr"! segir Steinarr, „sem eigi sè sýnt, hversu mikils þú metr goðorð Þorsteins, ef þit sjáizt tveir á". Þrándr svarar: „engan vanda ætla ek mèr á við Þorstein, en skilja þykkjumst ek, hvert verk þú hefir fyrir mik lagt. Mantu þykkjast litlu til verja, þar sem ek em; en ek ætla mèr vera góðan kost, hvárr sem upp kemr, ef vit Þorsteinn skulum reyna með okkr". Síðan tók Þrándr nauta-gæzlu. Honum hafði þat skilizt, þótt hann hefði eigi lengi verit, hvert Steinarr hafði látit nautum sínum halda, ok sat Þrándr

at nautum á Stakks-mýri. Ok er Þorsteinn varð þess varr, þá sendi hann húskarl sinn til fundar við Þránd, ok bað segja honum landamerki með þeim Steinari. Ok er húskarl hitti Þránd, þá sagði hann honum erendi sín, ok bað hann halda nautunum annan veg; sagði, at þat var land Þorsteins Egilssonar, er nautin váru þá í komin. Þrándr segir: „þat hirði ek aldri, hvárr þeirra land á. Mun ek naut hafa þar, sem mèr þykkir hagi beztr“. Síðan skildust þeir. Fór húskarl heim, ok sagði Þorsteini svör þrælsins. Þorsteinn lèt þá kyrrt vera, en Þrándr tók þá at sitja at nautum nætr ok daga.

## 85. Kapituli.

### Dráp Þrándar.

Þorsteinn stóð upp einn morgin við sól, ok gekk upp á borg. Hann sá, hvar naut Steinars váru. Síðan gekk Þorsteinn út á mýrar, til þess er hann kom til nautanna. Þar stendr skógar-klettr við Hafslœk, en uppi á klettinum svaf Þrándr, ok hafði leyst af sèr skúa sína. Þorsteinn gekk upp á klettinn, hafði exi í hendi ekki mikla ok engi fleiri vápn. Þorsteinn stakk axarskaptinu á Þrándi ok bað hann vaka. Hann spratt upp skjótt ok hart, ok greip tveim höndum exina ok reiddi upp. Hann spurði, hvat Þorsteinn vildi. Hann sagði: „ek vil segja þèr, at ek á land þetta, en þèr eigut hagabeit fyrir utan lœkinn. Er þat eigi undarligt, þóttú vitir eigi landamerki hèr“. Þrándr segir: „engu þykkir mèr skipta, hverr land á. Mun ek þar láta naut vera, er þeim þykkir bezt“. „Hitt er líkligra“, segir Þorsteinn, „at ek muna nú ráða vilja fyrir landi mínu, en eigi þrælar Steinars“. Þrándr segir: „miklu ertu, Þorsteinn! úvitrari maðr, en ek hugða, ef þú vill eiga náttból undir exi minni, ok hætta til þess

virðingu þinni. Mèr sýnist, at ætla til, sem ek muna hafa tvau öfl þín, en mik skortir ekki hug. Ek em ok vápnaðr betr en þú". Þorsteinn mælti: „á þá hættu mun ek leggja, ef þú gjörir eigi at um beitina. Vænti ek, at mikit skili hamingju okkra, svá sem mála-efni eru újöfn". Þrándr segir: „nú skaltu sjá, Þorsteinn! hvárt ek hræðumst nökkut hót þín". Síðan settist Þrándr niðr ok batt skó sinn. En Þorsteinn reiddi upp exina hart, ok hjó á háls Þrándi, svá at höfuðit fèll á bringuna. Síðan bar Þorsteinn grjót at honum, ok huldi hræ hans; gekk síðan heim til Borgar. En þann dag komu seint heim naut Steinars. Ok er þrotin ván þótti þess, þá tók Steinarr hest sinn ok lagði á söðul. Hann hafði alvæpni sitt. Hann reið síðan til Borgar. Ok er hann kom þar, hitti hann menn at máli. Hann spurði, hvar Þorsteinn væri. Honum var sagt, at hann sat inni. Þá bað Steinarr, at Þorsteinn kæmi út; kvaðst eiga erendi við hann. Ok er Þorsteinn heyrði þetta, tók hann vápn sín ok gekk út í dyrr. Síðan spurði hann Steinar, hver erendi hans væri. „Hefir þú drepit Þránd þræl minn"? segir Steinarr. „Svá er víst", segir Þorsteinn; „þarftu þat ekki öðrum mönnum at ætla". „Þá sè ek", segir Steinarr, „at þú munt þykkjast harðhendliga verja land þitt, er þú hefir drepit þræla mína tvá; en mèr þykkir þat ekki svá mikit framaverk. Nú mun ek gjöra þèr á þessu miklu betra kost, ef þú vill með kappi verja landit þitt, ok skal ekki öðrum mönnum nú at hlíta, at reka nautin; en vita skaltu þat, at nautin skulu bæði dag ok nótt í þínu landi vera". „Svá er", segir Þorsteinn, „at ek drap fyrra sumar þræl þinn, þann er þú fèkkt til at beita nautunum í land mitt, en síðan lèt ek yðr hafa beit, sem þèr vildut allt til vetrar. Nú hefi ek drepit annan þræl þinn fyrir þèr. Gaf

ek þessum hina sömu sök, sem hinum fyrra. Nú skaltu hafa beit hèðan í frá í sumar, sem þú vill; en at sumri, ef þú beitir land mitt, ok fær menn til þess, at reka hingat fè þitt, þá mun ek enn drepa fyrir þèr einhvern mann, þann er fènu fylgir, svá þó at þú fylgir sjálfr. Mun ek svá gjöra á hverju sumri, meðan þú fylgir teknum hætti um beitina". Síðan reið Steinarr í brott ok heim til Brekku, ok litlu síðar reið Steinarr upp í Stafaholt. Þar bjó þá Einarr. Hann var goðorðsmaðr. Steinarr bað hann liðs, ok bauð honum fè til. Einarr segir: „þik mun litlu skipta um mína liðsemd, nema fleiri virðingamenn veiti at þessu máli". Eptir þat reið Steinarr upp í Reykjardal á fund Tungu-Odds, ok bað hann liðs ok bauð honum fè til. Oddr tók við fènu, ok hèt liðveizlu sinni, at hann skyldi efla Steinar, at koma fram lögum við Þorstein. Steinarr reið síðan heim. En um várit fóru þeir Oddr ok Einarr með Steinari stefnuför, ok höfðu fjölmenni mikit. Stefndi Steinarr Þorsteini um þræla-dráp, ok lèt varða fjörbaugs-garð um hvárt vígit, þvíat þat váru lög, er þrælar váru drepnir fyrir manni, enda væri eigi fœrð þrælsgjöldin fyrir hina þriðju sól; en jafnt skyldu metast tvær fjörbaugs-sakir ok ein skóggangs-sök. Þorsteinn stefndi engum sökum í mót. Ok litlu síðar sendi Þorsteinn menn suðr á nes. Komu þeir til Mosfells til Gríms, ok sögðu þar þessi tíðindi. Egill lèt sèr fátt um finnast, ok spurði þó at í hljóði um skipti þeirra Þorsteins ok Steinars, ok svá at þeim mönnum, er Steinar höfðu styrkt til þessa máls. Síðan fóru sendimenn heim, ok lèt Þorsteinn vel yfir þeirra ferð. Þorsteinn Egilsson fjölmennti mjök til várþings, ok kom þar nótt fyrr en aðrir menn, ok tjölduðu búðir sínar, ok þingmenn hans, er þar áttu búðir. Ok er þeir höfðu um búizt, þá lèt Þorsteinn

ganga til þingmannalið sitt, ok gjörðu þar búðarveggi mikla. Síðan lèt hann búð tjalda miklu meiri en aðrar búðir, þær er þar váru. Í þeirri búð váru engir menn. Steinarr reið til þings ok fjölmennti mjök. Þar rèð Tungu-Oddr fyrir liði, ok var all-fjölmennr. Einarr ór Stafaholti var ok fjölmennr. Tjölduðu þeir búðir sínar. Var þingit fjölmennt. Fluttu menn fram mál sín. Þorsteinn bauð engar sættir fyrir sik, en svaraði því þeim mönnum, er um sættir leituðu, at hann ætlaði at láta dóms bíða; sagði, at honum þóttu mál lítilsverð, þau er Steinarr fór með um dráp þræla hans, en taldi þræla Steinars hafa nógar sakir til gjört. Steinarr lèt stórliga yfir málum sínum. Þótti honum sakir lögligar, en liðsafli nógr at koma lögum fram. Var hann þar framgjarn um sín mál. Þann dag gengu menn í þingbrekku, ok mæltu menn málum sínum, en um kveldit skyldu dómar út fara til sóknar. Var Þorsteinn þar með flokk sinn. Hann rèð þar þingsköpum mest, þvíat svá hafði verit, meðan Egill fór með goðorð ok manna-forráð. Þeir höfðu hvárirtveggja alvæpni. Menn sá af þinginu, at flokkr manna reið neðan með Gljúfrá, ok blikuðu þar skildir við. Ok er þeir riðu á þingit, þá reið þar maðr fyrir í blárri kápu. Hann hafði hjálm á höfði gull-roðinn, en skjöld á hlið gullbúinn, í hendi krókaspjót; var þar gullrekinn falrinn. Hann var sverði gyrðr. Þar var kominn Egill Skallagrímsson með átta tigi manna, alla vel vápnaða, svá sem til bardaga væri búnir. Þat lið var valit mjök. Hafði Egill haft með sèr hina beztu bóndasonu af nesjum sunnan, þá er honum þóttu vígligstir. Egill reið með flokkinn til búðar þeirrar, er Þorsteinn hafði tjalda látit ok áðr var auð. Stigu þeir af hestum sínum. Ok er Þorsteinn kenndi ferð föður síns, þá gekk hann í móti honum með

allan flokk sinn ok fagnaði honum vel. Lètu þeir Egill bera inn fargjörvi sína í búð, en reka hesta í haga. Ok er þetta var sýslat, gekk Egill ok Þorsteinn með flokkinn allan upp í þingbrekku, ok settust, þar sem þeir váru vanir at sitja. Síðan stóð Egill upp ok mælti hátt: „hvárt er Önundr sjóni hèr í þingbrekkunni"? Önundr kveðst þar vera. „Ek em feginn orðinn, Egill! er þú ert kominn. Mun þat allt bœta til um þat, er hèr stendr milli máls manna". „Hvárt ræðr þú því, er Steinarr, son þinn, sœkir sökum Þorstein, son minn, ok hefir dregit saman fjölmenni til þess, at gjöra Þorstein at urðarmanni"? „Því veld ek eigi", segir Önundr, „er þeir eru úsáttir. Hefi ek þar til (lagt) mörg orð ok beðit Steinar sættast við Þorstein, þvíat mèr hefir verit í hvern stað Þorsteinn, son þinn, sparari til úsœmdar, ok veldr því sú hin forna ástvinátta, er með okkr hefir verit, Egill! síðan er vit fœddumst hèr upp samtímis". „Brátt mun þat", segir Egill, „ljóst verða, „hvárt þú mælir þetta af alvöru eðr af hègóma, þótt ek ætla þat síðr vera munu. Man ek þá daga, at hvárumtveggja okkrum mundi þykkja úlíkligt, at vit mundim sökum sœkjast eða stilla eigi sonu okkra, at þeir fari eigi með fíflsku slíkri, sem ek heyri at hèr horfist til. Sýnist mèr þat ráð, meðan vit erum á lífi ok svá nærstaddir deilu þeirra, at vit takim mál þetta undir okkr, ok setim niðr, en látim eigi þá Tungu-Odd ok Einar etja saman sonum okkrum sem kapalhestum. Látum þá annat hafa hèðan í frá til fèvaxta sèr, en taka á slíku". Þá stóð Önundr upp ok mælti: „rètt segir þú, Egill! ok þat er okkr úfallit, at vera á því þingi, er synir okkrir deila. Skal okkr ok aldri þá skömm henda, at vera þeir vanskörungar, at sætta þá eigi. Nú vil ek, Steinarr! at þú selir mèr mál þessi í hendr, ok látir mik

með fara, sem mèr líkar". „Eigi veit ek þat", segir Steinarr, „hvárt ek vil svá kasta niðr málum mínum, þvíat ek hefi áðr leitat liðsemdar af stórmenni. Vil ek nú svá at einu lúka málum mínum, at þat líki vel Oddi ok Einari". Síðan rœddu þeir Oddr ok Steinarr sín í milli. Sagði Oddr: „efna vil ek, Steinarr! liðsemd við þik, þá er ek hèt at veita þèr til laga eða þeirra málalykta, er þú vill taka þèr til handa. Muntu mest í ábyrgjast, hvern veg mál þín eru komin, ef Egill skal um dœma". Þá mælti Önundr: „ekki þarf ek at eiga þetta undir tungurótum Odds. Hefi ek af honum haft hvártki gott nè illt, en Egill hefir margt stórvel gjört til mín. Trúi ek honum miklu betr en öðrum, enda skal ek þessu ráða. Mun þèr þat hœfa, at hafa eigi alla oss í fangi þèr. Hefi ek enn hèr til ráðit fyrir okkr, ok skal enn svá vera". Steinarr segir: „ákafr ertu um þetta mál, faðir! en opt ætla ek at vit iðrumst þessa". Síðan seldi Steinarr í hendr Önundi málit, ok skyldi hann þá sœkja eða sættast á, svá sem lög kenndu til. Ok þegar er Önundr rèð fyrir málum þessum, þá gekk hann þegar til fundar við þá feðga, Þorstein ok Egil. Þá mælti Önundr: „nú vil ek, Egill! at þú skapir einn ok skerir um þessi mál, svá sem þú vill, þvíat ek trúi þèr bezt til, at skipa þessum mínum málum ok öllum öðrum. Síðan tókust þeir Önundr ok Þorsteinn í hendr, ok nefndu sèr vátta, ok þat með váttnefnunni, at Egill Skallagrímsson skyldi einn gjöra um mál þessi, svá sem hann vill, allt úskorat þar á þingi. Ok lauk svá þessum málum. Gengu menn svá heim til búða. Þorsteinn lèt leiða til búðar Egils þrjá yxn ok lèt höggva til þingveizlu. Ok er þeir Tungu-Oddr ok Steinarr komu heim til búðar, þá mælti Oddr: „nú hefir þú, Steinarr! ok þit feðgar ráðit fyrir lykt mála ykkarra. Nú teljumst ek

órlauss við þik, Steinarr! um liðveizlu þá, er ek hèt þèr, þvíat svá var mælt með okkr, at ek skylda veita þèr svá, at þú kæmir málum þínum fram eða til þeirra lykta, er þèr hugnaði, hvern veg sem þèr gefst sættargjörð Egils". Steinarr segir, at Oddr hefir honum vel veitt ok drengiliga, ok þeirra vinátta skal nú vera miklu betri en áðr. „Vil ek kalla, at þú sèr órlauss við mik um þat, er þú vart í bundinn". Um kveldit fóru dómar út, ok er ekki getit, at þar yrði til tíðinda.

## 86. Kapítuli.

### Af Agli ok Önundi sjóna.

Egill Skallagrímsson gekk í þingbrekku um daginn eptir, ok með honum Þorsteinn ok allr flokkr þeirra. Þar kom þá ok Önundr ok Steinarr. Tungu-Oddr var ok þar kominn ok þeir Einarr. Ok er menn höfðu þar mælt lögmálum sínum, þá stóð Egill upp ok mælti svá: „hvárt eru þeir Steinarr ok Önundr, feðgar, hèr, svá at þeir megi skilja mál mitt". Önundr svarar, at þeir váru þar. Egill mælti: „þá vil ek nú lúka upp sættargjörð milli þeirra Steinars ok Þorsteins. Hef ek þar upp þat mál: „Grímr, faðir minn, kom hingat til lands, ok nam hèr öll lönd um Mýrar ok víða hèrað, ok tók sèr bústað at Borg ok ætlaði þar landeign til, en gaf vinum sínum landakosti þar út í frá, svá sem þeir byggðu síðan. Hann gaf Ána bústað at Ánabrekku, þar sem Önundr ok Steinarr hafa hèr til búit. Vitu vèr þat allir, Steinarr! hver landamerki eru milli Borgar ok Ánabrekku, at þar ræðr Hafslœkr. Nú var eigi þat, Steinarr! at þú gjörðir þat úvitandi, at beita land Þorsteins, ok lagðir undir þik eigu hans, ok ætlaðir, at hann mundi vera svá mikill ættleri, at hann mundi vilja vera ræningi þinn. Því at þú, Steinarr! ok þit Önundr

máttu þat vita, at Áni þá land af Grími feðr mínum, en Þorsteinn drap fyrir þèr þræla tvá. Nú er þat öllum mönnum auðsýnt, at þeir hafa fallit á verkum sínum, ok eru þeir úbótamenn, ok at heldr, þótt þeir væri frjálsir menn, þá væri þeir þó úbótamenn. En fyrir þat, Steinarr! er þú hugðist ræna mundu Þorstein, son minn, landeign sinni, þeirri er hann tók með mínu ráði ok ek tók í arf eptir föður minn, þar fyrir skaltu láta laust þitt land at Ánabrekku ok hafa ekki fè fyrir. Þat skal ok fylgja, at þú skalt eigi hafa bústað nè vistarfar hèr í hèraði fyrir sunnan Langá, ok vera brottu frá Ánabrekku, áðr fardagar sè liðnir, en falla úheilagr fyrir öllum þeim mönnum, er Þorsteini vilja lið veita, þegar eptir fardaga, ef þú vill eigi brott fara eða nökkurn hlut eigi halda, þann er ek hefi á lagt við þik“. En er Egill settist niðr, þá nefndi Þorsteinn vátta at gjörð hans. Þá mælti Önundr sjóni: „þat mun mál manna, Egill! at gjörð sjá, er þú hefir gjört ok upp sagt, sè heldr skökk. Nú er þat frá mèr at segja, at ek hefi allan mik við lagt, at skirra vandræðum þeirra, en hèðan af skal ek ekki af spara, þat er ek má gjöra til úþurftar Þorsteini“. „Hitt mun ek ætla“, segir Egill, „at hlutr ykkarr feðga mun æ því verri, er deildir várar standa lengr. Hugða ek þat, Önundr! at þú mundir þat vita, at ek hefi haldit hlut mínum fyrir þvílíkum svá mönnum, sem þit erut feðgar. En Oddr ok Einarr, er dregizt hafa svá mjök til þessa máls, hafa hèr af fengið skapnaðar-virðing“.

## 87. Kapituli.

### Af Þorgeiri.

Þorgeirr blundr var þar á þinginu, systurson Egils, ok hafði mikit lið veitt Þorsteini í þessum málum. Hann bað þá feðga gefa sèr land nökkut út þar á Mýrunum. Hann bjó áðr fyrir sunnan Hvítá fyrir neðan Blunds-vatn. Egill tók vel á því ok fýsti Þorstein, at hann lèti hann þangat fara. Þeir settu Þorgeir niðr á Ánabrekku, en Steinarr færði bústað sinn út yfir Langá, ok settist niðr á Leirulæk, en Egill reið heim suðr á nes, ok skildust þeir með blíðskap feðgar. Maðr sá var með Þorsteini, er Íri hèt, hverjum manni fóthvatari ok allra manna skygnastr. Hann var útlendr ok lausingi Þorsteins, en þó hafði hann fjárgæzlur ok þær mest, at safna geldfè upp til fjalls á várum, en á haust ofan til rèttar. En nú eptir fardaga lèt Þorsteinn samna geldfè því, er eptir hafði orðit um várit, ok ætlaði at láta reka þat til fjalls. Íri var þá í fjárrèttinum, en Þorsteinn ok húskarlar hans riðu upp til fjalls, ok váru þeir átta saman. Þorsteinn lèt gjöra garð um þvera Grísartungu milli Langavatns ok Gljúfrár. Lèt hann þar at vera marga menn um várit. Ok er Þorsteinn hafði litit yfir verk húskarla sinna, þá reið hann heim. Ok er hann kom gegnt þingstöð, þá kom þar Íri hlaupandi móti þeim, ok sagði, at hann vill mæla við Þorstein einmæli. Þorsteinn sagði, at förunautar hans skyldi ríða fyrir, meðan þeir töluðu. Íri sagði Þorsteini, at hann hafði farit upp á Einkunnir um daginn ok sèt til sauða. „En ek sá“, sagði hann, „í skóginum fyrir ofan vetr-götu, at skinu við tólf spjót ok skildir nökkurir“. Þorsteinn segir hátt, svá at förunautar hans heyrðu svá beint: „hví mun honum svá annt at hitta mik, at ek mega eigi ríða heim leiðar minnar? en

þó mun Ölvaldi þykkja úsannligt, at ek synja honum máls, ef hann er sjúkr". Íri hljóp þá, sem mest mátti hann, til fjalls upp. Þorsteinn sagði förunautum sínum: „langa ætla ek nú leiðina, ef vèr skulum fyrst ríða suðr til Ölvaldsstaða. Ölvaldr sendi mèr orð, at ek skylda finna hann. Mun honum þó eigi miklu þykkja launaðr uxinn, er hann gaf mèr í fyrra haust, at ek hitta hann, ef honum þykkir máli skipta". Síðan riðu þeir Þorsteinn suðr um mýrar fyrir ofan Stangarholt, ok svá suðr til Gufár, ok ofan með ánni reiðgötur. Ok er hann kom niðr frá Vatni, þá sá þeir fyrir sunnan ána naut mörg ok mann hjá. Var þar húskarl Ölvalds. Spurði Þorsteinn, hvernig þar væri heilt. Hann sagði, at þar var vel heilt, ok Ölvaldr var í skógi at viðarhöggvi. „Þá skaltu", segir Þorsteinn, „segja honum, ef hann á við mik skylt erendi, at hann komi til Borgar; en ek mun nú ríða heim". Ok svá gjörði hann. En þat spurðist þó síðan, at Steinarr Sjónason hafði þann sama dag setit uppi við Einkunnir með tólfta mann. Þorsteinn lèt, sem hann hefði ekki spurt, ok var þat kyrrt síðan.

## 88. Kapítuli.

### Heimboð við Þorstein.

Þorgeirr er maðr nefndr. Hann var frændi Þorsteins ok hinn mesti vinr. Hann bjó í þann tíma á Álptanesi. Þorgeirr var vanr at hafa haustboð hvert haust. Þorgeirr fór til fundar við Þorstein Egilsson ok bauð honum til sín. Þorsteinn hèt ferðinni, ok fór Þorgeirr heim. En at ákveðnum degi, bjóst Þorsteinn til farar, ok váru þá fjórar vikur til vetrar. Með Þorsteini fór austmaðr hans ok húskarlar hans tveir. Grímr hèt son Þorsteins. Hann var þá tíu vetra, ok fór með Þorsteini, ok váru þeir fimm

saman, ok riðu út til Foss, ok þar yfir Langá, síðan út, sem leið lá, til Aurriða-ár. En fyrir utan ána var Steinarr á verki ok Önundr ok húskarlar þeirra. Ok er þeir kenndu Þorstein, þá hljópu þeir til vápna sinna, ok síðan eptir þeim Þorsteini. Ok er Þorsteinn sá eptirför Steinars, þá riðu þeir út af Langaholti. Þar er hóll einn hár ok úvíðr. Þar stíga þeir Þorsteinn af hestunum, ok sœkja upp á hólinn. Þorsteinn mælti, at sveinninn Grímr skyldi fara í skóginn ok verða eigi við staddr fundinn. Ok þegar er þeir Steinarr koma at hólnum, þá sœkja þeir at þeim Þorsteini. Varð þar bardagi. Þeir Steinarr váru sex saman vaxnir menn, en sjaundi son Steinars, tíu vetra gamall. Þenna fund sá þeir menn, er váru á engiteigum, af öðrum bœjum, ok runnu til at skilja þá. Ok er þeir váru skildir, þá váru látnir húskarlar Þorsteins báðir. Fallinn var ok einn húskarl Steinars, en sárir sumir. En er þeir váru skildir, leitar Þorsteinn at, hvar Grímr var, ok finna þeir hann. Var Grímr þá sár mjök, en sonr Steinars lá þar hjá honum dauðr. Ok er Þorsteinn hljóp á hest sinn, þá kallaði Steinarr á hann ok mælti: „rennr þú nú, Þorsteinn hvíti!“ sagði hann. Þorsteinn svarar: „lengra skaltu renna, áðr vika sè liðin“. Síðan riðu þeir Þorsteinn út yfir mýrina, ok höfðu með sèr sveininn Grím. Ok er þeir komu út í holt þat, er þar verðr, þá andaðist sveinninn, ok grófu þeir hann þar í holtit, ok er þat kallat Gríms-holt; en þar heitir Orrustu-hváll, sem þeir börðust. Þorsteinn reið á Álptanes um kveldit, sem hann hafði ætlat, ok sat þar at boði þrjár nætr, en síðan bjóst hann til heimferðar. Menn buðust til at fara með honum, en hann vildi eigi, ok riðu þeir tveir saman. En þann sama dag, er Steinarr vissi ván, at Þorsteinn mundi heim ríða, þá reið Steinarr út með sjó. Ok er hann kom á

mela þá, er verða fyrir neðan Lambastaði, þá settist hann þar á melinn. Hann hafði sverð þat, er Skrýmir hèt, allra vápna bezt. Hann stóð þar á melnum með sverðit brugðit, ok horfði þá á einn veg, þvíat þann sá þá á reið Þorsteins utan um sandinn. Lambi bjó á Lambastöðum, ok sá, hvat Steinarr hafðist at. Hann gekk heiman, ok ofan á bakkann. Ok er hann kom at Steinari, þá greip hann aptan undir hendr honum. Steinarr vildi slíta hann af sèr. Lambi hèlt fast, ok fara þeir nú af melinum á slèttuna. En þá ríða þeir Þorsteinn hit neðra götuna. Steinarr hafði riðit stóðhesti sínum ok hafði bundit hann. Hestrinn varð lauss ok hljóp hann inn með sjó. Þat sá þeir Þorsteinn, ok undruðust þat, þvíat þeir höfðu ekki varir orðit við för Steinars. Þá snaraðist Steinarr fram á bakkann, þvíat hann sá eigi, at Þorsteinn hefði um riðit. Ok er þeir komu á bakkann framanverðan, þá hratt Lambi honum fyrir melinn, ofan á sandinn, en Lambi hljóp heim. Ok er Steinarr komst á fœtr aptr, þá rann hann eptir Lamba. En er Lambi kom at durum, þá hljóp hann inn ok rak aptr hurðina. Steinarr hjó eptír honum, svá at sverðit stóð fast í vindskeiðunum. Skildust þeir þar. Gekk Steinarr heim. En er Þorsteinn kom heim, þá sendi hann um daginn eptir húskarl sinn út til Leirulœkjar at segja Steinari, at hann fœrði bústað sinn um Borgar-hraun, en at öðrum kosti mundi hann njóta þess við Steinar, ef hann ætti fleiri manna forráð, „ok mun þá eigi kostr brottferðar“. En Steinarr bjó ferð sína út á Snæfells-strönd, ok þar setti hann bú saman, er heitir at Elliða; ok lýkr þar viðskiptum þeirra Þorsteins Egilssonar. Þorgeirr blundr bjó at Ánabrekku. Hann veitti Þorsteini illar búsifjar í öllu því, er hann mátti. Þat var eitt sinn, er þeir fundust, Egill ok Þorsteinn, at

þeir rœddu margt um Þorgeir blund, frænda sinn, ok komu allar rœður ásamt með þeim. Þá kvað Egill:

Spanda ek jörð með orðum
endr Steinari ór hendi.
Ek þóttumst þá orka
arfa Geirs til þarfar.
Mèr brást minnar systur
mögr, hètumk þó fögru.
Mátti eigi böls of bindast
Blundr. Ek slíkt of undrumst.

Þorgeirr blundr fór í brott frá Ánabrekku, ok fór suðr í Flókadal, þvíat Þorsteinn þóttist ekki mega við hann eiga, en hann vildi þó vægjast þar við. Þorsteinn var maðr úrefjusamr ok rèttlátr ok úáleitinn við menn, en hèlt hlut sínum, ef aðrir menn leituðu á hann. Enda veitti þat heldr þungt flestum, at etja kappi við hann. Oddr var þá höfðingi í Borgarfirði fyrir sunnan Hvítá. Hann var hofs-goði, ok rèð fyrir hofi því, er allir menn guldu hoftoll til fyrir innan Skarðs-heiði.

## 89. Kapituli.

### Andlát Egils Skallagrímssonar.

Egill Skallagrímsson varð maðr gamall. En í elli hans gjörðist hann þungfœrr, ok glapnaði honum bæði heyrn ok sýn. Hann gjörðist ok fótstirðr. Egill var þá at Mosfelli með Grími ok Þórdísi. Þat var einn dag, er Egill gekk úti með vegg, ok drap fœti ok fèll. Konur nökkurar sá þat, ok hlógu at, ok mæltu: „farinn ertu nú, Egill! með öllu, er þú fellr einnsaman“. Þá sagði Grímr bóndi: „miðr hæddu konur at okkr, þá er vit várum yngri“. Þá kvað Egill:

Vals hefi ek vafur helsis;
váfallr em ek skalla.
Blautr erumk bergis fótar
borr; en hlust er þorrin.

Egill varð með öllu sjónlauss. Þat var einhvern dag, er veðr var kalt um vetrinn, at Egill fór til elds, at verma sik. Matseljan rœddi um, at þat var undr mikit, slíkr maðr sem Egill hafði verit, at hann skyldi liggja fyrir fótum þeim, svá at þær mætti eigi vinna verk sín. „Ver þú vel við“, sagði Egill, „þótt ek bökumst við eldinn, ok mýkjumst vèr við um rúmin“. „Statt þú upp“, sagði hón, „ok gakk til rúms þíns ok lát oss vinna verk vár“. Egill stóð upp, ok gekk til rúms síns ok kvað:

Hvarfa ek blindr of branda
(bið ek eirar Syn geira)
(þann ber ek harm á hvarma
hnitvöllum mèr) (sitja);
en jarðgöfugr orðum
(orð mín) konungr (forðum
hafði gramr at gamni)
geirr Hamdis mik framdi.

Þat var eitt sinn, er Egill gekk til elds at verma sik, þá spurði maðr hann, hvárt honum væri kalt á fótum, ok bað hann eigi rètta of nær eldinum. „Svá skal vera“, segir Egill, „en eigi verðr mèr nú hógstýrt fótunum, er ek sè eigi, ok er of daufligt sjónleysit“. Þá kvað Egill:

Langt þykkir mèr,
ligg ek einnsaman,
karl afgamall,
firr konungs vörnum.
Eigum ekkjur
all-kaldar tvær,

en þær konur
þurfu blossa.

Þat var á dögum Hákonar hins ríka ofanverðum. Þá var Egill Skallagrímsson á níunda tigi, ok var hann þá hress maðr fyrir annars sakir en sjónleysis. Þat var um sumarit, er menn bjuggust til þings, þá beiddi Egill Grím at ríða til þings með honum. Grímr tók því seinliga. Ok er þau Grímr ok Þórdís töluðust við, þá sagði Grímr henni, hvers Egill hafði beitt. „Vil ek, at þú forvitnist, hvat undir muni búa bœn þessi". Þórdís gekk til máls við Egil frænda sinn. Var þá mest gaman Egils, at rœða við hana. Ok er hón hitti hann, þá spurði hón: „er þat satt, frændi! er þú vill til þings ríða. Vilda ek, at þú segðir mèr, hvat væri í ráðagjörð þinni". „Ek skal segja þèr", segir hann, „hvat ek hefi hugsat. Ek ætla at hafa til þings með mèr kistur tvær, er Aðalsteinn konungr gaf mèr, er hvártveggja er full af ensku silfri. Ætla ek at láta bera kisturnar til lögbergs, þá er þar er fjölmennast. Síðan ætla ek at sá silfrinu, ok þykkir mèr undarligt, ef allir skipta vel sín í milli. Ætla ek, at þar muni þá vera hrundningar eðr pústrar, eða bærist at um síðir, at allr þingheimrinn berðist". Þórdís sagði: „þetta þykkir mèr þjóðráð, ok mun uppi, meðan landit er byggt". Síðan gekk Þórdís til tals við Grím ok sagði honum ráðagjörð Egils. „Þat skal aldri verða, at hann komi þessu fram, svá miklum firnum", sagði Grímr. Ok er Egill kom á rœður við Grím um þingferðina, þá taldi Grímr þat allt af, ok sat Egill heima um þingit. Eigi líkaði honum þat vel. Var hann heldr úfrýnn. At Mosfelli var höfð selför, ok var Þórdís í seli um þingit. Þat var eitt kveld, er menn bjuggust til rekkna at Mosfelli, at Egill kallaði til sín þræla tvá, er Grimr átti. Hann bað þá taka sèr hest.

„Vil ek fara til laugar, ok skulu þèr fara með mèr“, segir hann. Ok er Egill var búinn, gekk hann út ok hafði með sèr silfrkistur sínar. Hann steig á hest. Fóru þeir síðan ofan eptir túninu ok fyrir brekku þá, er þar verðr, er menn sá síðast. En um morgininn, er menn risu upp, þá sá þeir, at Egill hvarflaði á holtinu fyrir austan garð, ok leiddi eptir sèr hestinn. Fara þeir þá til hans, ok fluttu hann heim. En hvártki komu aptr síðan þrælarnir nè kisturnar, ok eru þar margar getur at, hvar Egill hafi fólgit fè sitt. Fyrir austan garð at Mosfelli gengr gil ofan ór fjalli; en þat hefir orðit þar til merkja, at í bráðaþeyjum var þar vatnfall mikit, en eptir þat er vötnin hafa fram fallit, hafa fundizt í gilinu enskir penningar. Geta menn sumir, at Egill muni þar fèit hafa fólgit. Fyrir neðan tún at Mosfelli eru fen stór ok furðuliga djúp. Hafa þat margir fyrir satt, at Egill muni hafa kastat þar í fè sínu. Fyrir sunnan ána eru laugar, ok þar skammt frá jarðholur stórar, ok geta þess sumir, at Egill muni þar hafa fólgit fè sitt, þvíat þangat er opt sènn haugaeldr. Egill sagði, at hann hefði drepit þræla Gríms, ok svá þat, at hann hefði kisturnar fólgit, en þat sagði hann engum manni, hvar hann hefði fólgit. Egill tók sótt eptir um haustit, þá er hann leiddi til bana. En er hann var andaðr, þá lèt Grímr fœra Egil í klæði góð. Síðan lèt hann flytja hann ofan í Tjaldanes ok gjöra þar haug, ok var Egill þar í lagðr ok vápn hans ok klæði.

## 90. Kapítuli.

### Grímr tók trú.

Grímr at Mosfelli var skírðr, þá er kristni var í lög leidd á Íslandi. Hann lèt þar kirkju gjöra. En þat er sögn manna, at Þórdís hafi látit flytja Egil til kirkju; ok er

þat til jarteikna, at síðan er kirkja var gjör at Mosfelli, en ofan tekin at Hrísbrú sú kirkja, er Grímr hafði gjöra látit, þá var þar grafinn kirkjugarðr; en undir altarisstaðnum þá fundust mannabein. Þau váru miklu stœrri en annarra manna bein. Þykkjast menn þat vita af sögn gamalla manna, at mundi verit hafa bein Egils. Þar var þá Skapti prestr Þórarinsson, vitr maðr. Hann tók þá hausinn Egils ok setti á kirkjugarðinn. Var haussinn undarliga mikill, en hitt þótti þó meir frá líkindum, hversu þungr hann var. Haussinn var allr báróttr útan, svá sem hörpuskel. Þá vildi Skapti forvitnast um þykkleik haussins. Tók hann þá handexi vel mikla ok reiddi annarri hendi sem harðast, ok laust hamrinum á hausinn, ok vildi brjóta. En þar sem á kom, hvítnaði við, en ekki dalaði eða sprakk; ok má af slíku marka, at hauss sá mundi eigi auðskœðr fyrir höggum smámennis, meðan svörðr ok hold fylgdi. Bein Egils váru lögð niðr í utanverðum kirkjugarðinum at Mosfelli.

## 91. Kapítuli.

Þorsteinn Egilsson tók skírn, þá er kristni kom á Ísland, ok lèt kirkju gjöra at Borg. Hann var maðr trúfastr ok vel siðaðr. Hann varð maðr gamall ok sóttdauðr, ok var jarðaðr at Borg at þeirri kirkju, er hann lèt gjöra. Frá Þorsteini er mikil ætt komin, ok margt stórmenni ok skáld mörg, ok er þat Mýramanna-kyn, ok svá allt þat, er komit er frá Skallagrími. Lengi hèlzt þat í ætt þeirri, at menn váru sterkir ok vígamenn miklir, sumir spakir at viti. Þat var sundrleitt; þvíat í ætt þeirri hafa fœðzt þeir menn, er fríðastir hafa verit á Íslandi, sem var Þorsteinn Egilsson ok Kjartan Ólafsson, systrsonr Þorsteins, ok Hallr Guðmundarson, svá ok Helga hin fagra, dóttir Þorsteins, er

þeir deildu um, Gunnlaugr ormstunga ok Skáld- Hrafn. En fleiri váru Mýramenn manna ljótastir. Þorgeirr, son Þorsteins, var þeirra sterkastr brœðra, en Skúli var mestr. Hann bjó at Borg eptir dag Þorsteins föður síns. Skúli var lengi í víking. Hann var stafnbúi Eiríks jarls á Járnbarðanum, þá er Ólafr konungr Tryggvason fèll. Skúli hafði átt í víking sjau orrustur, ok þótti hann vera hinn mesti kappi ok fullhugi. Fór hann eptir þat út til Íslands, ok settist í bú at Borg, ok bjó þar til elli, ok er margt manna frá honum komit. Ok lýkr þar þessarri frásögu.

# Vísurnar í Egils-sögu, færðar í óbundna ræðu, og skýring þeirra.

(mk. = mannkenning).

## 24. Kap.

Nú frá ek Þórólf fóru[1] und lok[2] norðr í eyju[3]. Norn[4] erumk[5] grimm. [Þundr þremja-vandar[6] fèll til snimma. Þung [fangvina Þórs[7] [lètumk brugðit[8] at ganga at þingi[9]. Mun-at[10] skjótt hefnt, þótt hugr hvetti málmgnýjar[11].

1) hafa farið. Fóru er nafnháttur þátíðar (infinitivus praeteriti), sem er mjög tíður í skáldskap, en finnst að eins í fáum orðum í óbundinni ræðu, til dæmis, mundu, skyldu, vildu. — 2) fara und lok, líða undir lok, deyja. — 3) norður í Álöst. — 4) örlaganornin, örlögin. — 5) er mèr; er-u-mk er samansett af er, bandstafnum u og mk = mik = mèr. — 6) þundr, Óðinsheiti; þremjar (fleirtala kvennkyns), smiðrim á sverðblaði; þremjavöndr, sverð; þundr þremja-vandar, mk. — 7) sú sem átti fang við Þór, elli (Snorra-Edda, Reykjav. 1848, 33.bls.). — 8) lètumk brugðit, lèt mèr bregðast, meinaði mèr. — 9) þing, mannfundur, mót, bardagi. Ellin er búin að fara svo með mig, að eg er eigi fær til að ganga í bardaga; þess vegna mun hefndin eigi koma skjótt fram. — 10) mun-at, eigi mun verða; at = eigi. — 11) málmgnýr, orusta (málmgnýjar er gáta fyrir maglunar).

## 27. Kap.

Nú er hefnd hersis efnd við hilmi[1]; úlfr ok örn gengr of ynglings[2] börn. Höggvin hræ Hallvarðs flugu á sæ; grár ari[3] slítr undir[4] Snarfara.

1) hilmir, konungur. — 2) ynglingr, konungur. — 3) örn. — 4) und, sár.

## 30. Kap.

Sá ísarnmeiðr[1], [er skal leggja aura[2], verðr at rísa mjök ár[3]; [veðr-váðir kveðja vidda bróður[4]. Ek læt fíkar[5]

sleggjur gjalla á [gulli geisla-njóts[6], meðan heitu-kytra[7] hrœri hreggs-vind[8], þjóta[9].

1) ísarn, járn; meiðr, viður; ísarnmeiðr, járnviður, mk. — 2) aurar, fjármunir, fè; leggja aura, safna fè, græða. — 3) árla, snemma morguns. — 4) veðr-váðir, vindvoðir, smiðjubelgurinn; viddi = víðir, sjór; vidda bróðir, bróðir sjóarins, vindur; veðr-váðir kveðja vidda bróður, smiðjubelgurinn skorar á vindinn, hleypir honum af stað. — 5) fíkr, ákafur, áriðamikill. — 6) geisla-njótr, sá sem nýtur geisla, eldur; gull geisla-njóts, gull eldsins, járn glóandi úr eldinum. — 7) kytra, hola, hol; heitu-kytra, það hol, sem hitar, belgurinn. — 8) hreggs-vindr, óveðurs-vindur, mikill vindur. — 9) þjóta, til að þjóta; þannig, að hann þjóti; eða þjótr er lýsingarorð = þjótandi, og þá ætti að taka svona saman: (hin) þjóta heitu-kytra hrœri hreggs-vind, hinn þjótandi smiðjubelgur blási öflugum vindi.

## 31. Kap.

Ek em kominn ern[1] til arna[2] Yngvars, þess er gefr drengjum [lyngva fránþvengjar beð[3]. Ek var fúss at finna hann. Þú, [þægir ljósundinna linns landa[4]! mun(t) eigi finna [þrèvetran óðarsmið[5] mèr betra.

1) ern er gáta Gunnars Pálssonar; ern, hress, hraustur. — 2) heimkynna; arinn, eldstó, heimkynni. — 3) orms beð, gull; lyngva fránþvengr, gljáandi lyngs-þvengur (fránn, gljáandi), ormur; lyngva fránþvengjar beðr, orms-ból, gull. — 4) sá sem þiggur ljósi vafin (björt) orms lönd, gull; mk. (linnr, ormur). — 5) þrevetran ljóðasmið, þreveturt skáld.

## 2. vísa.

Hagr [sárgagls herðimeiðr[1] gaf söglum[2] Agli þrjá síþögla[3] [brimróta gagra[4]. Ok [borðvallar blakka kennimeiðr[5], sá er kunni gleðja Egil, gaf [bekkþiðurs körbeð[6], (hit) fjórða[7].

1) gagl, gæsar-ungi; sárgagl, sverð; sárgagls herðimeiðr, harður (hraustur) sverðmeiður, mk. — 2) sögulum, málhreifum. — 3) síþögula. — 4) gagarr, hundur; brimróta gagarr, brimróts hundur, kuðungur. — 5) borðvöllr, skipavöllur, sjór; blakkr,

hestur; borðvallar-blakkr, sjóar-hestur, skip; kennimeiðr borðvallar-blakka, sá sem ber kennsl á skip, siglingamaður. — 6) þiðurr, eins konar fugl (á dönsku Tiur); bekkr, lækur; bekkþiðurr, lækja-þiðurr, önd; körbeðr, rúm, sem legið er í; bekkþiðurs körbeðr, andarsæng, andaregg. — 7) það var hið fjórða, sem hann gaf mèr.

## 38. Kap.

Margar flösur[1] liggja í eggju[2] yggs[3] undvargs[4]. Ek á deiga [sveigar-kör[5]. Illt fox[6] er í exi. Láttu arghyrnu[7] árna[8] aptr með roknu[9] skapti. Þeirrar væri þörfgi[10] hingat. Þat var Inga[11] gjöf.

1) flögur. — 2) egg. — 3) yggr, sem menn hafa ugg á, eru hræddir við, viðsjáll. — 4) und, sár; vargr, úlfur; undvargr, sára-úlfur, vopn. — 5) sveigr, svigi, viður; kör, lega, sótt, eyðilegging; sveigar-kör, eyðilegging viðarins, öxi. — 6) eiginlega refur (á þjóðversku Fuchs); svik. — 7) exi. — 8) fara. — 9) reykugu. — 10) eigi þörf, engin þörf; -gi í samsetningum, aptan við orð, táknar neitun, t. d., en-gi (= einn-gi), ekki einn, enginn; man-gi = mann-gi, maðr-gi, eigi maður, enginn maður, enginn. — 11) konungs (Inga er gáta G. Pálss. fyrir: hringa). Konungsgjöf er sagt í háði.

## 40. Kap.

Þat mælti móðir mín, at mèr skyldi kaupa fley[1] ok fagrar árar, fara[2] á hring[3] með víkingum, standa upp í stafni, stýra [dýrum knerri[4], halda svá til hafnar, höggva mann ok annan.

1) skip. — 2) að eg skyldi fara. — 3) skip. — 4) dýrmætu, skrautlegu skipi.

## 44. Kap.

### 1. vísa.

Sverri-flagði[1]! þèr sögðut (vera) suml-eklu[2], þar er blètut[3] dísir, því tel ek þik bragðvísan[4], [kumla brjótr[5]! Báruðr[6]! þèr leyndut alls til illa úkunna runna[7] [hugar fári[8]. (Þèr) hafit of brugðit[9] illt bragð.

1) mesta varmenni. Sverri- sezt framan við orð og eykur merk-

ingu þeirra orða, sem það er sett framan við. — Flagði, karlkennt orð, samsvarar flagð, sem haft er um kvennmann. — 1) suml, öl; ekla, skortur; suml-ekla, ölskortur — 3) blótuðuð, dýrkuðuð. — 4) brögðóttan. — 5) kuml, haugur; kumla brjótr, hauga brjótur, á líklega hèr að vera óvirðuleg mannkenning. — 6) Bárður. — 7) menn; runna er hálfkenning. — 8) flærð hugarins. — 9) gjört.

## 2. vísa.

Rístum rún á horni, rjóðum spjöll[1] í dreyra; ek vel þau orð til róta eyrna-viðar óðs dýrs[2]. Drekkum, sem viljum, [veig velglýjaðra þýja[3]. Vitum, hvè öl þat eiri[4] oss, er Bárðr of signdi[5].

1) mál, letur. — 2) eyrna-viðr óðs dýrs, haus-viður villts dýrs, horn; rœtr eyrna-viðar óðs dýrs, sá endi hornsins, sem að höfðinu veit, meðan hornið er á dýrinu. Ek vel þau orð til róta eyrna-viðar óðs dýrs, eg vel þau orð til að rista þau á hornið, eða: eg vel þau orð, sem eg hefi nú í munni, við munna hornsins, þegar eg set hornið á munn mèr. Hið óða dýr heldur Dr. Scheving að sè úr eða ýr (á latínu: urus), og vísar til Caes. B. G. VI, 28: (uri) neque homini, neque ferae, quam conspexerint, parcunt; og tilfœrir þar að auk þá ástœðu, að „af þriðju vísu í þessum kap. sèst, að Norðmenn hafi drukkið af úrarhornum (ei síður, en Germani)“. — 3) veig, vín, öl; þýr (eigandi þýjar, kvennkennt orð), ambátt; veig velglýjaðra þýja, öl kátra ambátta, öl, sem ambáttir hafa búið til. — 4) hvè eiri oss, hvernig það verði oss, hvort það skaði oss. — 5) helgaði, vígði.

## 3. vísa.

[Mèr bar öl[1], þvíat öl gjörir nú Ölvi fölvan[2]; ek læt [ýra-atgeira ýring[3] skýra[4] um grön[5]. [Oddskýs regnbjóðr[6]! kanntu öllungis[7] illa [hnýsa fyrir þèr[8]. [Getr rigna at regni Hárs þegna[9].

3) mèr bar að drekka öl. — 2) fölan. — 3) ýrr, úruxi; ýrs-atgeirr, vopn úruxans, horn; ýra-atgeira ýring, horna úrfelli, horna regn, öl. — 4) skýra, rigna (myndað af skúr). — 5) varir, munn. — 6) oddský, skjöldur; oddskýs regn, orusta, oddskýs

regn-bjóðr, sá sem býður mönnum orustu, heyr orustu, mk. — 7) öldungis, mjög. — 8) sjá fyrir þèr, sjá fram í veginn. — 9) Hárr, Óðinsheiti; Hárs þegnar, þjónustumenn Óðins, hermenn; regn Hárs þegna, bardagi; getr rigna, það getur komið regn; getr rigna at regni Hárs þegna, það getur komið blóðregn = eg get drepið þig.

## 45. Kap.

Ek hefi svá leyszt[1] ór garði dáðmilds Lista-láð-varðaðar[2] ok Gunnhildar, at nökkurir[3] þrír [Hlakkar þrymreynis[4] þjónar, helgengnir til Heljar hásalar, [dvelja för[5]. [Nè ek fága drjúga dul[6].

1) losazt. — 2) Listi, nes í Egðafylki í Noregi. Lista-láð, Lista-land, annaðhvort = Listi (Listerlandet), eða = Noregur. Lista-láð-varðaðr, Noregs vörður, Noregs konungur, Eiríkur blóðöx; dáð, hreysti, dáðmildr = ör á hreysti = hraustur. — 3) einhverjir. Egill veit eigi nöfn þeirra. — 4) Hlökk, ein af Valkyrjum; Hlakkar þrymr, dynur, hljómur Valkyrjunnar, orusta; Hlakkar þrymreynir, sá sem reynir orustu, hermaður, herkonungur, Eiríkur blóðöx. — 5) halda kyrru fyrir, liggja dauðir. — 6) nè, eigi; dul (kvennkennt orð), ofdirfska. Nè ek fága drjúga dul, eg fegra eigi mína miklu ofdirfsku.

## 47. Kap.

Úlfs-tann-lituðr[1]! (vèr) skulum [glitra upp[2] órum[3] sverðum. (Vèr) eigum at drýgja dáð [í dal-fiska miskunn[4]. [Hverr lýða[5] leiti sem bráðast upp til Lundar; gjörum þar úfagran [vigra seið[6] fyrir sólar-setr.

1) sá sem litar tennur úlfsins í blóði, hermaður. — 2) lypta upp, svo að ljómi af. — 3) vorum. — 4) dal-fiskr, ormur; miskunn, líkn; miskunn dal-fiska, líkn orma, sumar; í miskunn dal-fiska, í sumar. (sbr. Snor. Ed., Reykjav. 1848, bls. 67.) — 5) hver manna, hver maður. — 6) vigr, spjót; seiðr, galdur, söngur, hljómur; vigra seiðr, spjótagnýr, orusta.

## 48. Kap.

### 1. vísa.

Hvat skaltu, sveinn! í sess minn? þvíat þú hefir

sjaldan gefnar vargi[1] varmar bráðir; ek vil vera ein [of mína[2]. Sátt-at-tu[3] hrafn gjalla[4] í hausti of hræsolli[5]; vart-at-tu[6] at[7], þar er skelþunnar eggjar [runnust á[8].

1) úlfi. — 2) um mína setu, um sæti mitt. — 3) sátt-at-þú = þú sást eigi (at = eigi). — 4) krunka. — 5) hræsollr, hræja fjöldi. — 6) vart-at-þú = þú varst eigi. — 7) við. — 8) runnu hver á aðra, mættust.

2. vísa.

Ek hefi farit [blóðgum brandi[1], svá at benþiðurr[2] fylgdi mèr, ok gjallanda geiri[3]; harðr gangr var at víkingum. (Vèr) gjörðum reiðir róstu[4]; eldr rann of sjöt[5] manna; (vèr) lètum blóðga búka sæfast í borghliðum.

1) með blóðugu sverði. — 2) benja þiðurr, hrafn. — 3) spjóti. — 4) orustu, bardaga. — 5) sjöt, sæti, bústaður, hús; eldr rann of sjöt manna, eldurinn lèk um hús manna, vèr brenndum byggðir manna.

49. Kap.

(Vèr) gjörðum hölzti[1] harða hríð fyrir Jótlands-síðu. Sá víkingr, er varði Dana-ríki, barðist vel, áðr snarfengr[2] Eyvindr skreyja hljóp á sund af [unnar-hesti[3] með lið drengja austr fyrir sandi.

1) helzt til, mjög. — 2) hvatlegur. — 3) unnr, alda, sjór; unnar-hestr, sjóar-hestur, skip.

52. Kap.

Óttvígr[1] Ólafr[2] [of kom jöfri á bak-flótta[3]; ek frá þann þengil þingharðan[4], er felldi annan[5]. Goðrekr [lèt nóga glapstigu troðna á mó[6]. [Engla skerðir[7] spenr[8] [hálfa jörð Álfgeirs[9] und sik.

1) sá sem vegur (reiðir sverðið) ótt og títt (óttvígr, gáta fyrir óttvíg). — 3) jöfurr, konungur, jarl, Álfgeirr; bak-flótti, flótti til baka; einnig mætti taka saman: kom flótta á bak jöfri, lagði flóttan á herðar jarli = rak jarl á flótta. — 4) þing; fundur, samkoma, orusta; þingharðr, harður í orustu. — 5) Guðrek. — 6) glapstigr, rangur vegur; mór, jörð; lèt nóga glapstigu troðna á mó, fór nóga

óheilla-vegi um jörðina, fór illa ferð, fèll. — 7) sá sem eyðir Englendingum, fjandmaður Englendinga, Ólafur Skotakonungur. — 8) dregur (spen, spanda, spanit). — 9) hálft Norðymbraland.

## 55. Kap.

### 1. vísa.

Sá jarlmanns[1] bani, er [óaðist ekki[2], gekk snarla[3]; þreklundaðr Þórólfr fèll í stórum [Þundar-gný[4]. Jörð grœr of[5] mínum ágætum barma[6] nær Vínu; en vèr verðum hylja harm. Þat er helnauð[7].

1) manns, sem hefir jarls-tign = jarls. — 2) hræddist engan hlut. — 3) snarlega, hvatlega; gekk snarla, gekk vel fram. — 4) þundr, Óðins heiti; þundar-gnýr, orusta. — 5) yfir. — 6) bróður. — 7) dauðans kvöl.

### 2. vísa.

[Ek hlóð vang valköstum vestan fyrir merkistangir[1]; þat el var ótt, er sóttak[2] Aðils bláum Naðri. Ungr Álafr[3] háði [stála þrimu[5] við Engla; Hringr [hèlt-at vápnaþingi[6]. Nè[7] sultu hrafnar.

1) vang, jörðina, vígvöllinn; vestan, fyrir vestan, í Vestrlöndum; fyrir, fyrir framan. — 2) eg sótti. — 3) með sverðinu Naðri. — 4) Ólafur. — 5) orustu. — 6) hèlt eigi orustu, beið ósigur. — 7) eigi.

### 3. vísa.

Brynju Höðr[1] lætr [hrammtangar hrynvirgil[2] hanga mèr á [hauki troðnum heiðis vinga-meiði[3]. Ek kná[4] reiða[5] [ryðmeldis gelgju-seil[6] á [geirveðrs gálga[7]. [Gunnvala bræðir[8] ræðr [at meira[9] lofi.

1) Höðr, einn af Ásum; brynju Höðr, mk. — 2) hrammtangar er gáta G. Pálssonar fyrir hvarmtangar; hrammr, hönd; hrammtöng, fingur, virgill, snara; hrynvirgill, hrynjandi, hljómandi snara; hrammtangar hrynvirgill, hljómandi snara fingursins, hringur. Hrynvirgil er getgáta fyrir hryni virgils. — 3) heiðir, haukr; vinga-meiðr, trè það, sem Óðinn hèkk á í níu nætur; hèr = trè, eik; heiðis vinga-meiðr, hauks eik, trè það, sem haukurinn situr á, handleggur (haukarnir voru

vandir á, að sitja á öxlum manna); hauki troðinn kallast handleggurinn, því haukar sátu á honum; lætr hrammtangar hrynvirgil hanga mèr á hauki troðnum heiðis vinga-meiði. lætur hring vera á hendi mèr. — 4) kann. — 5) bera. — 6) ryðmeldi (hvorugkennt orð), roðið, rautt mèl, Fróða-mèl, gullmèl, gull; gelgja, spýta, stöng; ryðmeldis gelgja, viður sá, sem gull er á, höndin prýdd gulli; seil, band; ryðmeldis-gelgjuseil, handarband, armband, gullhringur. — 7) geirr, spjót; geirveðr, spjótaveður, orusta; geirveðrs-gálgi, orustu-trè, sýnist tákna höndina ek kná reiða ryðmeldis-gelgju-seil á geirveðrs-gálga, eg ber hring á hendi. — 8) gunnr, orusta; gunnvalr, orustu-valur. orustu-fugl, hræfugl; bræðir, sá sem gefur bráð; gunnvalabræðir, sá sem gefur hræfuglum bráð, hermaður, herkonungur. — 9) því meira.

## 4. vísa.

[Hvarms hnúpgnípur[1] [knáttu drúpa[2] mèr af harmi. Nú fann ek þann, er rètti þær ennis úslèttur. Gramr hefir [hrundit mèr upp[3] [grímu grundar gerðihömrum[4] armsíma[5]. [Sá ýgr er mèr af augum[6].

1) hnúpgnípur, brattar gnípur; hvarms hnúpgnípur, brattar gnípur augnaloksins, augnabrýr. — 2) gátu hangit = hèngu. — 3) lypt upp á mèr. — 4) grímu-grund, grímujörð, enni; grímugrundar gerðihamrar, hamrar, sem umgirða ennið, brýr. — 5) armsími er getgáta fyrir ársími; sími, þráður, band; armsími, armband, armhringur, gullhringur; armsíma, með gullhring. — 6) ýgr, ógn, ófrýnilegt útlit; sá ýgr er mèr af augum, sá brúnþúngi er horfinn frá augum mínum; brýr mínar eru komnar í lag.

## 5. vísa.

Nú hefir foldgnár[1], hjaldr-snerrandi[2], höfuðbaðmr[3] harra felda [þrjá jöfra[4]. Jörð fellr und nið Ellu. [Hyrjar hann-brjótr[5]! kynfrægri Aðalsteinn of vann[6]. Allt annat er lægra konungmanni. Hèr sverjum þess.

1) foldgnár, sá sem gnæfir yfir landit, hefir það í skjóli og vernd sinni. — 2) hjaldr, orusta; snerra, herða, vekja, heyja; hjaldr-snerrandi, sem heyr orustu. — 3) ættingi; harri, her-

stjóri, konungur; hjaldr-snerrandi höfuðbaðmr harra, hergjarn, hraustur ættingi konunga. — 4) þrjá höfðingja, Ólaf, Aðils og Hring. — 5) hyrr, eldur; hyrjar hann-brjótr = brjótr hannhyrjar; hann-hyrr (= hand-hyrr) handar-eldur, gull; hannhyrjar brjótr, gulls-brjótur, sá sem brýtur gullið og skiptir því meðal manna sinna, örlátur konungur. — 6) vann sigur.

### 6. vísa.

Nú liggr hæst hreinbraut[1] und[2] hraustum Aðalsteini.

1) hreinn, hreindýr; hreinbraut, hreyndýra-stöðvar, heiðar og fjöll, fjall-lendi, Skotland. — 2) undir.

## 56. Kap.

### 1. vísa.

[Úkunni vensk[1]. Hlín[2] þó[3] [ennis gnípur[4] mínar. Ungr þorðak vel forðum [at hefjast hauka-klifs[5]. Þá er [Bergönundar foldar faldr[6] kemr í hug skaldi, verð ek bratt[7] at hvatta[8] [brúna miðstalli[9] í feld.

1) ókunnugleikinn verður að vana; eg var áður kunnugur Ásgerði, en er nú orðinn henni ókunnugur. — 2) Hlín, ein af Ásynjum (Snor. Ed., Rv. 1848, bls. 21.), hèr haft sem kvennkenning. — 3) þvoði. — 4) höfuð. — 5) hauka-klif, staður, sem haukarnir sitja á, hönd; at hefjast haukaklifs (= hefja handa, Njáls s., 43. kap.), hefja hendur sínar til einhverra stórræða, ráðast í eitthvað mikið. — 6) Bergönundr sýnist vera jötunsheiti, og getur vel verið það eptir merkingunni (= sá sem unir, býr í björgum eða hömrum, bergbúi). fold bergönundar = áss, „því jötnar áttu eptir trú manna að búa á hálendum stöðum“; faldr = gerði, „af því gerðið faldar, ɔ: girðir um ásinn. Hèr leyfir Egill sèr að setja Ásgerði fyrir Ásgerðr (bæði orðin eru eins í þolanda, ɔ: ásgerði), eins og Grettir leyfir sèr að kalla iðuna í fossinum Braga kvon, og heitir þó kona Braga ekki Iða, heldur Iðunn“ (en þegar greinirinn er settur aptan við orðið iða, verður eigandi beggja orðanna [iða og Iðunn] eins, ɔ: iðunnar). Svona skýrir Dr. Scheving þenna stað; en orð hans hefi eg þó eigi tilfært öldungis orðrètt. — 7) fljótt. — 8) hvata, stinga — 9) höfði; at hvata brúna miðstalli í feld = at drepa höfði í feld, sem var ógleðimerki.

2. vísa.

[Sorg borgar sefskuldar[1]. Ek fel sjaldan [drafnar eyvita örvífils nafn í [Narfa[2] nið-erfi[3]. [þvíat geirróta gnýþings Gautar[4] munu reifendr[5] þreifa [bragarfingrum[6] at [rógs ræsis veigum[7].

1) borgar, byrgir, hylur; sefi, hugur; sefskuld; það sem býr í huganum; sorg borgar sefskuldar, sorgin leynir því, sem í brjósti býr; dröfn, vatn; eyviti = viti = eldur; drafnar-eyviti. gull; örvívill er óljóst; það ætti að merkja þann, sem eyðir eða útbýtir; drafnar eyvita örvífill, mk.; drafnar eyvita örvífils nafn, manns-nafn. — 2) Narfi, sonur Loka Laufeyjarsonar. jötna ættar; Narfa-niðr, ættingi Narfa, jötun, Suttungur: erfi. gildi, veizla, vín, mjöður; Narfa nið-erfi = Suttungs mjöður. skáldskapur, vísa. Ek fel sjaldan drafnar eyvita örvífils nafn í Narfa nið-erfi, eg fel sjaldan mannsnafn í vísu. — 4) geirrót, spjóta hríð; geirróta gnýþing, gnýjandi hljómandi spjóta-hríðar mót, orusta; Gautr, Óðins heiti; geirróta gnýþings Gautr, mk. — 5) skoðandi, rannsakandi. — 6) með skáldskapar fingrum, með fingrum, sem rannsaka skáldskapinn. — 7) róg, orusta; ræsir, konungur; rógs ræsir, orustu-konungur. Óðinn: veig, vín; rógs ræsis veigar, Óðins vín, skáldskapur. ljóð. Efnið í vísunni er: eg fel sjaldan manns nafn í ljóðum; það kemur fyrir ekki, því menn munu rannsaka þau og finna nafnið.

## 57. Kap.

1. vísa.

[Atti horna[1] kveðr mína [þorna þornreið[2] þýborna[3]. Hann Önundr sýslir of sína síngirnd[4]. Naðhristir[5]! ek á [nistis norn[6] borna til auðs[7]. Auðkonr[8]! þigg þú greiða eiða. Þat er auðsótt.

1) sá sem etur hornunum, er mannýgur, óvirðuleg mk. — 2) þorn. þorn í hringju, er haft í kenningum sem nafn á kvennskarti; þornreið, sú sem reiðir, ber utan á sèr skart, kona; mína þorna þornreið, mína djarflyndu konu (þorna, af þorinn = djarfur. hugaður; taka mætti saman: Atti horna kveðr mína þornreið þýborna [ok] þorna [= ósvífna, er hún kallar til arfs]. — 3) fædda

af ambátt (þýr, ambátt), þrælborna. — 4) sèrplœgni, ójöfnuð. — 5) Naðr, sverðsheiti; Naðhristir, sá sem sveiflar sverði, mk. — 6) konu. — 7) borna til arfs, arfborna, arfgenga. — 8) auðmaðr.

## 2. vísa.

Arfljúgr[1] [arfi þyrnifótar[2] rèð svarfa[3] arfi fyrir mèr. Ek mœti ok heitum hótum hans. [Nærgi er[4] ek get goldit hánum, foldveringja[5], slíkt [Simla sorgar rán[6]. Vèr deildum [foldar fjöt[7].

1) sá sem lýgr til arfs, dregur arf undir sig með lygi og rangindum. — 2) Bergönundur, son þorgeirs þyrnifótar; sjá 56. kap., upphafið. — 3) kollvarpa, ónýta fyrir mèr, taka frá mèr. — 4) nærgi er gáta fyrir nær lá; nærgi er, hvenær sem. — 5) foldveringi, maður sem ver land, jarðir, búgarða. — 6) Simill eða Simlar sýnist vera nafn á manni eða mönnum, sem arfur hafi aflað sorgar; Simla sorg, sýnist þá vera = arfur, og Simla sorgar rán = arfrán. — 7) fjöt, fit, jaðar; foldar fjöt, lands jaðar, lands partur, jarðir; vèr deildum foldar fjöt, vèr deildum um lönd, jarðir. Hèr er þá að deila eitthvað haft í sömu merkingu og deila um eitthvað. þessi skýring finnst mèr eiga hèr betur við, en láta fjöt foldar merkja haf, og deila fjöt foldar, að skipta í sundur, skera (= fara yfir) sjóinn.

# 58. Kap.

## 1. vísa.

Nú hefir þróttharðr [vígelds-þrym-rögnir[1] fellda tíu þegna [várrar sveitar[2]. En ek varðak mik víti[3]. [Sára lax[4] særði þar, sendr ór hendi minni. Digr bifþorn[5] fló beint meðal bjúgra rifja Ketils.

1) vígeldr, sverð eða spjót; vígelds-þrymr, spjóta-gnýr; rögnir, sá sem hreifir (regin, hreifandi öfl; á þjóðversku regen, hreifa), vígelds þrym-rögnir = rögnir vígelds þryms, sá sem vekur spjóta-gný, hermaður, hèr konungurinn. — 2) af vorri sveit, af vorum flokki. — 3) víti, ófarir, óhöpp. — 4) spjót. — 5) þorn, sem bifast, hreifist, flýgr; spjót.

## 2. vísa.

Svá skyldu goð gjalda hánum rán míns fjár. Bönd[1]

reki gram[2] af höndum. Rögn[3] ok Óðinn sè reið. Freyr ok Njörðr! lát fólkmýgi[4] flýja [af jörðu[5]. Land-áss[6] leiðist þann [lofða stríði[7], er grandar vè[8].

1) goð. — 2) konung. — 2) regin = goð. — 4) fólkmýgir, sá sem kúgar fólkið, harðstjóri, Eiríkur blóðöx. — 5) úr landi. — 6) landguð, landvættur. — 7) lofðar, menn; lofða stríðir, sá sem stríðir mönnum = fólkmýgir. — 8) helgidómur, helgir dómar, helgir hlutir, helgir staðir.

## 59. Kap.

Land-álfr[1]! lögbrigðir[2] [hefir lagða langa vegu[3] fyrir mèr sjálfum. Brúðfang[4] blekkir [brœðra sökkva[5]. Ek á at launa Gunnhildi þenna landrekstr. Skap hennar er greypt[6]. Ungr gat ek launat læ[7] [byli granda[8].

1) = land-áss, landguð, guð sem verndar landit. Egill kallar á hann sèr til hjálpar. — 2) sá sem bregður af lögunum, brýtur lögin. Eiríkur blóðöx. — 3) ætlað mèr langa ferð, gjört mig útlægan. — 4) kvonfang, konan, Gunnhildur. — 5) sökkvi er eiginlega sá sem þreytir sund við einhvern og fœrir hann í kaf; sá sem sökkur einhverjum, fjandmaður, banamaður; brœðra sökkvi, brœðra baní; banamaður brœðra sinna, Ólafs og Sigurðar, Eiríkur blóðöx. — 6) grimmt. — 7) flærð, undirferli. — 8) með eyðileggingar byljum, með því að gjöra tjón og spellvirki.

## 60. Kap.

### 1. vísa.

Vèr sátum til[1] lengi [skarðum hlut[2] við[3] þeima[4] [lyngs fjarðölna ljósheims bör[5] (meir[6] varðak fè forðum), áðr ek lèt bensæfðan[7] Bergönund venjast benjum. Ek fèlt[8] [Börs niðjar beðju[9] blóði Hadds ok Fróða.

1) helzt til, of. — 2) að sitja yfir skörðum (= skertum) hlut fyrir einhverjum = vera hlutræningur einhvers, ná ekki rètti sínum fyrir honum. Þannig segir Ásmundur Grankelsson við Hárek úr Þjóttu: „þess kenna margir af þèr, Hárekr! at þú ert ættstórr ok ofreflismaðr við at eiga, sitja því margir yfir skörðum hlut fyrir þèr (Ólafss. helga 136. kap. í Fornm. s. IV, 331). — 3) við = gagnvart. — 4) þessum. — 5) fjarðölunn, sá sem

elst, nærist í fjörðum, í sjónum, fiskur; lyngs fjarðölunn, lyngs fiskur, ormur; lyngs fjarðölna ljósheimr, bjartur heimur eða bústaður ormsins, gull; börr, viður; lyngs fjarðölna ljósheims börr, gulls viður, mk. — 6) betur. — 7) dauðan af sárum; sæfðr = svæfður. — 8) faldaði, litaði. — 9) Börs niðr, sonur Börs, Óðinn; beðja (af beðr, sæng), eiginkona; Börs niðjar beðja, kona Óðins, jörð; ek fèlt Börs niðjar beðju blóði Hadds ok Fróða, eg (faldaði) litaði jörðina í blóði Hadds ok Fróða.

## 2. vísa.

Vèr börðumst. [Nè virðak[1] heiptir[2]. Ek rauð vígleiptr[3] blóði sonar böðmilds[4] Eiríks ok Gunnhildar. Þar fèllu nú þrettán [lagar mána þollar[5] á einum karfa. Starf[6] stendr af [styrjar skyndi[7].

1) eg virti ekki, var ekki hræddur við. — 2) heiptir Eiríks og Gunnhildar. — 3) orustu ljóma, sverð. — 4) böð, orusta; böðmildr, orustugjarn (eins og hláturmildur = hláturgjarn). — 5) lögur, sjór; lagar máni, sjóarbirta, Œgis ljós, gull; þollr, viðartegund; lagar mána þollar, gulls viðir, mk. — 6) ófriður. — 7) styrjar skyndir, sá sem flýtir styrjöld, hermaður, Egill Skallagrímsson.

## 3. vísa.

Andærr[1] [vandar jötunn[2] höggr jafnan út með [ela meitli[3] stórt þel[4] fyrir stáli[5] á [stafnkvígsveg[6]. En [svalbúinn, eirarvanr selju gandr sverfr[8] þeirri Gestils álpt[9], [óðr gustum[10] yfir stál[11] ok brandi[12].

1) andærr (myndað af and-, á móti, og ár), sá sem rær móti, rær sig áfram, ötull. — 2) vöndr, tág, grein, viður; vandar jötunn getur verið vindur; en sè vöndr tekið um mastrið, þá gæti vandar jötunn verið skipið. — 3) hvað ela meitill á að vera, er óljóst; Dr. Scheving tekur ela meitli = „með afli hviðanna eða byljanna“, og þel (skot, kima) = skarð, hlið. — 4) stórt þel, mikið, vítt haf. — 5) stál, stefni eða framstafn; fyrir stáli, fyrir framan stefnið. — 6) kvígr, uxi; stafnkvígr, skip; stafnkvígs-vegr, sjór. — 7) selja, viðartegund; gandr, úlfr, sá sem spillir eða gjörir tjón; selju-gandr, vindurinn, sem brýtur og rífur upp eikur; sval-

búinn, klæddur svölum klæðum, svalur, kaldur; eir, hlífð, vægð; eirarvanr, vægðarlaus. — 8) sverfur að, þjakar. — 9) Gestill, sækonungs-heiti; Gestils álpt, skip. — 10) óðr gustum (fyrir: áðr gustu) er gáta Sveinbjarnar Egilssonar; óðr gustum = gustóðr, ótt gjósandi. — 11) stefni. — 12) bugspjót; óðr gustum yfir stál ok brandi, er blæs ólmlega yfir framstafn og bugspjót skipsins.

## 62. Kap.

Ek em kominn á [jó ifa[1] angrbeittan[2] langan ölduveg, at vitja [atsitjanda enskrar foldar[3]. Nú hefir [sískelfir undarbliks[4] fundit sjálfan [svár-þátt Haralds áttar[5] [við yfrinn ofrhuga[6].

1) jó ifa er án efa rangt; fyrir jó ifa mætti geta jó dúfu; dúfa, alda; dúfu jór, öldu hestur, skip; eða úfi fyrir jó ifa; úfr er talinn í fuglaheitum í Eddu. Þá yrði að taka saman: á öldu-úfi = á skipi. — 2) farinn með erfiði og þrautum. — 3) atsitjandi enskrar foldar, sá sem situr á landamærum Englands (til landvarnar), Eiríkur blóðöx. — 4) und, sár; blik, leiptr, ljómi; undar-blik, sárs ljómi, sverð; sískelfir undar-bliks, sá sem sífelldlega reiðir sverðit, hermaður, Egill Skallagrímsson. — 5) svárr (á dönsku svær), þungur, sterkur; svár-þáttr Haralds áttar, sterkur þáttur ættar Haralds hárfagra, Eiríkur blóðöx. — 6) gæddan miklu hugrekki.

## 63. Kap.

## Höfuðlausn.

### 1. vísa.

Ek fór vestr of ver[1], en ek ber [Viðris mun-strandar mar[2]; svá er of mitt far[3]. Ek dró eik[4] á flot [við ísabrot[5]; ek hlóð [minnis knarrar skut[6] [mœrðar hlut[7].

1) haf. — 2) Viðrir, Óðinsheiti; mun-strönd, hugar-land, brjóst; marr, sjór, lögur; Viðris mun-strandar marr, brjóstlögur Óðins, Hnitbjarga-mjöður, skálda-mjöður, skáldskapur, kvæði; ek ber Viðris munstrandar mar, eg kem með kvæði. — 3) hagur; svá er of mitt far, svo er um hagi mína. — 4) skip. — 5) þar sem ísspengur eða ísjakar eru, á Íslandi. — 6) minnis-knörr, skip, bústaður minnisins, brjóst, hugur. — 7) með skáldskapar-hlut,

með kvæði; ek hlóð minnisknarrar skut mœrðar-hlut, eg orti drápu og lærði hana utan að.

## 2. vísa.

Hilmir[1] buðumk[2] löð[3]; þar á ek [hróðrar kvöð[4]. Ek [ber Óðins mjöð[5] á Engla bjöð[6]. [Vann lof[7] at[8] vísa[9], víst mœri[10] ek þann; biðjum[11] hann hljóðs, þvíat [of fann hróðr[12].

1) konungur. — 2) (bauð mik = bauð mèr. — 3) boð, heimboð, gisting (á þjóðversku Ladung, Einladung); hilmir buðumk löð, konungur bauð mèr gisting, eg er gestur konungs. — 4) rètt á, tilefni til að flytja konungi kvæði. — 5) flyt kvæði. — 6) land; Engla bjöð, England. — 7) eg vann (= gjörði) lofkvæði. — 8) hjá. — 9) vísi, konungur. — 10) víðfrægi (mœrr = frægur). — 11) vèr biðjum. — 12) hefi fundið, ort kvæði.

## 3. vísa.

Vísir[1] hyggi at (þat sómir vel), hvè ek [fat þylja[2], ef ek of gat[3] þögn. Flestr maðr of frá, [hvat fylkir vá[4]; en Viðrir[5] sá, hvar valr of lá.

1) konungur. — 2) gjörði þylja = orti (feta, fat, fátum, eins og geta, gat, gátum). — 3) fèkk, fengi; geta, fá; geta þögn, fá hljóð. — 4) fylkir, konungur; vá, vo, barðist; hvat fylkir vá, hversu hraustlega konungur barðist. — 5) Óðinn; Óðinn sá sjálfur bardaga hans.

## 4. vísa.

[Hjörva hlöm[1] óx við [hlífar þröm[2]. Guðr[3] óx um gram[4], gramr sótti fram. Þar heyrðist þá [málmhríðar-spá[5]. [Mækis á[6] þaut, sú er [mest of lá[7].

1) hjörr, sverð; hlöm, gnýr; hjörva-hlöm, sverða-gnýr. — 2) hlíf, skjöldur; þrömr, rönd; hlífar-þrömr, skjaldarrönd. — 3) = gunnr, orusta. — 4) konung. — 5) orustu-gnýr. — 6) mækir, sverð; mækis-á, sverðs-á, blóðstraumur. — 7) lá mjög þungt á.

## 5. vísa.

[Vefr Darraðar[1] var-at[2] [villr staðar[3] of glaðar [geir-

vangsraðar[4] grams[5], þars[6] [brimilsvöllr[7] þrumdi[8] í móði[9] í blóði[10], en und[11] um glumdi.

1) Darraðr sýnist vera Óðinsheiti; vefr Darraðar, fánar, merki. — 2) var ekki. — 3) á röngum stað. — 4) geirr, spjót; vangr, völlur; geir-vangr, spjótvöllur, vígvöllur; geirvangsraðar, vígvallar-raðir, fylkingar; merkin voru hvert á sínum stað yfir fylkingunum. — 5) gramr, konungur. — 6) þar es, þar er, þar sem. — 7) brimill, stór selur; brimils-völlr, sjór. — 8) stundi. — 9) móðr, mæði; í móði, mæðilega. — 10) í blóði, roðinn blóði. — 11) sár; að segja, að sárið glymji, finnst mèr ekki óviðkunnanlegt. Líkt er það, sem Virgilíus segir um Dídó: stridit sub pectore vulnus, Aen. IV, 689.

## 6. vísa.

[Firða fit[1] hnè við fleina[2] hnit[3]. Eiríkr of gat[4] orðstír at[5] þat.

1) firðar, menn; fit, jaðar, samföst röð (fitja, tengja saman); firða fit, manna-röð, fylking. — 2) fleinn, spjót. — 3) samrekstur, árekstur; fleina hnit, spjóta-lög. — 4) fèkk. — 5) eptir; at þat, eptir það.

## 7. vísa.

Ek mun segja fremr[1], ef firðar[2] þegja; frágum[3] fleira til þeira frama[4]. Undir[5] œstust[6] við jöfurs[7] fundi; brandar[8] brustu[9] við [blár randar[10].

1) meira. — 2) menn. — 3) vèr frèttum. — 4) frami, frægðarverk; frágum fleira til þeira frama, vèr heyrðum sagt ítarlegar frá þeim frægðarverkum. — 5) sár. — 6) jukust. — 7) jöfurr, konungur. — 8) sverð. — 9) brotnuðu. — 10) bláar randir, bláa skildi (rönd, skjöldur).

## 8. vísa.

Hryns-öðul[1] hlam[2] við hjálmröðul[3]; bengrefill[4] beit, þat var blóðrefill[5]. Ek frá, at [Óðins eiki[6] fèlli í járnleiki[7] fyrir [fetils svelli[8].

1) öðull, örlátur; hryn, glamur; hryns-öðul, sú sem er örlát á glamri, brynja. — 2) glumdi, glamraði. — 3) röðull, sól; hjálmröðull, hjálmsól, hjálmeldur, sverð. — ben, sár; ben-

grefill, sá sem grefur, veitir sár. — 5) sverðsoddur. — 6) eiki, (margar) eikur, trè; Óðins eiki, eikur Óðins, hermenn. — 7) orusta. — 8) fetill, ól, sem annaðhvort skjöldurinn hèkk í (skjaldarfetill) eða sverðið (sverðfetill); fetils svell, sverð.

## 9. vísa.

Þá var [odda at[1] ok eggja gnat[2]. Eiríkr of gat[3] orðstír [at þat[4].

1) spjóta-lög. — 2) glamur. — 3) fèkk. — 4) eptir það.

## 10. vísa.

Hilmir[1] rauð hjör[2], þar var [hrafna gjör[3], fleinn[4] hitti fjör, dreyrug[5] spjör[6] flugu. [Skota fárbjóðr[7] ól [flagðs gota[8]; [Nara nipt[9] trað [náttverð ara[10].

1) konungur. — 2) hjörr, sverð. — 3) hrafna samsöfnuður, hrafna fjöldi. — 4) spjót. — 5) blóðug. — 6) spjör, spjót (á þjóðversku Speer; á latínu sparus). — 7) fár, háski, tjón; fárbjóðr, sá sem býður, gjörir tjón; fárbjóðr Skota, fjandmaður Skota, Eiríkur blóðöx. — 8) flagð, tröllkona; goti, hestur; flagðs-goti, tröllkonu-hestur, úlfur (tröllkonan Hyrrokkin reið vargi og hafði höggorma að taumum, Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 37. bls.); ala flagðs-gota, ala úlfinn, veita úlfum fæðu = vega marga menn. — 9) Nari, sonur Loka, Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 18. bls.; nipt, systir; nipt Nara, systir Nara, Hel, dauða-gyðjan. — 10) ari (á þjóðversku Aar), örn; náttverðr ara, fæða arnarins, hræ. Egill ímyndar sèr, að Hel troði valinn, líkt og Hómer lætur dauðagyðjuna (Κήρ) vaða um valinn og draga náina eptir sèr (Il. 18, 535).

## 11. vísa.

Hjaldr-tranar[1] flugu of hræs lanar[2]; benmás[3] granar váru-t[4] [blóðs vanar[5]. Freki[6] sleit und[7], en oddbreki[8] gnúði hrafni á höfuðstafni[9].

1) hjaldr, orusta; trani = trana; hjaldr-tranar, orustufuglar, hræfuglar. — 2) lanir; hræs lanar, valkestir. — 3) benmár, sára már, hræfugl, hrafn. — 4) voru ekki. — 5) blóðlausar, óblóðugar; váru-t blóðs vanar, voru vættar, roðnar blóði. — 6) úlfr. — 7) sár. — 8) breki, boði (brotin alda; sbr. á dönsku

brække; á þjóðversku brechen = brjóta); oddbreki, oddaboði, blóðstraumur. — 9) höfuðstafn, endi höfuðsins, hnakki; blóðið spýttist á hnakka hrafninum, þegar hann var að höggva náinn.

12. vísa.

[Gríðar læ[1] kom á [Gjálpar skæ[2]. Eiríkr bauð úlfum hræ of sæ.

1) gríðr, öx; læ, lá, lögur; gríðar læ, axar-lögur, blóð. — 2) Gjálp, tröllkona; skær, hestur; Gjálpar-skær, tröllkonu-hestur, úlfur.

13. vísa.

Floginn[1] fleinn[2] beit, þá var friðr loginn[3]; álmr[4] var dreginn, því varð úlfr feginn. Broddar brustu, en oddar bitu. Hörvar[5] báru örvar af bogum.

1) sem flogið hefir, sem fleygt er. — 2) spjót. — 3) rofinn, slitinn. — 4) bogi. — 5) hörvar (fleirtalan af hörr, hör), bogastrengir.

14. vísa.

Hjörleiks hvati[1] verpr[2] broddfleti[3] með baugseti[4], hann er blóðskati[5]. Þróast[6] hèr sem hvar. Ek mæli þar hugat[7]. Frètt er austr um mar[8] [of far[9] Eiríks.

1) hjörr, sverð; hjörleikr, sverðleikur, orusta; hjörleiks hvati, sá sem hvatar, flýtir orustu, hermaður. — 2) sveiflar. — 3) broddflötr, flötur sá, sem spjótin lenda á, skjöldur. Dr. Scheving vill taka broddflötr = flatsleginn broddur, og verpa = kasta. — 4) baugset, baugsæti, hringsæti, hönd. — 5) ör á blóði, hraustur í orustu. — 6) Eiríkur vex, aflar sèr frægðar. — 7) af einlægni, smjaðurlaust; þar, þar um, um það. — 8) haf; austr um mar, austur til Noregs. — 9) um hagi, um orustur Eiríks og hreysti hans.

15. vísa.

Jöfurr[1] sveigði ý[2], unda[3] bý[4] flugu. Eiríkr bauð úlfum hræ of sæ.

1) konungur. — 2) ýr, bogi. — 3) und, sár. — 4) bý, býflugur; unda bý, sára býflugur, örvar.

16. vísa.

Ek mun enn vilja skilja skapleik[1] skata[2] frá verjum[3].

Skal hvata[4] mœrð[5]. [Saka snót lætr sverðfrey[6] vaka[7], [en skíðgarð Haka skæs braka[8].

1) lunderni, lundarlag. — 2) skati, örlátur, stórgjöfull maður. — 3) verr, maður; frá verjum, frá öðrum mönnum. — 4) flýta. — 5) skáldskap, kvæði. — 6) sverðfreyr, hermaður, Eiríkur blóðöx. — 7) snót, kona; snót saka, kona sú, er kemur til leiðar vígsökum, Hildur Högnadóttir. Egill kallar hana saka snót, af því hún var orsök í fjandskap Högna og Heðins (Snorra-Edda, Reykjav. 1848, 89. bls.) og hèlt við ófriðnum með því að vekja upp hina dauðu á nóttunni. Bragi gamli kallar hana og hina böls of-fylldu hristi-Sif hringa (Snorra-Edda, Reykjav. 1848, 90. bls.). Hildr er hèr = orusta; saka snót lætr sverðfrey vaka, orustan heldur vöku fyrir hermanninum; hann er vakinn og sofinn við orustur. — 8) Haki, sækonungs-heiti; skær, hestur; Haka-skær, sækonungs-hestur, skip; skíðgarðr, garður úr skíðum, trjágarður; Haka skæs skíðgarðr, trjágarður skips = skildir, því skip voru sköruð skjöldum; að láta skildina braka = láta skot og lög dynja á skjöldunum.

## 17. vísa.

[Bjóðr hrammþvita[1] brýtr bógvita[2]. Hring-brjótr[3] mun-a[4] lofa hodd-dofa[5]. Glaðar[6] flotna[7] fjöld[8] við [Fróða mjöld[9]. Haukstrandar[10] möl[11] er hilmi[12] mjök föl.

1) hrammr, hönd; þviti, steinn; hramm-þviti, handar-steinn, steinn sem menn bera á höndum sèr, gimsteinn; bjóðr, sá sem býður; bjóðr hramm-þvita, sá sem býður, gefur gimsteina, örlátur maður. — 2) bógr, armleggur; viti, eldur; bóg-viti, armleggs-eldur, gull; brjóta bógvita, skipta, útbýta gulli. — 3) sá sem brýtur hringa, skiptir gulli meðal manna sinna, örlátur konungur. — 4) mun ekki. — 5) hoddar, fjársjóðir, auðæfi, gull; hodd-dofi, sparnaður á fè, nízka. — 6) gleður. — 7) manna. — 8) fjölda. — 9) mjöldr = meldr = mèl; Fróða-mjöldr, Fróða mjöl, gull (Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 78. bls.). — 10) haukströnd, haukland, hauksæti, hönd; haukstrandar-möl, handar-steinar, gimsteinar (eða eptir Eddu: gull eða silfur. „En hvárttveggja, silfr ok gull, má vera grjót handar", Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 84. bls.) — 12) hilmir, konungur.

### 18. vísa.

Fólk stóðst eigi fyrir fjörleygi[1]. Ý-bogi[2] gall at eggtogi[3]. [Verpr æ bröndum[4], en jöfurr[5] heldr löndum hornklofi[6]. [Hann er næstr lofi[7].

1) leygr, eldur; fjör, líf; fjörleygr, eyðir lífsins, vopn, sverð. — 2) ý-bogi, bogi úr þeirri viðartegund, sem kallast ýr. — 3) eggtog, eggja-dráttur, dráttur sverðsins úr slíðrum; eða sveiflun þess; at eggtogi, þar sem sverðum var brugðið eða sverð voru reidd. — 4) verpr æ bröndum, spjótum er jafnan kastað. — 5) konungur. — 6) hornklof heldr Dr. Scheving sè klof það, er hyrning húss myndar að innanverðu, og meiningin geti þá verið þessi: „konungurinn heldur þeim löndum, sem hann hefir til yfirráða, eins og í hornklofi, ɔ: hann lætur þau eigi ganga undan sèr, heldur þeim eins og í ríghaldi“. — 7) hann er hins mesta lofs verður.

### 19. vísa.

Jöfurr[1] hyggi at, hvè ek [fat yrkja[2]. Þat þóttumk[3] gott, er ek of gat þögn. Ek hrœrða [Óðins œgi[4] munni[5] af [munar grunni[6] á jöru-fægi[7].

1) konungur. — 2) gjörði yrkja = orti. — 3) þótti mèr. — 4) Œgir, sæguð, sjór, lögur, mjöður; Óðins œgir, Óðins mjöður, skáldskapur, kvæði. — 5) með munni. — 6) munr, hugur; munargrunnr, hugar-grunnur, minni. — 7) jara, orusta (errinn, orustugjarn); jöru-fægir, sá sem fágar, iðkar orustuna, herkonungur, herstjóri. Ek hrœrða Óðins œgi munni af munargrunni á jörufægi, eg færði konungi kvæði, sem eg las upp eptir minni mínu.

### 20. vísa.

Ek bar þengils[1] lof [á þagnar-rof[2]. Ek kann [mála mjöt[3] of[4] [manna sjöt[5]. Ek ber hróðr[6] fyrir gram[7] ór [hlátra ham[8]. Þat fór svá fram, at flestr of nam[9].

1) konungs; þengill gæti verið = þingill, sá sem heldur þing, mót, fundi, þ. e. konungur. — 2) í rofi þagnarinnar, ɔ: meðan eg rauf þögnina, tók til máls. — 3) mjöt (kvennkennt orð, líklega myndað af sama stofni og meta, eins og gjöf af sama stofni og gefa), virðing, verðlegging; ek kann mála mjöt, eg kann að meta orð mín, sjá, hver orð bezt eiga við, haga orðum mínum. — 4) um.

— 5) sjöt, sæti, samsæti, söfnuður, fjöldi. — 6) kvæði. — 7) gramr, konungur. — 8) hlátra-hamr, bústaður hlátursins, gleðinnar, brjóst. Ek ber hróðr fyrir gram ór hlátra-ham, eg færi konungi kvæði, sem eg les upp eptir minni mínu. — 9) af þessum stað sèst, að hirðin, eða þeir, sem við voru staddir, þegar kvæðið var flutt, lærði það utan að.

## 21. Kap.

(Eiríkr) njóti svá bauga[1], sem Bragi[2] auga, [vagna vara[3], eðr viti[4] tara[5].

1) auðæfa; Snorri Sturluson endar Háttatal á sama hátt; hann óskar þar Hákoni Hákonarsyni og Skúla jarli, að þeir njóti langra lífdaga og auðs: „Njóti aldrs ok auðsala konungr ok jarl, þat eru kvæðislok". — 2) Bragi er einn af Ásum (Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 17. bls.), en það var eigi Bragi, heldur Óðinn, sem lagði auga sitt að veði til þess að mega drekka einn drykk úr Mímisbrunni, er spekt og mannvit var í fólgið (Snorra-Edda, Reykjav. 1848, 10. bls.). Menn hafa skýrt þenna stað með því að segja, að Bragi sè hèr settur fyrir Óðinn, og að þannig megi setja nafn eins Áss í stað annars; líklegt er, að hèr hafi upprunalega staðið eitthvert Óðinsheiti, t. d. Brúni. — 3) vagna, eins konar hvalfiskur. — 4) vör er nú rudd kví í fjöru, þar sem skip eru sett upp; hèr = sjór, eins og ver; hvalurinn nýtur sjóarins að því leyti sem hann lifir í honum. — 5) hrafn (í Kmh.-útgáfunni stendur vili, sem líklega er prentvilla). — 5) tara, orusta; hrafninn nýtur bardaganna, því þeir veita honum fæðu.

## 64. Kap.

### 1. vísa.

Erumk-a[1] leitt, at þiggja [hjálma klett[2] af hilmi[3], þó at ljótr sè. Hvar er sá, [at gat[4] æðri gjöf af göfuglyndum alvalds[5] syni?

1) mèr er ekki. — 2) hjálmsæti, höfuð. — 3) konungi. — 4) sem fèkk. — 5) konungs.

### 2. vísa.

Sannspár [hugins vára magnaðr[1] lèt Egil fagna [svartbrúnum sjónum[2]. [Hugr mága tjáðumk mjök[3]. Ek kná[4],

nú sem áðan, ráða áttgöfguðum[5] [Ála hattar arfstóli[6] fyrir ragnaðar[7] regni[8].

1) huginn, hrafn; várar, eiðar, sáttmálar; magnaðr, sá sem styrkir, eflir; hugins vára magnaðr, sá sem heldur loforð sín við hrafninn, gefur honum fæðu, eins og hann hefir lofað, hermaður, Eiríkur blóðöx. Dr. Scheving vill taka saman: sannmagnaðr varaspár [ɔ: vonarspár, vara af sömu rót og mig varir] hugins [nl. um bráðarfeng]. — 2) svartbrúnn = svartbrýnn, sá sem hefir svartar brýr; sjónir, augu; svartbrúnar sjónir, augu með svörtum brúnum; lèt Egil fagna svartbrúnum sjónum. gaf Agli höfuð sitt, lèt hann halda lífinu. — 3) hugr, velvilji; mágar, tengdamenn, ɔ: Arinbjörn; tjáðumk, tjáði mèr, hjálpaði mèr. — 4) má, get. — 5) ættgöfugum. — 6) Áli, sækonungur, herkonungur; höttr, hattur; Ála hattr, hjálmur; hattar-stóll, sæti hattarins, höfuð; Ála hattar arf-stóll, höfuð, sem maður hefir tekið í arf. Egill hefir tekið höfuðið í arf, að því leyti sem hann er svipaður forfeðrum sínum; ráða Ála hattar arfstóli, ráða höfði sínu, halda lífi, lifa. — 7) ragnaðr, virðist vera af sama stofni og hið þjóðverska regen = hreifa; ragnaðr, hreifandi, stjórnandi, konungur. — 8) regn, máttur (regin, öfl, goð); ragnaðar-regn, konungsvald.

## 67. Kap.

### 1. vísa.

Hin ljóta reiði landbeiðaðar[1] urðumk[2] leið. Gaukr sígr-at[3], ef (hann) veit [glamma gamm[4] þramma of sik. Þar naut ek, enn sem optar, Arnstalls-sjötul-bjarnar[5]. Sá hnígr-at[6] hjallr[7], er gjálpar[8] holla hjálpendr of för.

1) landbeiðaðr, sá sem beiðir, krefur landa, gjörir tilkall til landa, konungur. — 2) varð mèr. — 3) sígur eigi, fellur eigi. — 4) glamma gammr sýnist eiga að tákna einhvern fugl, sem ver gaukinn fyrir árásum annara fugla, eins og Arinbjörn varði Egil fyrir Eiríki og Gunnhildi. — 5) sjötull, sæti; arnstalls-sjötull = sjötulstallr arnar; sjötulstallr, setstallur; setstallr arnar, hamar, klettur, steinn = arinn; Arnstalls-sjötul-björn = Arinbjörn. — 6) hnígur eigi. — 7) hjallr hlýtur að vera rangt; geta mætti allr eða hallr; hnígr-at allr, hnígur eigi með öllu, verður eigi með

öllu yfirbugaður eða hnígr-at hallr, fer eigi halloka. — 8) Skólakennari H. Friðriksson heldur, að gjálpar sè sögn (verbum), og þykir mèr það sennilegt. Hið engilsaxneska orð gilpan merkir að raupa, hœla sèr. Sá er gjálpar holla hjálpendr of för er þá = sá sem getur hrósað sèr af því (hefir því láni að fagna), að hafa holla hjálparmenn í för með sèr.

## 2. vísa.

Friðgeiri er-a[1] fœri at heyja örlygi[2] við þann [Göndlar-el-hvötuð[3], er bítr skjöld [á baugi[4] ok blótar bönd[5]. Sörvar[6]! förum [á vit móts[7]. Skulum mjök banna manni mey. Œgir[8] skýtr alfeigum augum.

1) er eigi. — 2) örlygi (á dönsku Orlog), orusta. — 3) Göndul, Valkyrjuheiti; Göndlar-el, Valkyrju-el, orusta; hvötuðr, sá sem flýtir einhverju; Göndlar-el-hvötuðr = hvötuðr Göndlar-els, sá sem flýtir orustu, hermaður. — 4) í röndina; bítr skjöld á baugi = gnagar skjaldarrendur, eins og berserkjum var títt. — 5) goð; blótar bönd, göfgar og heitir á guðina til fulltingis sèr. — 6) menn. — 7) á vit móts = til móts. — 8) maður, sem ógnar öðrum, ógurlegur maður.

## 3. vísa.

Er-at[1] rètt at synja Ljóti lítillar bœnar. Ek leik við bleikan hal[2] við[3] [brynju bifteini[4]. Búumst[5] til vígs, en ek lætk-a[6] hánum vægðar-ván; skæru-drengr[7]! (vèr) verðum [skapa skildi[8] á Mœri.

1) ekki er. — 2) mann. — 3) með. — 4) bif-teinn, teinn, sem bifast, teinn, sem sveiflað er: brynju-bifteinn, liðugur brynjuteinn, sverð. — 5) eg býst. — 6) læt ekki. — 7) skærur, óspektir; skæru-drengr, óróa-seggur. — 8) skapa, laga, skera, höggva; skapa skildi, höggva skildi, berjast.

## 3. vísa.

Höggvum skyggðum hjaltvönd[1]. Hœfum rand[2] með brandi[3]. Reynum [randar mána[4]. Rjóðum sverð í blóði. Stýfum Ljót af lífi. Leikum sárt við bleikan hal[5]. Kyrrum errinn kappa járnum[6]. Komi arn[7] á hræ.

1) hjaltvöndr, sverð. — 2) rand = rönd, skjöldur. — 3) sverði. — 4) skjaldar birtu, sverð. — 5) mann. — 6) með járnum, með vopnum. — 7) örn.

3. vísa.

[Fura flein-stökkvandi[1]! mèr þykkir happlauss kappi fara nökkvat[2] fyrir. [Hodda beiðir[3] hræðist. Sá [flein-döggvar stafr[4], er frestar höggum, vegr-at[5] fast. Vá-beyðan[6] ferr víðan vall[7] fyrir [rotnum skalla[8].

1) furr, eldur; fleinn, spjót; flein-furr, spjóteldur, gull (sverð og spjót voru gullbúin og gullrekin); fura flein-stökkvandi = stökkvandi flein-fura, sá sem útbýtir og eyðir gulli, mk. — 2) nokkuð; fara fyrir, hopa á hæl. — 3) hoddar, fè, gull; hodda-beiðir, sá sem sækist eptir auðæfum, mk., ɔ: Ljótur. — 4) fleindögg, spjótaregn, orusta; fleindöggvar-stafr, spjótaregns-viður, mk. — 5) vegur eigi, berst eigi. — 6) vábeyða (hlutur eða maður), sem býður tjón, hótar illu (vá, vo, hætta, skaði, ógæfa; beyða er myndað af þátíðinni bauð). þetta orð hefir sömu merkingu í Eyrbyggja-sögu, 63. kap. 318. bls.: gerit svá vel ok skerit vábeyðu þessa. — 7) völl. — 8) fyrir Egli Skallagrímssyni, sem var sköllóttur.

4. vísa.

Sá úlfgrennir[1] fèll, er unnit hefir flest hit illa. Skáld[2] hjó fót af Ljóti. Veittak[3] Friðgeiri eir[4]. [Sèk-a ek[5] í móti [lóns logbrjótanda[6] til launa. Mèr var [jafnt gamanleik[7] við bleikan hal[8] í [geira gný[9].

1) grenna, seðja; úlfgrennir, sá sem seður úlfinn, mk. — 2) Egill. — 3) eg veitti. — 4) frið, ró. — 5) eg sè ekki; sèka ek til launa, eg lít ekki á laun, vonast ekki eptir launum. — 6) lón, stöðuvatn, sem er áfast við sjóinn, en er minna en hóp; lóns-log, Œgis-eldur, gull; lóns-log-brjótandi = brjótandi lóns logs, gullbrjótandi, mk. — 7) eins og gamanleikur (gamanleik er getgáta fyrir gamanleikr). — 8) mann. — 9) geirr, spjót, geira-gnýr, spjóta-gnýr, bardagi.

68. Kap.

Blár Dragvandill[1], sá er brugðum, beit-at[2] nú randir[3],

af því at Atli hinn skammi deyfði eggjar fram[4]. Ek neytta afls við örmálgastan [hjörva ýti[5]. Ek lèt jaxlbræðr[6] eyða[7]. Ek bar sauð[8] með nauðum.

1) Dragvandill, sverðsheiti. — 2) beit ekki. — 3) randir, skildir; beit-at randir, beit ekki á skildina. — 4) að framanverðu. — 5) ýtir, sá sem lætur eitthvað fara út frá sèr; hjörr, sverð; ýtir hjörva, sá sem beitir sverði, bardagamaður. — 6) jaxlbróðir, tönn. — 7) eyða honum, drepa hann. — 8) sauðr kynni að vera sverðsheiti, og þá væri meiningin: eg bar sverðið með nauðum, hafði ekkert gagn af sverðinu, af því það beit ekki. En eg er hræddur um, að orðin: „ek bar sauð", sèu röng, og í stað þeirra hafi upprunalega staðið eitthvert orð, sem hafi táknað það, er Egill segist hafa látið tönnina eyða.

## 70. Kap.

Drengr lèt sjálfráði[1] fengit greppi[2] gullknappaðar silki-slœður. Ek get[3] aldri[4] betra vin. Arinbjörn hefir árnat[5] eirarlaust[6] [oddvita ríki[7], eða meira. Slíkr seggr[8] man síð[9] of fœðast.

1) af frjálsum vilja, ótilkvaddur, óbeðinn. — 2) skáldi, Egli. — 3) fæ. — 4) aldrei. — 5) hefir með dugnaði sínum unnið til (þess að vera hersir). — 6) vægðarlaust, með því að hlífa ekki sjálfum sèr. 7) hersis-tign — 8) maður. — 9) seint.

## 74. Kap.

### 1. vísa.

Því sendi móðir mín mik til fundar við þik, ok bera Agli orð, at þèr skyldit varir. [Hildr horna[1] mælti þat: „haga þú svá maga, [gestir órir eigu œðri nest á frestum"[2].

1) horn eru hèr drykkjarhorn; við þau eru konur kenndar; Hildr horna, kona. — 2) gestir vorir eiga betri mat í vændum.

### 2. vísa.

Erumk[1] títt at [vátta verð[2]; þín kinna-lá[3] berr þung[4] vætti[5], at ek [hætta til þessar minnar göngu[6]. Margr gestr velr gjald[7], þar er gistir. Vit finnumst sjaldan. Öldra-dregg[8] liggr Ármóði œðra[9] í skeggi.

1) mèr er. — 2) verðr, máltíð, beini; vátta verð, bera vitni um þann beina, er mèr hefir verið veittur. — 3) lá, sjór; Egill kallar kinna-sjó eða kinna-lög Ármóðs spýju þá, er hann spjó í skegg honum. — 4) mikilvæg. — 5) vitni. — 6) lagði mig í hættu, þegar eg fór þessa ferð. — 7) endurgjald, borgun. — 8) öldur, öl; öldra-dregg, öldregg. — 9) hærra, í hærra lagi, nokkuð hátt.

### 3. vísa.

Drekkum ór hvert full[1], þó at [Ekkils eyk-ríðr[2] beri [bragar Ulli[3] tíðum hornasund[4] at hendi. Ek leifi vætr[5] horn[6], þó at [laufa-leik-stœrir[7] fœri mèr [hrosta-tjörn[8] í horni til dags at morni[9].

1) staup. — 2) Ekkill, sækonungur; eykr, akdýr, hestur; Ekkils-eykr, sækonungshestur, skip; Ekkils eyk-ríðr, sá sem ríður sækonungshesti, siglingamaður, mk. — 3) bragr, skáldskapur; Ullr, einn af Ásum; bragar Ullr, skáld, Egill Skallagrímsson. — 4) hornasund, drykkjar-horna lögur, drykkur. — 5) ekki. — 6) ek leifi vætr horn, eg leifi ekki horn, læt ekkert horn ódrukkit. — 7) laufi, sverð; laufa-leikr, orusta; stœrir, sá sem gjörir stœrra, eykur; laufa-leik-stœrir = stœrir laufa-leiks, sá sem eykr, heyr orustu, mk. — 8) hrosti (á dönsku Roste, sbr. Rostekar), áhöld til að sía öl með; hrosta-tjörn, hrosta-lögur, öl. — 9) þangað til í dögun á morgun.

## 75. Kap.

### 1. vísa.

Illhugaðr [arm-linns ýtir[1] nýtr konu sinnar ok dóttur. Oss er óttalaust við [ógnar-hvessi[2]. Muntu[3] þeygi[4] þykkjast verðr (at) [hlíta svá gjörvu[5] við þenna grepp[6]. Skulum vappa vítt á veg.

1) armr, handleggur; linnr, ormur; armlinnr, handleggjar-ormur, armhringur; armhringurinn er án efa kallaður handleggjar-ormur, af því hann vefst eins og ormur um handlegginn; arm-linns ýtir, mk. — 2) ógn, orusta; ógnar-hvessir, sá sem gjörir orustuna hvassa, sá sem á snarpa orustu, mk. — 3) þú munt. — 4) þó eigi. — 5) hlíta, láta sèr nœgja, vera ánœgður með; hlíta svá gjörvu, vilja hafa þetta svo búið. — 6) skáld, Egil Skallagrímsson.

2. vísa.

Maðr skal-at[1] rísta rúnar, nema (hann) kunni vel ráða. Þat verðr mörgum manni, at (hann) villist um myrkvan staf. Ek sá tíu launstafi ristna á telgdu tálkni. Þat hefir of fengit [lauka lindi[2] langs trega[3].

1) skal ekki. — 2) lind, linditrè; lauka-lind, kona. Konur eru kenndar við viðarheiti kvennkennd, og matföng eða ölföng, sem þær búa til eða bera á borð. Laukr er hèr skoðaður sem rèttur og kona því kennd við hann. Vera má og, að það hafi verið kvennfólks-starf, að rækta og hirða um laukagarða. — 3) sorgar.

76. Kap.

Veiztu, ef ek fer með fjóra, fær-at-tu[1] sex, þá er vexli roðnum [hlífa-hneitiknífum hjaldr-goðs[2] við mik. En ef ek em með átta, eru-t[3] þeir tólf, er skelfi mèr svartbrúnum[4] [hjarta at samtogi sverða[5].

1) þá fær þú ekki. — 2) hneitiknífr hlífa, hnífur, sem sker hlífarnar; hjaldr-goð, orustu-guð, Óðinn; hlífa-hneitiknífr hjaldr-goðs, hnífur orustuguðsins, sem sker hlífarnar; sverð; vexla, víxla; vexla hlífa-hneitiknífum hjaldr-goðs við (einhvern) = berjast við (einhvern). — 3) þá eru ekki, — 4) svartbrúnn, sá sem hefir svartar brýr. — 5) þegar mörgum sverðum er brugðið eða sveiflað undir eins, í orustu.

## Skýring á Sonatorreki

eptir

*Dr. S. Egilsson.*

(Textinn eins og hann er í Kaupmh.-útgáfunni 1809).

1. vísa.

Mjök erum[1] tregt at hræra tungu eðr loptvægi ljóðpundara[2]. Nú er-a vænligt um [Viðris þýfi[3], nè högdrægt úr hugar fylskni[4].

1) er mèr. — 2) loptvægi ljóðpundara, held eg sè andi (þ. e. andardráttur), og leysi svo kenninguna: ljóðpundari, pundari eða reizla hljóðsins, held eg sè barkinn, en loptvægi (þ. e.

loptþúngi) barkans, andinn, sem maðar dregur. Meiníng: mèr veitir ervitt að hræra túnguna og draga andann, þ. e. eg kem ekki upp neinu orði, og ekki neinu hljóði. — 3) stuldur Óðins (= kveðskapur), því Óðinn stalst að miðinum dýra; s. s. það er ekki efnilegt með kveðskap núna. — 4) fylskni hugarins er ekki, eptir nýrri heimspekínga hugsun, djúp sálarinnar, heldur er það sjálfkenníng = brjóst, svo sem bústaður allra mannsins tilfinnínga og hugsana, rètt mótlíka og στῆθος og φρένες hjá Grikkjum; sbr. II. 3.

## 2. vísa.

[Þagnafundr Þriggja niðja[1], [ár borinn úr Jötunheimum[2], er-a *auðþeyst[3] úr hyggju stað[4]; höfugligr ekki veldr því at[5].

1) skáldskapar-kenníng, uppleyst: þagna (eig. mt. af þögn) fundr, það sem maður fær í laumi, þ. e. stolið fè, stolinn gripur; Þriggi, Óðinn; Þriggja niðjar, frændur eða ættmenn Óðins = Æsir, en stolinn gripur Ása (sem Æsir áttu) er mjöðurinn dýri, sem Óðinn stal frá Suttúngi og gaf Ásum. — 2) sem forðum (ár) var fluttur (af Óðni) úr Jötunheimum (frá Hnitbjörgum). — 3) getgáta Gunnars Pálssonar; eg álít, að hèr vanti notam nominativi (r), = auðþeystr. Bækurnar hafa andþeyst, en n og u eru mjög lík í þeim. Meiníngin er sama sem síðast í I. erindi. Auðþeystr = hógdrægr (I. er.), af at þeysa, reka af stað (Egill þeysti upp úr sèr spýju mikla, kap. 74.). — 4) = hugar fylskni, I. 4. — 5) þetta er meðalsett málsgrein (parenthesis); at er hèr að merkíngu of aukið (= ὅτι?), eins og opt er, þ. e. höfugligr ekki (þúng sorg) veldr því (nl. að eg get eingum kveðskap við komið).

## 3. vísa.

Er (ɔ: þegar) lastalauss Bragi lifnaði[1] á nökkva Nökkvers[2]. (Undir háls[3] jötuns þjóta [niðr fyrir naustdyrum náins)[4].

1) lifnaði er í óeiginlegri merkíng, = varð frægur; ɔ: Bragi varð frægur af skáldskap með Ásum, þegar Óðinn hafði náð mið-

*) Eg hefi hèr tekið upp í textann: auðþeystr, eptir gátu Gunnars Pálssonar: auðþeyst. J. Þ.

inum dýra frá jötnum, en þar á undan hafði sú íþrótt tíðkazt með dvergum. — 2) nökkvi Nökkvers, skip dvergs, skáldskapur. Nökkver kemur hvergi fyrir sem dvergsheiti, en er hèr þó líklega haft um dvergana Fjalar og Galar, (af nökkvi, bátur, frakkn. nacelle). — 3) undir háls (eig.) jötuns = Ýmis blóð, þ. e. sjór; und hèr = blóð; hálsblóð Ýmis, Egill hefir ímyndað sèr, að Börssynir hafi skorið Ými á háls. — 4) niðri fyrir framan haug Skallagríms. Náinn, nákominn ættíngi, frændi; hèr = faðir; naust, nausthús; hèr = hús, bústaður; naust náins, hús föðursins, er þá haugur Skallagríms, þar sem Böðvar var leiddur. — Þetta er meðalsett málsgrein. Egill þykist heyra brimhljóðið út í Digranesi hjá haugi Skallagríms, þar sem Böðvar var heygður, og þessi ímyndun ýfir upp hjá honum sorgina og endurminníngu um dauða sonar síns.

## 4. vísa.

Því at ætt mín stendr á enda[1], sem hræbarnar[2] [hlimar marka[3]. Er-a kaskr[4] maðr, sá er ber [kögla frænda[5] niðr af fletjum hræs[6].

1) Egill hafði mist föður og móður, bróður sinn Þórólf og tvo eldri sonu sína, og átti nú ekki eptir á lífi nema 1 son, Þorstein, (á að gizka 8 vetra*); en 2 dætur, sem voru eldri, Þorgerður og Bera, voru þá giptar. — 2) lam-barnar, lúbarnar. — 3) limar, skógarlimar. — 4) glaður. — 5) bein ættmanna sinna. — 6) hræ = lík, dauður líkami, í þessari merkíngu = núverandi hræ; flet hræs, sá staður, sem dauðs manns lík liggur á. Meiníngin: sá maður er ekki glaður, sem ber lík ættmanns (sonar) síns til moldar. Egill mátti grómt um tala, því sagan segir, að hann hafi tekið upp lík Böðvars, þar sem það var rekið af sjó, og sett það í knè sèr, og riðið með það frá Einarsnesi og út til Digraness.

## 5. vísa.

Þó mun ek um telja fyrst mitt föðurfall ok hrer

*) Eptir ágizkun Guðbrandar Vigfússonar í „Safni til sögu Íslands“ hefir Þorsteinn þá verið 15 vetra. Ártölunum hjá G. Vigfússyni og S. Egilssyni ber ekki saman, og mega menn eigi furða sig á því, þar eð báðir hafa að nokkru leyti byggt tímatalið á tilgátum. J. Þ.

móður[1]. Þat mærðar timbr[2], laufgat máli[3], ber ek út úr orðhofi[4].

1) þó ek hafi mist marga ættmenn, er mèr þó minnisstæðastur föður og móðurmissirinn; mitt föðurfall, fall, dauði föður míns; hrer móður, lík móðurinnar, hèr = lát hennar. — 2) hèr = efniviður; mærðar timbr, yrkisefni. — 3) prýdt með orðum. Líkíngin mun vera dregin af laufguðum skógarvið, sem bóndi ber út úr skemmu sinni og ætlar að fara að smíða úr eitthvert amboð. þat mærðar timbr held eg svari til IV. er., 1. og 2. vísuorðs, svo meiníngin sè bara: þenna ættmanna missi fer eg nú að kveða um með skáldskaparskrúði. — 4) orðhof, hús orða, munnur.

## 6. vísa.

Grimmt var um hlið[1], þat er hrönn[2] um braut [á frændgarði föður míns[3]. Ek veit sonar[4] skarð, er mèr sjárr um vann, standa ófullt[5] ok opit.

1) skarð. — 2) sjórinn (eiginlega Hrönn, Ægis dóttir). — 3) á föðurætt minni. — 4) Böðvars. — 5) = ófylt, autt.

## 7. vísa.

Rán hefir mjök ryskt[1] um mik; ek em of snauðr at ástvinum. Marr[2] sleit bönd ættar minnar; snaran þátt af sjálfum mèr[3].

1) Rán hefir tekið hart á mèr, tekið ofan í bakið á mèr, eða í lurginn á mèr; ryskja er án efa það danska ruske. — 2) sjór. — 3) son sinn, sem hann misti, kallar hann einn þátt í ættinni, snúinn af sjálfum honum.

## 8. vísa.

Veiztu[1], ef of ræka'g[2] sverði um þá sök, var[3] ölsmið[4] allra tíma[5]. Ef ek mætta um vega bræðr vâgs roða[6], færa eg[7] andvígr[8] Ægis mani[9].

1) ɔ: þú veizt = það er auðvitað. — 2) ef eg gæti rekið (hefnt) um þá sök (þess hlutar ɔ: sonardauðans) með sverði. — 3) framsöguháttur þátíðar fyrir afleiðíngarhátt þátíðar, eða afleiðíngarhátt þáliðinnar tíðar, sjá Fornm. S. IV. 66 í XII. bindi. — 4) Ægi, sjóarguðnum, sem bjó Ásum öl, sjá Snorra-Eddu. — 5) allra tíma, genit. descriptivus

með sögninni að vera; tími, hèr hamíngja, (eins og optar tíð í eint.), og eins í margtölu; allr, hèr sá sem er uppgeinginn og ekkert eptir af, þ. e. þrotinn, og allir tímar, þrotin hamíngja, hamíngjuleysi; þess vegna, að vera allra tíma, að vera hamíngjulaus. Meiníngin er þá: ef eg gæti hefnt sonar míns með vopnum, þá mundi fara illa fyrir Ægi (sjóarguðnum). — 6) roði = hroði (af ryðja, hrjóða), sá sem ryður, kastar, fleygir; roði vâgs, sá sem umveltir vognum (sjónum), vindur (hèr = Kári, vindaguðinn); bróðir roða vâgs, bróðir Kára = Ægir; en bræðr er gamall þolandi af bróðir, object. fyrir vega. — 7) = væri eg. — 8) fær um að gánga til vígs móti. — 9) konu Ægis, henni Rán. Man mætti líka taka um hyski, og Ægis man um Rán og Ránar dætur.

## 9. vísa.

En ek þóttumz ekki eiga [sakar afl[1] við súðs bana[2]; því at gengileysi[3] [gamals þegns[4] verðr alþjóð[5] fyrir augum.

1) krapta til ásóknar eða mótstöðu, af sök = sókn. — 2) súðsbani fyrir súðarbani, eða súðabani; bani skips eða skipsborða getur verið bæði vindur og sjór; hèr Ægir. — 3) fylgdarleysi, einstæðíngsskapur. — 4) mín, gamals manns; Sonatorrek er trauðlega ort seinna en 960, og gizka eg á, að Egill hafi þá haft tvo um sextugt. — 5) allri þjóð, öllum mönnum; þ. e. allir menn sjá það með eigin augum, hversu eg, gamall maður, er yfirgefinn af öllum.

## 10. vísa.

Marr[1] hefir ræntan mik miklu, síðan er *ættarskjöldr[2] minn hvarf af lífi á munvega[3]. Grimmt[4] er at telja frænda fall.

1) sjá VII. 2. — 2) ættarhlíf, ættarstoð, líklega Böðvar; um hann segir Egill í XII. erindi:

„er mèr upp hèlt
um verbergi,
ok mitt afl
mest um studdi“.

---

*) ættarskjöldr er tekið úr Hrappseyjar-útgáfunni. Í Kmh.-útgáfunni stendur aldarskjöldr. J. Þ.

— 3) munvegar, gleði-bústaður, sælustaður, (af munr, gleði), þ. e. Valhöll eða annar heimur, s. s. goðheimr í XX. er. — 4) sárt, óþægilegt.

## 11. vísa.

Þat veit ek sjálfr, at ills[1] þegns efni var vaxit í syni mínum, ef sá randviðr[2] [næði röskvaz[3], unz of tæki hergauts[4] hendr.

1) svona (ills) hafa öll handrit (en Hrappseyar-útgáfan hefir ilgs). Mèr sýnist samanheingið útheimta, að ills þegns sè hermannskenníng, en hvernig það geti verið eptir orðunum, er mèr næsta vafasamt. Ef illr (malus) er úlfsheiti (Edda hefir það ekki), þá er ills þegn, sá sem er örlátur við úlfinn, rètt hermannskenníng. Ef illr er s. s. Ullr (i = u), getur Ills þegn, maður Ullar (sem hergoðs), þýdt sama. Ef ilgr (maður gæti líka hugsað, að ills væri skrifað eptir óglöggum framburði ilgs = elgs) er sama sem elgr (i = e), og elgr tekið um hrædýr, þá er enn sama kenníng. Meiníngin: sonur minn var gott hermannsefni. — 2) mannkenníng, sá maður = hann (Böðvar). — 3) þ. e. ef hann hefði náð að þroskast. Sagan segir: „Böðvar, son Egils, var þá frumvaxta; hann var hinn efniligsti maðr, fríðr sýnum, mikill ok sterkr, svo sem verit hafði Egill eða Þórólfr á hans aldri". Eg gizka, að hann hafi verið hèr um bil 16 vetra (Böðvar er eptir því fæddur 944, árið áður en Egill fór seinustu utanlandsferð sína til Noregs). — 4) hergautr, hermaður (af herr, og Gautr, nafn Óðins); unz — tæki = þar til hann hefði feingið fulla hermanns krapta.

## 12. vísa.

*Lèt[1] á[2] flest, þat er faðir mælti, þótt [öll þjóð[3] segði annat, ok hèlt mèr upp [um verbergi[4], ok um studdi mest afl mitt.

1) Lèt flest (nl. vera), þ. e., var eptirlátur í flestu. — 2) ávalt, ætíð. — 3) allir menn á heimilinu. — 4) á heimili mínu; verbergi, bústaður manna, heimili (verar, menn), herbergi.

---

*) Eg hefi skrifað leit. Leit á, þ. e., fèllst á, samþykkti. Í fornum handritum kemur fyrir e = ei, t. d. Snor.-Ed. (Kmh. 1852) II, 499: havg let (= leit) hvarma skogar hlaðnorn við mer stiörnum. J. Þ.

## 13. vísa.

Mèr kemr opt bræðraleysi[1] í byrvind Bjarnar mana[2]. Hyggjumz um[3], er Hildr[4] þróaz; nýsumz[5] hins, ok hygg at því.

1) sonarmissirinn kemur Egli til að minnast á einstæðíngsskap sinn í XIII.—XVII. er., hann kvartar yfir því, að hann á eingan bróður á lífi sèr til aðstoðar, og að vinir sínir þverri; hann þurfti sjálfur aðstoðar við (sjá IX. er., 5.—8. vo.), en fáum sè að trúa, og fólk sè sèr ekki að skapi; sonarmissir verði ekki bættur, nema með öðrum syni, og eínginn sè öðrum bróðir. þessar hugsanir koma fram hver innan um aðra, sem ekki er tiltökumál. — 2) ɔ: mèr kemur opt í hug; en hugann kallar hann byrvind Bjarnar mana, þ. e.: hugur kallast vindur tröllkvenna, eptir Eddu; því er hèr Bjarnar man tekið fyrir tröllkonu, af Björn, eitt af heitum þórs, og man kynlaust, hertekinn, ánauðugur maður eða kona; líka collectiv. stúlkur og konur, giptar og ógiptar, úngar og gamlar; svo að man þórs, stúlkurnar hans þórs, eru tröllskessurnar, sem hann átti opt gráan leik við. Annars man eg ekki til, að orðið „man" komi nokkurstaðar annarstaðar fyrir í margtölu; í bókinni er það skammstafað $\overset{a}{m}$, sem er það venjulega band fyrir manna, sem Hrappseyarútgáfan hefir; kann ske það eigi að vera mans, þá getur Bjarnar man verið Hlóra, fósturdóttir þórs, sem líklega hefir verið tröllkynjuð, eins og Víngnir, fóstursonur hans. þó tilhögun kenníngarinnar sè óljós, verður það þó allajafna víst á þessum stað, að í Bjarnar $\overset{a}{m}$ verður að felast tröllkonukenníng. Gerum að í skinnbókinni megi lesa $\overset{o}{m}$ (þar sem nú stendur $\overset{a}{m}$), þá fær maður annað orð, því $\overset{o}{m}$ má lesa móður (sjá t. d. Ísl. S. Kaupmh. 1843, facsim. j, línu 6; Ísl. S. Kaupmh. 1847, facsim. 1, línu 8., 9.). þá verður móðir Bjarnar (þórs) = jörð, sem hèr ætti þá að takast um tröllkonu. Að sönnu segir Edda Sn. bls. 22, að jörð sè talin með Ásynjum. En það hefir hún feingið per Ansögning, því hún er tröllkynjuð og af Hrímþussum komin, sköpuð úr holdi Ýmis af Börs-sonum, og kallast því dóttir Óðins. — 3) eg lít í kríngum mig. — 4) orusta, ófriður. — 5) eg forvitnast um það (sem kemur).

## 14. vísa.

Hverr annarr þegn[1], hugaðr við óðræði[2], standi á

hlið mèr[3]; ek þarf þess opt [of her gjörum[4]; ek verð varfleygr[5], er vinir þverra.

1) maður. — 2) óhræddur í ófriði. — 3) nl. sem aðstoðarmaður minn. — 4) þar eð mönnum (hèr) er svo varið; herr er landsfólk; gjörr, svo og svo gerður, — 5) illa fleygur, þ. e., ekki einhlítur mèr, hjálparlaus.

## 15. vísa.

Mjök er torfyndr[1] of alþjóð elgjar gálga[2] sá, er knegum trúa[3] (þvíat niflgóðr[4] [steypir niðja[5] [selr hrer bróður við baugum[6]; ek finn þat opt, er beiðir fjár)[7].

1) það er mjög bágt að finna þann mann. — 2) um alt Ísland; of, dan. om; elgr, snjókrap; gálgi elgjar, frost, ís; þjóð, hèr land; elgjar gálga þjóð, er þá Ísland. Af því eg held, að næstu setníngar, sem eru mikið óljósar, líti til Noregsmanna, þá mætti gæta að viðskiptum hans við Noregsmenn. Sagan segir í 69. kap.: „Ekki var Egill íhlutunarsamr um mál manna, ok ótilleitinn við flesta menn, þá er hann var hèr á landi. gerðuz menn ok ekki til þess, at sitja yfir hlut hans". Þetta sama orðar sagan í 81. kap. svona: „Ekki er getið, at hann (Egill) ætti málaferli við menn hèr á landi, ekki er ok sagt frá hólmgaungum hans eða vígaferlum, síðan er hann staðfestist hèr á landi". En það er kunnugt af sögunni, að Egill hafði verið hinn mesti mótstöðumaður og fjandmaður konúngsættarinnar í Noregi, og að hann var útlægur þaðan og ófriðhelgur; því segir líka sagan strax á eptir í 81. kap.: „Egill mátti ekki vera í Noregi af þeim sökum, sem fyrr var frá sagt, at konúngar þóttust eiga við hann". — Þar eð eg get ekki sèð, að þau eptirfylgjandi orð í þessu erindi geti átt við Íslendínga, held eg, að Egill, þegar hann minnist á einstæðíngsskap sinn á annað borð, hvarfli huganum til gamalla væringa milli hans og Noregsmanna, en þó svo sem undir huldu, og án þess að nefna neinn, svo sem vildi hann segja: fáa trúnaðarmenn finn eg á Íslandi, því síður í Noregi, þar sem konúngsættin berst banaspjót eptir til fjár og frama. — Eg setti það, sem eptir er af erindinu, í klofa, svo sem lausa hugsun; hugsunin í XV. er. 1.—4. slitnar við náskylda hugsun í XV. er. 5.—10., og við óskylda hugsun í XVI. er., en í XVII. er. 1.—4. hverfur hann aptur til hinnar fyrri hugsunar

um landana hèrna. — 3) megum, getum. — 4) sambandið því at er óglögt; það er eins og hann hafi bak við eyrað: ekki er heldur frá Noregi aðstoðar að vænta; því að þar leggjast konúngarnir á frændur sína til fjár; ránkar hann þá við, að hann átti þar lítils styrks von, þegar hann átti þar fjárheimtur í landi. Niflgóðr (óvíst), sá sem er góður við myrkrið, sá sem elskar myrkrið, kann ske undirförull, svikull. — 5) sá sem steypir niðjum, þ. e., sá sem drepur ættmenn sína og vegur ættvíg. — 6) selur lík bróður síns fyrir gullhrínga (fè), þ. e., sem vinnur það til fjárins, að drepa bræður sína eða nána frændur. Þetta gæti átt við Eirík blóðöx, sem drap tvo bræður sína, Ólaf og Sigurð, í Túnsbergi 935, hvers vegna Egill kallar hann sama árið í einni vísu sinni „bræðra sökkva", fjandmann bræðra sinna; það getur einnig átt við Hákon góða, sem barðist við bróðursonu sína, altènd frá 952—961, og feldi Guttorm konúng bróðurson sinn á Ögvaldsnesi 952, og Gamla konúng Eiríksson, annan bróðurson sinn, á Rastarkálfi 955, sjá Heimskrínglu og Fagrskinnu og Egilssögu. — 7) Egill hafði fjárheimtu í Noregi um fè teingdaföður síns á Gulaþíngi 935, og fèkk ekki rètt sinn fyrir ríki Gunnhildar konúngamóður og Eiríks blóðaxar. Í öðru sinni kallaði hann til fjár Ljóts bleika, er umboðsmenn Hákonar konúngs góða höfðu upp tekið og látið í konúngssjóð, og fèkk Egill það ekki af Hákoni konúngi 946.

## 16. vísa.

Þat er ok mælt, at einginn geti[1] iðgjöld[2] sonar, [nema ali sjálfr[3]; nè[4] þann nið[5], [er sè öðrum maðr[6], borinn í bróður stað.

Hvað sambandið áhrærir, sýnist fyrri vísu-helmíngurinn að eiga við hugsunina í X. erindi, um sonardauðann, en síðari vísu-helmíngurinn við XIII. er., þar sem hann talar um bræðraleysið. — 1) fái, öðlist. — 2) endurgjald, jafngildi. — 3) nema hann sjálfur eignist annan son. — 4) nl. geti, þ. e. og að einginn eignist. — 5) frænda. — 6) er sè öðrum (sem maður), borinn í bróðurstað, þ. e., að hann sè honum eins og sá maður, sem er samborinn bróðir hans.

## 17. vísa.

[1]Þjóða sinni[2] erumk-a[3] þokt[4], þótt sèrhverr haldi sáttum. [5]Byrr, son kvânar[6], er kominn í býskips bæ[7], (at) leita kynnis[8].

1) Hèr held eg hann hvarfli aptur til fyrra vísu-helmings í XV. erindi. — 2) periphrastice = þjóð, þ. e., menn; sinni, för, ferð, samferð, samfylgd (á eingilsaxnesku sið), og er í skáldskap haft til að umskrifa með annað orð, eins og ferð, t. d. ferð guma = gumar, ferð hölda = höldar, ferð ýta, lýða = ýtar, lýðir. Hvort sinni (hugur, animus, indoles, á dönsku Sind) komi fyrir í elztu norrænu, er vafasamt. — 3) mèr er ekki; þess háttar orðmyndir eru búnar til af stofnorði, sambandshljóðstaf og suffixis; hèr er erumka = er-u-mk-a: er = er (stundum = eru, est, sunt); u sambandshljóðstafur, til að teingja mk við r; mk = samandregið mik (þolandi af ek, sem bæði gildir fyrir þol. mik og þiggjanda mèr (sbr. á dönsku mig, þol. og þiggj., og gekk eg mig þá í grænum lundi = mèr, eða að gamni mínu); a neitunarorð. — 4) geðþekt, geðfelt, eða velviljað, af lýsingarorðinu þokkr, þekkilegur, þægilegur. — 5) hèr víkur hann algjörlega aptur til X. erindis, hvar hann sagði, að Böðvar hefði horfið á munvega, og segir nú ljósar, hverjir sèu þessir munvegar. — 6) = burr, sonur; en fyrst hèr kemur rètt á eptir son kvânar, þá verður maður að skilja byrr um son föðursins (son minn). því hann vill segja emphatice sonur minn og sonur konu minnar, eins og hann í XX. erindi kallar Gunnar ættar ask vaxinn af sèr og kynvið kvonar sinnar. — 7) bær býskips, himneskur bústaður eða bústaður á himnum, af bær, bústaður, og býskip, himin (eiginlega skip býflugna, lopt, og svo himin). það er þá alt eitt, munvegar, X., 6. vo., bær býskips, XVII., 5—6 vo., og goðheimr, XX., 3. vo. — 8) kynni, vandamenn, ættmenn, frændur; leita kynnis, heimsækja frændur sína (þ. e. í öðrum heimi), t. d. afabróður sinn þórólf Kveldúlfsson (fèll 877), föðurbróður sinn þórólf Skallagrímsson (fèll 926), afa sinn Skallagrím (dó 935), bróður sinn Gunnar (dó hèr um bil 960), og mörg föður-systkin sín, sem dóu úng.

## 18. vísa.

En hilmir fáns[1] hrosta[2] stendr í föstum þokk[3] á hendi mèr[4]; máka ek[5] halda upp rèttri[6] rýnis reið[7] í óróar grímu[8].

Í XVIII., XIX. og XX. erindi minnist hann á lát Gunnars sonar síns, sem sagan segir að andazt hafi litlu áður en Böðvar drukkn-

aði; að Gunnar hafi dáið úr sótt, er að ráða af XIX. erindi. — 1) allar bækur hafa Fanz; þar af gizkaði Gunnar Pálsson, að hèr ætti að lesa fast, þ. e. fastlega; en Guðmundur Magnússon vildi heldur lesa Finns af Finnr, dvergur. Mèr sýnist gánga næst bókunum að lesa fáns, samandregið fyrir fáins, af fáinn, dvergur. — 2) hrosti, maltker, líka maltseyði (d. Roste, norsk. Ruste), hèr lögur; fáns hrosti, lögur dvergs, mjöðurinn dýri; hilmir hrosta fáns, ráðandi, stýrandi mjaðarins dýra, Óðinn. — 3) þokkr, hugur; í föstum þokk, í föstum hug, vægðarlaust. — 4) geingur fast að mèr, leggur þúnga raun á mig. — 5) má eg ei. — 6) allar bækur hafa rètti, sem vera má að sama sè sem rèttri, að undanfeldu r, hvar upp á nokkur dæmi gefast. — 7) rýni, θεωρία, skoðun, sjón; reið rýnis, kerra sjónarinnar, höfuð. — 8) á órólegri nótt; allar bækur hafa áróar, kann ske áró (árόv?) sè sífeld runa, og áróar gríma, mjög laung nótt, liði-laung nótt. — Framhald þessa erindis kemur í næsta erindi.

## 19. vísa.

[1]Sízt[2] heiptugligr sóttar brími[3] nam son minn[4] úr heimi, þann[5] ek veit at [vamma varr[6] varnaði[7] við námæli[8].

1) framhald af fyrri vísu-helmíngi í XVIII. er. — 2) síðan að. — 3) eldur; sóttar brími, æstus morbi. — 4) hèr held eg hann tali um Gunnar son sinn. — 5) fyrir: þann er, eum, qui, hvar þann er samstætt við son minn. — 6) lastvarr; gjörandinn er samstæður við afleiðíngarfornafnið er, sem felst í þann. — 7) at varna við eh-ju, að halda sèr frá eh-ju (abstinere a re aliqua), hèr = varast, forðast eh-ð (cavere). — 8) (óvíst); eg held af ná-, nærri, og mál, svo að námæli sè orð, sem gánga nærri manni, þ. e. móðgunaryrði, skapraunarorð.

## 20. vísa.

Þat man ek enn, er [Gauta spjalli[1] um hóf upp í goðheim þann ættar ask[2], er óx af mèr, ok kynvið[3] kvonar minnar.

1) Óðinn, af Gautar, hèr gotneska þjóðin, að því leyti sem hún innibatt 1, Norðmenn (þ. e. Noregsmenn, Íslendínga, Svía, Dani) og 2, Suðurmenn (Sunnmenn, þ. e. Þjóðverja, þýzka menn). Eg get

ekki trúað, að hèr meinist Gautar, sem bjuggu í vestra eða eystra Gautlandi í Svíaríki, eða Gotar (Gautar), sem bjuggu á eynni Gotlandi í Eystrasalti. — Spjalli, vinur, en vinur Gauta, Óðinn, sem átrúnaðar-goð og bjargvættur gotnesku þjóðarinnar yfir höfuð. — 2) afspreing. — 3) ættar askr, sbr. XVII. er.

## 21. vísa.

[Ek átta gott við[1] geira drottin[2], gerðumz tryggr[3] at trúa honum, áðr vagna runni,[4] sigrhöfundr, um sleit við mik vinað.[5]

1) okkur kom vel saman, mèr og Óðni. — 2) Óðinn. — 3) stöðugur, staðfastur í trúnni á hann. — 4) Óðinn kallast hèr vagna runni. Jón Ólafsson, í „Nordens gamle Digtekonst“, bls. 50., vildi lesa Vagnar rúni, en Gunnar Pálsson Vagnar unni, báðir ímynduðu sèr, að Óðinn hefði haft einhverja Vögnu fyrir hjákonu eða konu. En eptir lestrarhættinum vagna runni, er vagn = sleði; runni gjörsagnar-nafn, sá sem lætur renna, hlaupa, sá sem hleypir einhverju af stað; er því líklegt, að litið sè til þeirrar sögu, sem Óðinn bendir til um sig í Grímnismálum, 49. er. (Rasks-útg.): „en þá Kjalar, er ec kjálca dró“, þ. e., eg var kallaður Kjalar, af því (eða þegar) eg dró kjálka (sleða); líka er getið um reið Rögnis, kerru Óðins, Brynh. I, 16 (sama útg.). — 5) vinátta.

## 22. vísa.

Blótka[1] ek því [bróður Vílis[2]. [goðs *jaðar[3], at ek gjarn sèk. Þó hefir [Míms vinr[4] um fengnar mèr bölva bætr[5], **ef teldi[6] hit betra.

1) ek blóta (dýrka) ekki. 2) Óðinn; bróðir Óðins kallast ýmist Víli og Vílir. — 3) hið æðsta goð, eða hinn æðsti af goðunum; jaðarr, höfðíngi, (prinseps) er það eingilsaxneska eoð-

---

*) Eg hefi ritað goð jarðar eptir Snor.-Ed., Reykjavík 1848, 51. bls. Goðs jaðar held eg sè ekki rètt, því Óðinn er höfðíngi goðanna, en ekki eins goðs. Hèldi menn orðinu jaðarr, þá ætti líklega að rita goðjaðar. J. Þ.

**) „er hit betra telk“ hefi eg tekið úr Snorra-Eddu á sama stað. J. Þ.

or. — 4) = Mímis vinr, Óðinn*. — 5) veitt mèr bót við böli, bætt mèr það böl, sem hann gerði mèr, með því að taka frá mèr son minn (eða sonu mína). — 6) ef eg færi að telja það upp, sem Óðinn gerði mèr gott. Það góða, sem Óðinn veitti honum, telur hann í næsta erindi.

### 23. vísa.

Vígi vanr **of[1] [bagi úlfs[2] gáfumz[3] vammi firða íþrótt[4], ok þat geð, er ek gjörða mèr vísa fjandr ***at[5] velöndum[6].

1) þetta er sennileg getgáta Guðmundar Magnússonar; allar bækur hafa ok. — 2) mótstöðumaður Fenrisúlfs, Óðinn, sem átti víg við hann í Ragnarökkri. — 3) = gáfumk (gaf mèr, sjá XVII. 3.); en í þess konar samböndum stendur opt z fyrir k, sem kemur líklega af því, að upphaflega hefir hèr verið ritað c, sem bæði var lesið s (z) og k. — 4) vammi firð íþrótt, lýtalaus ment; eg tek það hèr um skáldskapar íþrótt, og held, að honum hafi dottið sama í hug, og Horatius (Od. IV. 6, 29. 30):

„Spiritum Phoebus, mihi Phoebus artem
Carminis nomenque dedit poëtae".

Aðrir fela í vammi firð íþrótt skáldskap, vígfimi, læknisment og galdralist eða fjölkynngi. — 5) Guðmundur Magnússon vildi lesa af, og það held eg sè betra, því vísir fjandr (opinberir óvinir) setjast hèr í móti velöndum (svikurum, undirförulum mönnum), og telur Egill það blessaða guðs gjöf, að hann hafi vit á, að gera leynilega svikara að opinberum fjandmönnum sínum. Það hefir víst verið gott í þá daga, og eins og Egill átti varið. — 6) gjörsagnar-kenníng af vela, vèla, svíkja.

---

*) Míms er lestrarháttur Snorra-Eddu; allar bækur hafa misvinr, sem auðsjáanlega er framkomið af mīsvinr (ī = ím).

**) Eg hefi tekið gátu G. Magnússonar: of fyrir ok upp í textann, en held þó reyndar, að hún sè óþörf; gafumk ok, gaf mèr líka. Óðinn hefir gjört mèr illt, en hann hefir líka gjört mèr gott, hann hefir gefið mèr, o. s. frv. J. Þ.

***) Eg hefi tekið upp í textann gátu G. Magnússonar: af.
J. Þ.

24. vísa.

[Nú er mèr torvelt[1]: *nipt njörva Tveggja baga[2] stendr á nesi[3]. Ek skal þó glaðr ok óhryggr með góðan vilja bíða Heljar.

1) nú á eg úr vöndu að ráða, þ. e., hvort eg skal lifa eða deya. — 2) nipt njörva Tveggja baga tek eg fyrir kenníngu Heljar, og leysi hana svona: bagi, óvinur; Tveggi, nafn Óðins, eptir Eddubr. 748 og 757 (sjá Reykjavíkur Eddu); bagi Tveggja, óvinur Óðins, Fenrisúlfur (eins og gagnstætt bagi úlfs, Óðinn, í XXIII. er., 2.); njörvi, bandíngi, bundinn, er prædicatsnafn við bagi (þ. e. hinn bundni óvinur), en nipt (systir) Fenrisúlfs er Hel; hún stendur á. — 3) Digranesi, þar sem stóð haugur Skallagríms og þeirra frænda. Af þessu erindi sèst, að ásetníngur Egils að svelta sig í hel, er horfinn, fyrst hann vill ekki ómaka sig út í Digranes til Heljar, heldur bíða þess, að hún komi til sín.

## Arinbjarnar-drápa.

1. vísa.

Emk[1] hraðkveðr[2] at mœra[3] hilmi[4]. en glapmáll[5] um gleggvinga[6], opinspjallr[7] um [jöfurs dáðum[8], en þagmælskr um þjóðlygi[9].

1) eg er. — 2) fljótur að kveða, yrkja. — 3) víðfrægja. — 4) konung. — 5) annaðhvort illmáll eða spar á lofi. — 6) gleggvíngr, nízkr maður. — 7) sá sem spjallar (talar) opinberlega um, ekki dregur í hlè; eg dreg ekki dulur á afreksverk konunga. — 8) jöfurr, konungur; dáðir, þrekvirki; jöfurs dáðir, afreksverk konunga eða höfðingja. — 9) lygi, sem gengur hjá þjóðinni, almenn lygi, eða heldur mikil lygi, skrum. Ek yrki eigi um þá, er ekki hafa annað en skrum og lygi til ágætis sèr.

2. vísa.

Skaupi[1] gnœgðr[2] skrökberöndum[3], emk[4] vilkviðr[5]

*) Eg hefi ritað njörvanipt í einu orði; eg ímyndaði mèr, að mætti skýra það svona: njörva, binda fast, margvefja; nipt, systir; njörvanipt, náin, nátengd systir, alsystir: njörvanipt Tveggja baga, alsystir Fenrisúlfs, Hel. J. Þ.

um vini mína. Hefik[6] sótt[7] mörg [mildinga sjöt[8] með grunlaust grepps um œði[9].

1) skaup, skop, háð. — 2) sá sem hefir nóg af einhverju. — 3) skrökberendr, þeir sem fara með ósannindi, skrum, raup. — 4) eg er. — 5) vil = vel (vil-gi, ekki vel, ekki mjög); kviðr, sá sem kveður eða sá sem talar; vilkviðr er: annaðhvort sá, sem kveður vel um einhvern, yrkir lofkvæði um hann, eða sá, sem talar vel um einhvern. — 6) eg hefi. — 7) heimsótt. — 8) mildingr, maður, sem er mildur af fè, konungr; sjöt, set, sæti, aðsetur, bústaðir; mildinga sjöt, konungs-hallir. — 9) grunr, ótti; grunlauss, óttalaus, óhræddur, hugaður; greppr, skáld; líka = maður, kappi; um er smáorð til málfyllingar; œði, hugur; grunlaust grepps um œði, óhræddur karlmanns hugur.

3. vísa.

Ek hafða endr[1] fengit reiði [ynglings burar[2], ríks konungs. Ek dró djarfhött[3] um dökkva skör[4]; ek lèt hersi[5] um sóttan heim.

1) forðum. — 2) ynglingr, konungsheiti; burr, sonur; ynglingsburr, konungs-sonur, konungur, Eiríkur blóðöx. — 3) dirfskuhött. — 4) höfuð eða hár; ek dró djarfhött um dökkva skör, eg klæddi hið dökkva höfuð dirfskunni, eg gjörði mig djarfan. — 5) Arinbjörn hersi.

4. vísa.

Þar er allvaldr[1], ljóðframaðr[2], sat at landi [und ýgrshjálmi[3]. Konungr stýrir úrgum[4] hjörvi[5] í Jórvík með stirðan[6] hug.

1) konungr. — 2) sá sem framar, efiir ljóð, skáldskap; örlátur konungur, sem launar skáldunum vel kvæði sín. — 3) ýgr, ógn; ýgrs-hjálmr, ógnarhjálmur; und ýgrs-hjálmi, með œgis-hjálm í augum, með ógurlegu augna-tilliti. — 4) úr, úrfelli, væta; úrigr votur, blóðugur. — 5) hjörr, sverð; stýra úrgum hjörvi, hafa blóðugt sverð, halda á blóðugu sverði, eins og stýra gæfu = hafa gæfu, vera gæfumaður. 6) stirðr, óbeygjanlegur, harður.

5. vísa.

Þat [tunglskin Eiríks brá[1] var-a[2] tryggt at líta, nè

ógnlaust, þá er ormfránn[3] ennimáni[4] allvalds[5] skein [œgigeislum[6].

1) tunglskin Eiríks brá = bráa-tunglskin Eiríks; brá, augna-hár; bráa-tungl, auga; bráa-tunglskin, augna-tillit. — 2) var ekki. — 3) gljáandi eins og ormur. — 4) máni, tungl; ennimáni, ennis-tungl, auga. — 5) konungs. — 6) (með) ógurlegum geislum.

## 6. vísa.

Þó þorða ek um bera [hæings maka markar drottni[1] bólstr-verð[2], svá at [Yggs-full[3] kom ýranda[4] at [hlusta munnum[5] hvers manns.

1) hæingr, karlfiskur; hæings-maki, hrygna; hæings maka mörk, sjór; hæings maka markar drottinn, herra sjóarins, sækonungur, Eiríkur blóðöx. — 2) bólstr (á dönsku Bolster; á þjóðversku Polster), hœgindi, sessa, sæng; bólstr-verð, samhvílu-laun; skáldamjöðurinn, sem Óðinn fèkk, er hann hafði legið hjá Gunnlöðu (Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 49. bls.); skáldskapur, kvæði. — 3) Yggr, Óðinsheiti; full, staup; Yggs-full, Óðinsmjöður, skáldskapur, kvæði. — 4) ýra, rigna; ýrandi, rignandi, flóandi, fleyti-fullur. — 5) hlustar-munni, mynni hlustarinnar, eyra; hlusta munnar, eyru.

## 7. vísa.

Höldum[1] þótti nè[2] hamfagrt skáldfè[3] mitt at [skata húsum[4], þá er þá-k[5] at hilmi[6] úlfgrátt hattstaup[7] [við Yggjar-miði[8].

1) mönnum. — 2) ekki. — 3) kvæðislaun. — 4) skati, örlátur maður, konungur; skata hús, konungshöll. — 4) eg þáði. — 6) konungi. — 7) það, sem fyllir hattinn, höfuð. — 8) til launa fyrir Óðinsmjöð, að kvæðislaunum.

## 8. vísa.

(Ek) tók við því, en tíru[1] fylgdu svartleit [sökk síðra brúna[2] ok sá muðr[3], er bar hefð[4] mína fyrir knè hilmis[5].

1) tíra sýnist tákna höfuðið. — 2) sökk, dœldir; sökk brúna, brúna-dœldir; dœldir þær, sem augun liggja í, og augun sjálf. — 3) munnur. — 4) lof, lofkvæði. — 5) konungs.

9. vísa.

Þar er þá-k tannfjöld með tungu, sem hlertjöld[1], göfguð[2] hlustum; en sú gjöf hróðugs[3] konungs var um heitin[4] betri gulli.

1) eyru. — 2) prýdd. — 3) frægs, ágæts. — 4) var heitin, var kölluð, þótti vera.

10. vísa.

Þar stóð mèr á aðra hlið tryggr vinr minn, sá er [knátta-k trúa[1], betri mörgum hoddfinnöndum[2], [heiþoraðr hverju ráði[3].

1) eg mátti trúa, gat reitt mig á; knega = mega, geta. — 2) hoddar, fjársjóðir, fè; hoddfinnendr, þeir sem afla sèr fjár, menn. — 3) mjög djarfur, mjög hugaður í hverju fyrirtœki; heiþoraðr virðist vera sama sem háþoraðr (ei fyrir á, eins og í orðinu reik, þ. e., rák).

11. vísa.

Arinbjörn, fremstr knía[1], er einn um [hóf oss frá[2] konungs fjónum[3], vinr þjóðans[4], er laug vætt-ki[5] í garði [herskás hilmis[6].

1) kníar, menn. — 2) frelsaði oss frá. — 3) fjón (kvennkennt orð), hatur. — 4) þjóðann, konungr (á gotnesku þiudans; á engilsaxnesku þeóden). — 5) ekkert. — 6) hergjarns konungs.

12. vísa.

Í þetta erindi vantar svo mikið, að það verður ekki skýrt.

13. vísa.

Þat er úrètt, ef vellvönuðr[1] hefir orpit[2] mörgu gagni, því er (hann) veitti mèr, á máskeið[3], [ramriðin Rökkva stóði[4].

1) vell, gull, fè; vönuðr, sá sem vanar, rýrir, skerðir; vellvönuðr, sá sem rýrir gullið, útbýtir því, mk. — 2) kastað. — 3) máskeið, skeiðvöllur mávanna, sjór; verpa á máskeið = kasta á glæ, gjöra eitthvað til ónýtis. Það er rangt af mèr, að launa honum engu allar þær velgjörðir, er hann hefir sýnt mèr. — 4) Rökkvi,

18

sækonungsheiti; Rökkva stóð, sækonungshestar, skip; ramríðinn, sá sem opt er riðið um; máskeið ramriðin Rökkva stóði, sjórinn, sem skipin fara opt um. Orðin: ef fyrir er og ramriðin fyrir rá ok riðinn, eru tekin úr Snor.-Ed., Reykjavík 1848, 192.—193. bls.

## 14. vísa.

Munk[1] verða heitinn[2] vinþjófr[3] ok [váljúgr at Viðrisfulli[4], hróðrs[5] örverðr[6] ok heitrofi, [nema ek um vinnak[7] gjöld þess gagns[8].

1) eg mun. — 2) kallaður. — 3) sá sem stelur frá vini sínum, lætur honum það ekki í tè, sem hann er honum skyldugur. — 4) váljúgr (= vánljúgr?), svikull (í Fornmannas. II, 151 er váljúgr = vonbrigði, það, að einhverjum bregzt von sín; í Barlaams ok Jósaphats-sögu 110[30] í orðamuninum: en honum var sin hegomlegh von at valiug); Viðrir, eitt af Óðinsheitum; full, staup; Viðris-full, skáldskapur; váljúgr at Viðris-fulli, sá sem móti von annars bregzt honum í skáldskap, lofar hann ekki að maklegleikum. — 5) hróðr, lof. — 6) óverðugur. — 7) nema eg vinni. — 8) gagn, velgjörðir; vinna gjöld gagns, endurgjalda velgjörðir.

## 15. vísa.

Nú er þat sèt, hvar ek skal setja hróðr[1] mektugs [hersa kundar[2], [bratt-stiginn bragar-fótum[3], fyrir mannfjöld, (fyrir) margra sjónir.

1) lof. — 2) kundr, kynsmaðr, ættingi; hersa-kundr = hersaættingi = hersir (kundar fyrir kindar er gáta Guðmundar Magnússonar). — 3) sá sem erfitt er að komast að með skáldskaparfótum, sem erfitt er að víðfrægja nógsamlega í kvæðum sínum.

## 16. vísa.

Mœrðar[1] efni [Þóris magar[2], vinar míns, þau er liggja valið[3] tvenn ok þrenn á tungu mèr, erumk[4] auðskœf[5] ómunlokri.

1) mœrð, lof. — 2) mögr, sonur; mögr Þóris, Þórisson, Arinbjörn. — 3) valin (valið fyrir válig er tekið úr Snor.-Ed., Reykjavík 1848, 182. bls.). — 4) eru mèr (erumk fyrir nú er-

umk, Snor.-Ed. á sama stað). — 5) auðskœfr, sem hœgt er að skafa. — 6) ómun, hljómur, rödd, mál; lokarr, hefill; ómunlokarr, málhefill, tunga; mœrðarefni þóris magar erumk auðskœf ómun-lokri, mèr er hœgt að víðfrægja afreksverk Arinbjarnar.

## 17. vísa.

Ek tel þat fyrst, er flestr um veit, ok [alþjóð sœkir eyrum[1], hvè [Bjóða-björn birkis-ótta[2] þótti mönnum mildgeðr[3].

1) allir menn heyra sagt frá. — 2) bjóð, borð; birkis ótti, viðar-ótti, eldurinn, sem eyðir viðnum; birkis-ótta bjóð, eldborð, eldstó, arinn; birkis-ótta-bjóða-björn, Arinbjörn. — 3) örlátur.

## 18. vísa.

Þat gefst allsheri[1] at undri, hvè hann gnœgir urþjóð[2] auði, þvíat Freyr ok Njörðr hefir of gœddan Grjótbjörn[3] at fjárafli.

1) allsherr = allur her, allir menn. — 2) urþjóð = verþjóð (eins og dögurðr fyrir dagverðr), mannfólk, menn. — 3) Arinbjörn.

## 19. vísa.

En [at höfuðbaðmi Hróalds[1] sifjar[2] iðgnótt auðs at álnum, sem vinreið[3] á öllum vegum [á víðum vindkers botni[4].

1) at (= hjá) er getgáta fyrir á; höfuðbaðmr, ættingi; höfuðbaðmr Hróalds, sonarson Hróalds, Arinbjörn. — 2) sifjar er gáta Gísla Brynjólfssonar fyrir sifja (Fèlagsrit, 1853, 107. bls.); ið- í samsetningum = endur, aptur; sí-; iðgnótt, sífelld gnœgð; álnir, fjármunir, auður; sifja (fyrir sefja) gæti verið myndað af safi, vökvi, lögur; sifja gæti þá merkt: að renna, streyma; auðsiðgnótt sifjar at álnum, sífelld gnœgð auðsins streymir þangað, sem auðurinn er fyrir. — 3) vinreið, vinareið, vina-heimsókn. — 4) vindker, himin; vindkers-botn, jörð. Hugsunin í vísunni sýnist vera: auðurinn streymir að Arinbirni og minnkar ekki, þó margir heimsœki hann og hann leysi þá út með góðum gjöfum.

## 20. vísa.

Hann um gat eiga[1] [dragseil heyrnar spanna[2], sem hildingr[3], ávarðr[4] goðum, með gumna[5] fjöld, vinr [vèþorins veklinga týs[6].

1) eiga er á móti rèttum rímreglum; í stað þess hefir líklega upprunalega staðið eitthvert annað orð. — 2) spann, fata (á dönsku Spand); heyrnar-spann, eyra; seil, band; dragseil, band, sem dregið er; dragseil heyrnar spanna, band, sem dregið er á höfuð, gullhlað. — 3) konungur. — 4) ávarðr er gáta Gísla Brynjólfssonar í Fèlagsritum 1853, 107. bls., fyrir á varði. Orðið ávarðr kemr fyrir í Gísla sögu Súrssonar, Kaupmannahöfn, 1849, 32. bls.: Varð ok sá hlutr einn, er nýnæmum þótti gegna, at aldri festi snjó utan ok sunnan á haugi Þorgríms, ok ekki fraus; ok gátu menn þess til, at hann mundi Frey svá ávarðr fyrir blótin, at hann mundi ekki vilja, að frèri á milli þeirra. Af þessum stað sèst, að ávarðr einhverjum er = verndaður af einhverjum, og goðum ávarðr er þá = verndaður af goðunum. — 5) gumi, maður. — 6) vèþorins er gáta Guðmundar Magnússonar fyrir Veþorms, sem stendur í handritunum. Í Landnámabók II, 29 er nefndur maður, er hèt Vèþormr, og Veþorms getur því vel verið eigandi eintölunnar af Vèþormr, en sá Vèþormr, sem hèr gæti verið talað um, er annars með öllu ókunnur. Fyrir veklinga getur Gísli Brynjólfsson (Fèlagsr. 1853, 155. bls.) upp á vetlinga eða vettlinga = vættlinga = vætta, álfa; vættlinga-týr, álfaguð, Freyr. Guðmundur Magnússon leiðir veklingar af að vaka, og heldur það merki fjöruga unga menn, og vèþorinn veklingatýr sè orustudjarfur fyrirliði eða höfðingi ungra manna, og Egill meini til Haraldar gráfeldar.

## 21. vísa.

Hann viðr[1] þat, er mun þrjóta flesta menn, þótt (þeir) eigi fè. [Ek kveðk-a[2] skammt milli skata[3] húsa, nè [almanna spjör auðskept[4].

1) vinnur, gjörir. — 2) eg segi ekki. — 3) skati, örlátur maður. Ek kveðk-a skammt milli skata húsa, eg segi það sè ekki skammt milli húsa örlátra manna, að aðrir eins örlætismenn og Arin-

björn sèu ekki á hverju strái. — 4) hœgt að skepta allra manna spjót. Höfðingjar hafa meðal annars gjört þeim, er gistu hjá þeim, þann greiða, að skepta spjót þeirra, þegar sköptin voru brotin.

22. vísa.

Engi maðr gekk [at Arinbjarnar[1] ór löngum [legvers knerri[2], leiddr[3] háði nè heiptkviðum[4], með auðar [atgeirs tuptir[5].

1) hjá Arinbirni, á heimili Arinbjarnar. — 2) leg, staður, sem legið er á; ver, veiðistaða; legver virðist vera legustaður, rekkja; legvers-knörr, rekkju-skip, hús. — 3) leiddur út með. — 4) heiptkviðr, heiptarorð, atyrði. — 5) tupt = topt, tótt; atgeirstuptir, staður, þar sem atgeirinn er, hendur; með auðar atgeirs-tuptir, tómhentur, án þess að vera leystur út með gjöfum.

23. vísa.

Hinn er fègrimmr[1], er býr í Fjörðum, sá er of dólgr[2] Draupnis-niðja[3].

1) örlátur. — 2) óvinur. — 3) Draupnir er hringur sá, er Óðinn lagði á bál Baldurs; „honum fylgdi síðan sú náttúra, at hina níundu hverja nótt drupu af honum átta gullhringar jafnhöfgir (Snor.-Ed., Reykjavík 1848, 38. bls.); niðjar, afkomendur; Draupnis-niðjar, gullhringar. Að vera óvinur gullhringanna = vera ör á fè.

24. vísa.

Sökunautr[1] hvinna[2] sona, hoddvegandi[3] hreytir[4] hringum.

1) sá sem á sakir við, mótstöðumaður. — 2) hvinn, þjófur; hvinna-synir, þjófa-synir, þjófar. — 3) hoddvegandi (gáta fyrir hadds vegandi), sá sem vegur út gull, skiptir gulli, mk. — 4) hreytir er gáta fyrir hnotir; hreyta, láta hrjóta, útbýta.

25. vísa.

Hann gat um eiga aldrteig[1], fjöl-jáinn[2] spjöllum[3] friði.

1) lífsskeið, æfi. — 2) fjöl-jáinn, opt játaður, sem opt er varið til. — 3) spjallr, spjallaður, spilltur; spjallr friðr, spilltur friður, ófriður, hernaður. Hugsunin er: hann varði miklum hluta æfi sinnar til hernaðar, var mikill hermaður.

Til að fá betri þráð í vísunum hèr á undan (23., 24. og 25.), vill Dr. Scheving taka svona saman:

Hinn er fègrimmr | Hann aldrteig
er í Fjörðum býr, | um eiga gat
sá er of dólgr | fjöl-jáinn
Draupnis-niðja, | friði spjöllum,
hringum hreytir | sökunautr
hoddvegandi. | sona hvinna.

## 26. vísa.

Ek var árvakr, ek [bar orð saman[1] með morginverkum[2] málþjóns[3]. [Ek hlóð þann lofköst[4], er stendr lengi úbrotgjarn[5] [í bragar túni[6].

1) orti kvæði. — 2) morginverkum fyrir meginverkum heti eg tekið úr Snor.-Edd., Reykjav. 1848, 197. bls. Egill kallar þetta morginverk, af því hann hefir ort kvæðið að morgni dags. Til þessa benda líka orðin: „var ek árvakr". 3) málþjónn, tunga. — 4) orti lof. — 5) sem ekki er hætt við að brotna, líða undir lok. — 6) meðal annara kvæða í manna minnum.

## 82. Kap.

## 1. vísa.

Ek börðumst einn við átta, en tysvar við ellifu; svá fengum [vargi verð[1]. (Vèr) skiptumst [hlífar skelfi-knífum[2] hart af heiptum. Ek lèt [valbasta eld[3] kastat af emblu aski.

1) úlfi bráð. — 2) hlífar skelfi-knífar, hnífar þeir, sem skelfa hlífarnar, sverð; skiptast hlífar skelfi-knífum, skiptast höggum við, berjast. — 3) valböst er talin meðal heita á sverðum í Snorra-Eddu, Reykjav. 1848, 115. bls.; en hvern part sverðsins það táknar, er ekki hægt að sjá, valbasta eldr sýnist vera sverð eða spjót. Sveinbjörn Egilsson heldur, að emblu askr tákni hönd, en hvernig höndin verði kölluð svo, getur hann ekki fundið; kasta valbasta eldi af emblu aski væri þá = kasta spjóti úr hendi sèr.

## 2. vísa.

Mjaðveitar[1]! þeir birtingar[2] þverra nú, er [þverrðu

Ingva þingdag[3]. Hvar skal ek leita þeirra mildra manna, er [hegldu mèr háfjöll hauks dígul-snjávi[4] [með orðum[5] fyrir handan [ey-neglda jarðargjörð[6]?

1) þeir sem veita mjöð, örlátir menn. — 2) ríkismenn. — 3) Ingvi virðist vera konungsheiti; sá konungur, sem hèr er hugsað um, sýnist vera Œgir, er gjörði Ásum heimboð og lèt bera inn á hallargólf lýsigull, það er birti og lýsti alla höllina (Snór.-Ed., Reykjavík 1848, 68. bls.); þing, mannamót; Ingva þing, heimboðit hjá Œgi; dagr = birta; Ingva þing-dagr, Œgis-ljós, gull; þverra Ingva þingdag, láta gullið þverra, útbýta gulli. — 4) hegla, láta hagl drífa á; háfjöll hauks, hendur; dígull, deigla; dígul-snjár silfr eða gull; hegla háfjöll hauks dígul-snjávi, prýða hendurnar með hringum. — 5) með góðum orðum. — 6) jarðar-gjörð, haf; ey-negldr, negldur, settur, þakinn eyjum; fyrir handan ey-neglda jarðargjörð, fyrir handan hið eyþakta haf, í Noregi.

## 3. vísa.

Ek gjörða verka[1] of þann [virða vörð[2], er sitr [at jörðu[3], meðan aðrir [örváfaðar[4] sváfu. Iðrumst[5] þess. Ek [hykk-at[6] [hodda stökkva[7], frœknum vísa[8], þóttu[9] ferri[10] skáldin verri. Sóttak[11] gram[12] hinnig[13] fýsinn[14].

1) kvæði. Verka hefi eg bætt við, því mèr fannst eitthvert orð vanta. — 2) virðar, menn; virða vörðr, konungur eða jarl. — 3) að landi, að ríkjum. — 4) þeir sem veifa örvum, skjóta örvum, hermenn. — 5) eg iðrast. — 6) hygg ekki. — 7) hoddar, gull; hodda stökkvi, sá sem fargar fjársjóðum, örlátur maður. — 8) vísi, konungur. — 9) hafa þótt. — 10) ferri = firnari, fjarlægari; ferri skáldin, þau skáld, sem eru langt að komin. Hugsunin er: örlátum konungum hefir aldrei þótt verra, að skáld kæmu úr fjarlægum löndum til að víðfrægja þá. — 11) eg sótti, heimsótti. — 12) konung, jarl. — 13) hingat. — 14) fús.

## 4. vísa.

Sækjum þann jarl, er þorir auka [úlfs verð[1] sverðum[2]. Skipum borðróinn barða Sigvalda baugskjaldum[3].

Sá [sveigir sárlinns[4] drepr eigi við mèr hendi, er finnum gram[5]. Berum rönd[6] út á [Endils andra[7].

1) úlfa fæðu, hræ. — 2) með sverðum. — 3) hlaða, skara, þekja borðróinn, sem róið er á bæði borð; barði, skip; baugskjöldr, skjöldur með máluðum baugi á. Meiningin er: skörum skip Sigvalda skjöldum. — 4) linnr, ormur; sárlinnr, sárormur, sverð; sveigir sárlinns, sá sem sveigir sverðið, hermaður. — 5) jarl, Sigvalda. — 6) skjöld. — 7) Endill, sækonungsheiti; andrar, skíði; Endils-andrar, skip.

## 5. vísa.

Mál er at [lýsa lofs-enda[1] of þann [barða ljósgarð[2], er ek þá[3]. Boð hoddsendis[4] kom mèr heim at hendi. [Taumar[5] erðgróins grundar gilja glaums skulu-t[6] verða mèr misfengnir[7]. Hlýðit èr[8] til orða.

1) lofs-endar = lof, eins og máls-endar = mál (í Gísla sögu Súrssonar, Kmh. 1849, 11. bls.: „ok nú finnst mönnum orð um hvè skrautligr flokkr þeirra var, eðr um málsenda þeirra, hversu sköruligir váru“); lýsa lofs-enda, láta lofið koma í ljós. — 2) barði, skip; ljós-garðr, bjartur garður; ljós-garðr barða, bjartur skips-garður, skjöldur, sem kallast svo, af því títt var að skara skip skjöldum eða leggja skjöld við skjöld utan á skipsborðin þannig, at randir eða skarir skjaldanna náðu saman. — 3) þáði. — 4) hoddsendir, sá sem sendir fè, maður. — 5) erðgróinn = jarðgróinn; grundar-gil, jarðargil, skál (í fjalli); erðgróinn glaumr grundar-gilja = (Einarr) skálaglamm. — 6) skulu-t (gáta fyrir skalat), skulu ekki. — 7) misfenginn, fenginn til ónýtis; taumar Einars skálaglamms skulu ekki verða fengnir mèr til ónýtis; það, sem Einar skálaglamm lagði fyrir mig, skal eg gjöra, það er að segja, kveða um skjöldinn. — 8) hlýðit èr er tilgáta fyrir hlýða þèr; èr = þèr.

## 83. Kap.

### 1. vísa.

[Ek áttk-a[1] erfi-nytja[2], arfa[3] til[4] þarfan mèr. Sonr hefir of svikit mig kvikvan[5]. Ek tel svik í því. [Vatta

vigg-ríðandi[6] mátti vel bíða þess, er [hafskíða hljótendr[7] [hlœði grjóti of mik[8].

1) eg átti ekki. — 2) erfi-nyti, sá sem notar arf eða nýtr arfs, erfingi. — 3) arfi er líka = erfingi. — 4) mjög; eg átti ekki mjög þarfan son = eg átti mjög óþarfan son. — 5) kvikan, lifandi. — 6) vatti finn eg ekki í sjóarheitum í Snorra-Eddu, en það kynni þó að vera sjóarheiti; vigg, hestur; vatta vigg, skip; vatta-vigg-ríðandi, siglingamaður, mk. — 7) hafskíð, skip; hafskíða-hljótandi, sá sem hlýtur, á skip, mk. — 8) jörðuðu mig, heygðu mig.

## 2. vísa.

Þinn liðr[1] fossa feyrs[2] heyri á [minni fallhadds stallavinar[3]. [Konungsþegn hyggi til þagnar[4]. [Hræra hrafnstýrandi[5] skal opt fregna mín goð [arnar-kjapta hregna orð[6] of Horða-tröð[7].

1) liðr = linnr, sem talið er með viðarheitum í Snorra-Eddu, Kmh. 1852, II, 483. — 2) feyrr = furr, eldur; fossa-feyrr, gull; fossa-feyrs liðr, gulls viður, mk.; þinn fossa-feyrs liðr, þinn maður, þínir heimamenn. — 3) fallhaddr, sá sem hefir fallandi eða sítt hár; stallavinr, blótstallavinur, blótavinur, Óðinn. Á sjálfum Óðinsheitum má sjá, að menn hafa ímyndað sèr hann síðhærðan, því Hárr, Óðinsheiti, er annaðhvort = gráhærður eða = hármikill; og Síðskeggr sá, sem hefir sítt hár. Minni (gáta fyrir minna), staup, drykkur; minni fallhadds stallavinar, drykkur hins síðhærða Óðins, kvæði. — 3) konungs-þegn, konungsmaður, Þorsteinn Þóruson, sem Egill biður að hlýða kvæðinu, er hann ætlast til að honum sè flutt. Hræri (= Rer í sækonungaheitum, Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 111.bls.; Ræ r, Snorra-Edda, Kmh. 1852, II, 469.), sækonungsheiti; hrafn, hestsheiti (Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 98. bls.); Hræra hrafn, sækonungs-hestur, skip; Hræra hrafnstýrandi, skipstjóri, mk., Þorsteinn Þóruson. — 5) hregn, regn; arnarkjapta hregn, skáldamjöðurinn, er Óðinn spjó, þá er hann flaug með hann til Ásgarðs í arnarlíki (Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 49. bls.); arnarkjapta hregna orð, skáldmæli. — 6) Horðar = Hörðar, íbúar Hörðalands, sem er fylki í Noregi; Horða-tröð = Hörðaland; of Horða-tröð, á Hörðalandi og um Noreg allan

(pars pro toto). Í fyrra vísuhelmingnum biður Egill Þorstein Þóruson og heimamenn hans að hlýða drápunni, og í seinna helmingnum segir hann, að hann muni opt heyra skáldmæli sín (þessa drápu, eða, ef til vill, fleiri kvæði), er verða muni alkunn í Noregi.

## 88. Kap.

Ek spanda[1] endr[2] jörð ór hendi Steinari með orðum. Ek þóttumst[3] þá orka[4] til þarfar[5] [Geirs arfa[6]. [Mögr systur minnar[7] brást mèr, (hann) hètumk[8] þó fögru. Blundr [mátti eigi of bindast böls[9]. Ek of undrumst[10] slíkt.

1) dró; spenja (spen, spanda, spöndum, spanit), draga. — 2) forðum. — 3) þóttist. — 4) vinna. — 5) gagns. — 6) arfi Geirs, Geirs son, Þorgeirr blundur. — 7) mögr, sonur, mögr systur minnar, systurson minn, Þorgeirr blundur, sonur Þórunnar, dóttur Skallagríms, sjá 39. kap. í Egilssögu og Landnámabók I, 20. — 8) hèt mèr. — 9) gat ekki stillt sig um að gjöra illt. — 10) undrast.

## 89. Kap.

[Ek hefi vafur helsis vals[1]; ek em skalla[2] váfallr[3]. Fótarbergis[4] borr[5] erumk[6] blautr[7]; en hlust[8] er þorrin[9].

1) helsi, hálsband; helsisvalr, bundinn eða tjóðraður hestur; ek hefi vafur helsisvals, eg vafra eins og tjóðraður hestur (equus praepeditus). — Þetta er útlegging Sveinbjarnar Egilssonar í Snor.-Edd., Kmh. 1852, II, 181. — 2) skaðlega. — 3) sem fellur voðalega, fótstirður, hrösull. — 4) bergi = berg; fótar-bergi, neðri hlutur fótarins. — 5) borr, viður; fótar-bergis-borr = fótur. — 6) er mèr. — 7) linur, máttlaus. — 8) heyrn. — 9) þrotin.

## 2. vísa.

Ek hvarfa[1] blindr [of branda[2]; [ek bið geira Syn eirar[3] sitja[4]. Ek ber þann harm á [hvarma hnit-völlum mèr[5]; en [jarðgöfugr Hamdis geirr[6], konungr, framdi mik orðum. Gramr[7] hafði forðum orð mín at gamni.

1) hvarfla, geng. — 2) kring um eldibrandana, kring um eldinn. — 3) geiri, eldur; Syn, ein af Ásynjum; geira Syn, kona; konur eru opt kenndar við eldinn, eins og fleiri hluti, sem þær

hirða um; eir, vægð, ró, friður; biðja eirar, biðja friðar; ek bið geira Syn eirar, eg bið stúlkuna að láta mig vera í friði. — 4) til að sitja. — 5) hvarmr, augnalok; hnit, hreifing, bragð, hvarma-hnit, hreifing augnalokanna, augnabragð; hvarma-hnit-völlr, augu. Ek ber þann harm á hvarma hnit-völlum mèr, eg ber þann harm á augum mèr, að vera blindur. — 6) Hamdir, son Jónakrs og Guðrúnar Gjúkadóttur, var grýttur í hel (Snor.-Ed., Reykjavík 1848, 76.—77. bls.); geirr, spjót; Hamdis geirr, spjót eða vopn það, sem Hamdir var veginn með, steinn; aðal-, óðal, jörð; jarðgöfugr Hamdis geirr, Aðal-steinn; jarð-göfugr Hamdis-geirr konungr = Aðalsteinn konungr. — 7) konungur.

## 3. vísa.

Mèr þykkir langt, ek ligg einnsaman, afgamall karl, [firr konungsvörnum[1]. Eigum tvær all-kaldar ekkjur[2], en þær konur þurfu blossa[3].

1) fjærri konungsvernd. — 2) hæla. „Hæll er sú kona kölluð, er búandi hennar er veginn“, Snorra-Edda, Reykjavík 1848, 108. bls. Hæll er þá sama sem ekkja, og ekkja sama sem hæll (á fæti). Eigum tvær all-kaldar ekkjur, eg á tvo mjög kalda hæla. — 3) hita.



## Tímatalið í Egils-sögu

eptir ritgjörð Guðbrandar Vigfússonar í Safni til sögu Íslands.

851. Fœddur Skallagrímur.

865. Haraldur hárfagri vinnur Þrándheim (3. kap., 3. bls.)

866. Haraldur eignast Naumdœlafylki og Hálogaland (3. kap., 3. bls.)

867. Haraldur fellir Húnþjóf konung og eignast Norðmœri og Raumsdal (3. kap., 3. bls.).

868. Orusta Haralds fyrir innan Sólskel við Arnvið og Auðbjörn konung (4. kap., 5. bls.). Haraldur leggur undir sig Sunnmœri.

869. Rögnvaldur jarl brennir inni Vèmund, konung í Fjörðum, bróður Auðbjarnar konungs, veturinn 868 — 869. Haraldur leggur undir sig Fjörðu og Fjalir vorið 869, og setur Hróald jarl yfir Firðafylki (4. kap., 6. bls.). Þórólfur Kveldúlfsson gjörist Haraldi konungi handgenginn (8. kap., 12.—13. bls.).

870. Bárður Brynjólfsson gengur að eiga Sigríði Sigurðardóttur á Sandnesi (8. kap., 13.—14. bls.).

871. Brynjólfur Björgólfsson andast veturinn 870—871. Bárður Brynjólfsson gjörist lendur maður (8. kap., 14. bls.)

872. Hafursfjarðarorusta. Fall Þóris haklangs og Kjötva hins auðga. Bárður Brynjólfsson andast

af sárum. Þórólfur gjörist lendur maður og gengur að eiga Sigríði, ekkju Bárðar (9. kap.)

873. Finnferð Þórólfs veturinn 872—873. (10. kap.). Veizla að Þórólfs um sumarið (11. kap.). Þorgils gjallandi fœrir Haraldi konungi Finnskatt (13. kap.)

874. Þórólfur fer á mörkina veturinn 873—874 (14. kap.) Hildiríðarsynir eru þann vetur með Haraldi konungi (15. kap.). Þórólfur fer um sumarið til Þrándheims á fund konungs (16. kap.). Konungur tekur af honum sýslu á Hálogalandi og Finnferð, og fær Hildiríðarsonum (16. kap., 30. bls.).

875. Hildiríðarsynir fara á fjall um veturinn 874—875. Þórólfur og Faraviður konungur fara á fjall hinn sama vetur. Hildiríðarsynir fœra konungi skatt um haustið (17. kap.). Haraldur lætur taka skip Þórólfs, er Þorgils gjallandi fór með (18. kap.).

876. Þórólfur er heima allan veturinn 875—876 (18. kap. aptast); herjar um sumarið í Austurveg. Um haustið tekur hann upp fyrir Haraldi konungi knör, er Þórir þruma fór með (19. kap.).

877. Þórólfur situr heima veturinn 876—877. Þann vetur fær Skallagrímur Beru og er þá hálfþrítugur (20. kap.). Fall Þórólfs um vorið. Eyvindur lambi fær Sigríðar á Sandnesi (21.–22. kap.). Dráp Hildiríðarsona. Útkoma Ketils hæings (23. kap). Ferð Skallagríms á konungsfund (25. kap.).

878. Dráp þeirra Sigtryggs snarfara og Hallvarðar harðfara. Andlát Kveldúlfs (27. kap.). Skallagrímur kemur til Íslands.

Um 900. Fœddur Eiríkur blóðöx og Arinbjörn hersir.
904. Fœddur Egill Skallagrímsson (31. kap.).
907. Egill var at boði þrèvetur (31. kap.). Útkoma Bjarnar haulds og Þóru hlaðhandar (33. kap.). Fœdd Ásgerður Bjarnardóttir haulds um sumarið (35. kap.).
908. Skallagrímur sendir menn til Þóris Hróaldssonar til að leita um sættir með þeim Birni. (35. kap.).
909. Sendimenn Skallagríms koma aptur með þau tíðindi, að Björn er í sætt tekinn í Noregi. (35. kap.).
910. Utanferð Bjarnar og Þórólfs Skallagrímssonar (35. kap.).
922. Bjarmalandsferð Eiríks blóðaxar. Hèr vill Guðbrandur Vigfússon lesa (eins og sum handrit hafa): *Þórólfr var um vetrinn með Eiríki, en um sumarit í hernaði* (í stað þess, sem stendur neðst á 73. bls.: *Þórólfr var jafnan á vetrum með Eiríki, en á sumrum í víkingu).* Samkvæmt því hefir þá Þórólfur verið fyrra hluta sumarsins 923 í hernaði, en farið um haustið til Íslands (37. kap.).
923. Útkoma Þórólfs Skallagrímssonar (38. kap.).
924. Andlát Brynjólfs Bjarnarsonar veturinn 923—924. Önnur utanferð Þórólfs og hin fyrsta Egils (Egill hefir þá verið tvítugur, en ekki 13 vetra, sem sagan segir í 40. kap.). Þórólfur fær Ásgerðar Bjarnardóttur um haustið (42. kap.). Egill vegur Atleyjar-Bárð (44. kap., 86. bls.). Þórólfur og Egill eru á Aurlandi hjá Þóri Brynjólfssyni veturinn 924—925 (46. kap. í upphafinu).
925. Þórólfur og Egill herja á Kúrlandi um sumarið, og fara, er á leið, til Danmerkur (46. kap.); þeir

brenna Lund (47. kap.). Veizla að Arnfiðar jarls (48. kap.). Aðalsteinn tók konungdóm í Englandi (50. kap.).

926. Þórólfur og Egill eru um veturinn 925—926 hjá Þóri hersi (48. kap., 97. bls.). Blót að Gaulum; víg Þorvalds ofsa. Egill berst við Eyvind skreyju (49. kap.). Þórólfur og Egill koma til Aðalsteins konungs um haustið (50. kap., 102. bls.).

927. Bardagi á Vínheiði. Fall Þórólfs (53.—54. kap.). Egill dvelst með Aðalsteini hinn næsta vetur eptir fall Þórólfs, 927—928. (55. kap., 117. bls.); fer til Noregs sumarið 928 (55. kap., 118. bls.).

928. Egill er með Arinbirni veturinn 928—929 (seinast í 55. kap.); fær Ásgerðar (56. kap., 120. bls.)

929. Egill kemur til Íslands um haustið; hafði hann þá verið utan 5 vetur (56. kap., 120. bls.; sagan segir, að hann hafi verið 12 vetur utan, en það getur ekki verið satt; veturnir eru ekki svo margir, þegar þeir eru taldir).

932. Andlát Bjarnar haulds (56. kap., 121. bls.).

933. Egill fer utan (56. kap., 121. bls.) og er með Arinbirni veturinn 933—934 (seinast í 56. kap.).

934. Egill deilir við Bergönund á Gulaþingi (57. kap.); vegur Bergönund og Rögnvald Eiríksson blóðaxar, og kemur aptur til Íslands (60. kap.). Skallagrímur andast um haustið nokkru fyrir vetur (61. kap.). Hákon Aðalsteinsfóstri kemur til Noregs (62. kap.).

935. Eiríkur blóðöx flýr úr Noregi. Arinbjörn fer með honum (62. kap.).

936. Egill fer utan, kemur um haustið til Jórvíkur og kveður Höfuðlausn (62.—63. kap.).

937. Egill er með Aðalsteini konungi veturinn 936—937; en fer til Noregs um sumarið með Þorsteini Þórusyni (64.—65. kap.).
938. Egill er með Þorsteini Þórusyni veturinn 937—938; finnur Hákon Aðalsteinsfóstra í Þrándheimi, er á líður veturinn (66. kap., 155. bls.); drepur Ljót hinn bleika (67. kap.) og Atla hinn skamma, og eignast jarðir þær, er hann hafði til deilt (68. kap.); kemur út um sumarið (69. kap.).
940. Andlát Aðalsteins konungs (70. kap.).
941. Fall Eiríks blóðaxar. (70. kap.).
943. Egill fer utan, finnur Arinbjörn í Fjörðum, og er með honum veturinn 943—944. (70. kap.).
944. Arinbjörn og Egill herja um sumarið, en skiljast um haustið; fer Arinbjörn til Haralds Eiríkssonar í Danmörk, en Egill til Noregs til Þorsteins Þórusonar (72. kap.).
945. Egill fer til Vermalands veturinn 944—945 (74.—79. kap.); er með Þorsteini Þórusyni það sem eptir er vetrarins; fer til Íslands um sumarið (79. kap.).
Um 950. Fæddur Þorsteinn Egilsson.
960 Fall Hákonar Aðalsteinsfóstra í Storð á Fitjum (81. kap.).
961. Egill yrkir Arinbjarnardrápu (81. kap.).
969. Fall Haralds Eiríkssonar og Arinbjarnar að Hálsi í Limafirði (82. kap.,206. bls.).
Um 970. Ólafur pá fær Þorgerðar Egilsdóttur (81. kap.) og Þorsteinn Egilsson Jófríðar Gunnarsdóttur (83. kap.),
Um 975. Böðvar Egilsson drukknar. Egill yrkir Sonartorrek (81. kap.).

976.-977. Einar skálaglamm yrkir Vell-eklu (82. kap.; vísunni: Sœkjum jarl, o. s. frv., á 207. bls. er skotið inn í söguna af ógáti; hún er ort 18 eða 19 árum seinna, um 995.).

Um 980. Ásgerður andast. Egill bregður búi og fer að Mosfelli (83. kap., 209. bls.).

— 982. Hefjast deilur þeirra Þorsteins Egilssonar og Steinars. Þorsteinn vegur Grana (84. kap.).

— 983. Þorsteinn Egilsson vegur Þránd. Egill Skallagrímsson gjörir um mál þeirra Þorsteins og Steinars (85.—86. kap.).

— 990. Andlát Egils Skallagrímssonar (89. kap.).

1000. Kristni lögtekin á Íslandi (90. kap.).

# Registur

yfir manna og goða nöfn, o. s. frv.

———

# Registur

yfir staða- og þjóða-nöfn.

## Prentvillur og lagfœringar.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 37. bls. | 14. línu: | enn les hinn | |
| 56 — | 6. — | inn — hinn | |
| 57. — | 20. — | Hafrlækjar les Hafslækjar | |
| 63. — | 13. — | ógreiðfœrt — úgreiðfœrt | |
| 70. — | 30. — | Víking les víking | |
| 76. — | 1. — | arna les árna | |
| 82. — | 8. — | Asgerðar les Ásgerðar | |
| 104. — | 18. — | drægi les drœgi | |
| 113. — | 29. — | mart les margt | |
| 119. — | 27. — | Nið-erfi les nið-erfi | |
| 126. — | 14. — | okkar les okkarr | |
| 149.a — | 18. — | sú er mest of lá. les (sú er mest of lá). | |
| 150.b — | 16. — | En les Enn | |
| 161. — | | Blaðsíðutalan á að vera 161. | |
| 186. — | 13. — | A les Á | |
| 204.b — | 1. — | góðum les goðum | |
| 211. — | 22. — | Hafslæk les Hafslœk | |
| 211. — | 23. — | Borg les borg | |
| 236. — | 26. — | nóga les gnóga | |

Á 300. — vantar (eptir Háleygjafylki):
Hálogaland, 3. 10.—12. 16. 19. 20. 22. 23. 26. 30. 32. 43. 44.
(Og eptir Hallgeirsey):
Háls, 173. 206.

---

Kostar óinnfest 1 rdl.

